Andlegar

# Hugvekjur

til

## Qvøld-lestra,

frá

### Vetur-nóttum til Lánga-føstu

og um serleg

### Tíma-skipti,

flestar frítt útlagdar eptir

### Christópher Christjáni Stúrm

af



Markúsi Magnússyni,
Stipt-prófasti, Prófasti í Kjalarness-þingi og
Sóknar-presti til Garda og Bessastada.

---

I. Bindi.

---

Selst almennt innbundid 60 skildíngum.

---

Leirárgørdum vid Leirá, 1802.
Prentad á kostnad Islands konúnglegu
Uppfrædíngar Stiptunar,
af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.



# Til Lesarans.

Hugvekjur þessar, frítt útlagdar eptir þess nafn-togada Prédikara, Christópher Christjáns Stúrms gudlegu Hugleidíngum, dag hvørn í ársinu, vóru einúngis ætladar til Qvøld-lestra í minu húsi, án áforms ad leggja þær prentadar fyrir almenníngs augu; ad þær koma þad nú, er ad tilreikna þeim verdugu Fødurlands Elskurum, Biskupinum sáluga Doctor Hannesi Finnssyni og Hra. Løgmanninum M. Stephensen, sem hvørr fyrir sig gefid hafa óræk merki þess, hvørsu annt þeim var um uppfrædíngu

 Al-



Alþýðu í landi voru; að þessara tilstilli vóru á Alfundi vors loflega Lands-Uppfræðíngar Félags nærstliðið sumar undir álit teknar Hugvekjur þessar; skortur á skynsamlegum og almenníng uppbyggjandi húslestra bókum í landinu, sýndi øllum nauðsyn þvílíkrar uppbyggilegrar bókar til alls vetursins, en þeir, sem þecktu Rithøfund þessara Hugvekja, tóku í engann efa að velja þær framar flestum ødrum, svo sem bæði uppbyggilegar og einfaldar, og því hentugari Alþýðu.

A þýðsku hefir Rithøfundurinn, er var Prestur í Hamborg og dó 1786, skrifað þessar Hugvekjur, sem síðan vóru á dønsku útlagdar 1778 og tvisvar á prent útgéfnar í Kaupmannahøfn, medteknar allstaðar með almennings ánægju og hrósi. Hvað útleggíngu þessara Hugvekja á Islendsku viðvíkur, finnur útleggjarinn minna efni til afsøkunar hjá þeim lærdari, er þeckja þetta Stúrms verk á þýðsku eða dønsku,

dønsku, fyrir þad, sem hér allvída afvikid er, ad meiníngu og ordalagi, í þeim einum tilgángi, ad gjøra efnid ljósara og nær lagad einfaldrar alþýdu skilníngi, heldur enn fyrir hitt, sem enn kann ábátt ad vera í stýl edur talsháttum, verdi þesskonar misfellur fleiri og stærri, enn Hra. Løgmadur M. Stephensen fái vid þeim gjørt, hvørjum þó er ad þacka verks þessa sídustu umbót. Hann hefir og valid til flest þau vers og nockrar af Ritníngar-greinunum, sem eptir Stúrms máta standa framan vid Hugvekjurnar; þau vers, sem ecki eru gømul, eru flestøll úr vorri nýju allramildilegast uppábodnu Messusaungs- og Sálma-Bók, sem um skammt mun útkoma. Ný-gjørdum Missira- og Ara-skipta samt Stór-hátída Hugvekjum er inní aukid, svo ad kaupendur framvegis megi án vera þess fánýta Missiraskipta Offurs og annara jafn-magurra missira-lestra í eldri bókum.



Hafi þetta I. Bindi veikt þessa heppnt þá að gêdjast vel Alþýðu, eða þó heldur, nái Alþýða heppni þeirri, að sjá og finna þess not, má framhaldsins síðarmeir vænta, hvar á meðal eru Föstu-Hugvekjur nockru lengri enn þessar, út af Jesú Pislar-sögu. Að Lesarinn hafi sömu not og ánægju af verki þessu, sem útleggjarinn fundið hefir, er honum gleðilegust umbun fyrir það ómak hann hêr til varið hefir.

Görðum á Alptanesi,
þann 1ta Maji 1797.

M. Magnússon.



I. Hug-



# I. Hugvekja.

## á sídasta Sumar-dag.

Fyrr enn fjøllin urdu og jørdin og veröldin var sköpud, ertú Gud frá eilífd til eilífdar. — Vér framleidum vora ára-tølu, sem æfintýri, Psálm. 90.

Já, svo er þvi varid fyrir oss, ádur enn margañ vardi, er hérveru-tíminn á enda. Upphaf og endir vorra lífs-stunda, er hvørt ødru harla nálægt; lífsins fyrsta augnablik, minnir oss strax á þad sídasta, og lífid sjálft er vegur til daudans. Hvørr tímiñ eptir annann hverfur burt med sífeldum umbreytingum, og ber oss med sér, allt eins og fossandi vatns-straumur med óstødvanda flugi, fram í eilífdarinnar grunnlausa haf; þessa lærdóma prédikar oss sérhvørt sólarlag, og þó enn framar sérhvør tímanna umbreyting, en o! hvørsu miklu heldur endir sérhvørs missiris, sem leidir oss svo miklu nær þvi fast ákvardada lífsins enda takmarki! en, máské vér aldrei ígrundad høf-

um, hvørsu skammvinnt þetta líf er, fyrr enn á þessum sídasta Sumar-degi. O! ad þessar hugleidíngar fengju nú gjørt oss vísari og dygdugri! þúsundsinnum erum vér hér um áminntir, og þúsundsinnum høfum vér þvi aptur gleymt; vér høfum gjørt oss hégomlegar hugsanir um komandi tímana án þess ad hugleida, ad enginn er fullviss um ad fá lifad þad nálægasta augnablik. Vér leidum oss ætíd í hug, ad vér enn munum ega lángt líf fyrir høndum, en verdum þo ecki þess varir, ad hvørr dagurinn, hvør stundin, hvørt augnablikid, sannfærir oss um þad, ad vort líf sé fallvallt, og vor tíd stutt og flogin á burt; nú er þvi tími til ad sjá ad sér, en ecki lengur tími til ad ala og enda lífid í þvílíkri blindni, þvílíkri fásinnu, ecki lengur tímt til ad treysta ovissum og ókomnum æfi-stundum. O! ad þessi sídasti Sumar-dagur mætti nú vekja oss til ad hugsa alvarlega til sjálfra vor, svo vér ecki framar drøgum oss á tálar med eginn hugar-burdi og hræsni vid sjálfa oss. O minn Gud! hvørsu óverdugur er eg þess, má hvørr af oss segja, ad þú ecki fyrir laungu sídan hefir afskorid minn veika lífsins þrád, stytt mína daga,

daga, og ryckt mér burt midt í mínum hé-
gómlegu óskum! hvørninn kunnum vér
nóglega ad þacka þér, ad þú enn þá allt
þetta Sumar út hefir sjed ígégnum fíng-
ur vid oss med mikilli vægd og lánglund-
ar-gédi, og látid sérhvørn afliðinn Sum-
ar-dag verda velferdar-dag í voru lífi!
hvørnig megum vér endurgjalda þér alla
þá velgjørnínga, sem þín nád og óbreyt-
anleg godgirni hefir látid falla í vor skaut,
á sérhvørjum degi þess umlidna Sum-
ars! o Gud! vér megnum ei annad enn
ad medkénna allann vorn overdugleika,
og audmýkja oss í duptinn fyrir þér. Med-
tak því, o vor Gud! í nád, í Jesú nafni
þetta offur, frá vorum hrærdu og ydrandi
hjørtum. Líttú enn þá miskunsamlega nid-
ur til vor, nú þegar vér á í hond faranda
Vetri, felum oss med lífi og sálu þinni
varatekt, þinni trúu vegleidslu, því grunn-
lausa afgrunni þíns kjærleika! haldt þú
enn þá áfram med ad audsýna vægd og
vorkun og lánglundar-géd oss vesælum
syndurum, sem uppá enga egin forþénustu
høfum ad reida oss, heldur leitum einúng-
is hælis hjá þér, setjum einúngis allt vort
traust á hid fullkomna forlíkunar-off-
ur, sem Jesús þinn Sonur hefir út-

sagt til betalings fyrir syndarana. Lát þína náð leida oss trúar-örugga í þínum kiærleika, svo ad vér huggun finnum í tíma og eilífð í þér og þinni miskun, sem þar eilíflega vara mun, hvar engin tíma-skipti Sumars og Veturs verda framar. Amen.

## 2. Hugvekja.

### á fyrsta Vetrar-dag.

Verid gladir af voninni, Róm. 12.

Aldrei fáum vér ímindad oss vort ástand í heiminum óttalegra, heldur enn ef svo stædi á högum vorum, ad vér vogudum ecki ad vona, ad sá almáttugi og gædskuríki Gud, vildi framvegis vera vor Fadir, hvörs forsjón, adstod og blessun vér afhenda þyrdum allt vort ráð. Tídin, sem opnast nú fyrir vorum augum, hvörsu armædu- og ángistar-full mætti hún ecki verda oss, ef ad sú huggun styrkti oss ecki, ad hann, hjá hvörjum engin umbreyting er, mundi leida oss farsællega í gégnum allar tímans biltíngar! hvörr hefir nockurnveginn æfda þeckíngu á þessum alstjórnanda Drottni,

sem

sem ecki med lotníngu vidurkénni, ad veik mannskêpna má hans nádar aldrei án vera, nockurn dag, nockurn tíma, nockurt augnablik? hvørsu ómøgulegra væri oss þá ecki ad afþreyja allann þennann Vetur, án þess ad mega reida oss uppá hans adstod? en, hvørsu innilegt hjartans þacklæti ber oss þá nú ad færa vorum miskunsama Gudi fyrir þá huggun og ánægju, ad vér vona megum, já, vita fyrir víst, ad hans fødurleg forsjon vakir yfir oss. Í þeirri efalausu fullvissu, ad hann vegna síns Sonar Jesú vilji vera vor Gud og fadir, inngaungum vér hughráustir og óqvídnir þennann byrjada Vetur; nógar høfum vér ad sønnu orsakir til ótta og órósemi, er vér setjum oss fyrir sjónir bædi drýgdar syndir, og þær sem vor breiskleiki, vort gáleysi, vorar girndir á honum leida kunna yfir vor høfud, þær freistíngar, sem oss á honum mæta munu, þann veikleika, sem á honum þjaka kann líkami vora, þau margføldu rauna tilfelli þess mannlega lífs, sem alloptast samferdast því, ecki síst á þessu tímans skeidi. Þó viljum vér ecki láta hugfallast, heldur snúa vorum augum og von til hans, sem nefnist og

er

er vor Gud, vor hjálpari og vor fadir; hjá honum er nád og mikil fyrirgéfníng, þegar ydrandi syndari leitar miskunar hjá honum, hann er sá sterki Gud, sem máttugur er ad útryckja oss af øllum háska og naud og freistíngum; hann einn má vernda og lækna oss af øllum veikleika, og stjornar án efa øllum vorum atburdum og tilfellum oss til besta. Vér skulum því ecki bera heidínglega áhyggju fyrir þeirri ókomnu tíd, heldur svo sem kristnir varpa allri vorri áhyggju uppá hann, sem svo vel mun fyrir oss øllum umhyggju bera, já, frambera fyrir hann allar vorar naudsynjar; mæti oss þá í nótt, þann dag, sem á morgun kémur, og allann Veturinn út, hvad sem helst mæta vill; hvørt sem vér lifum þennann Vetur heilann eda hálfann, eda nockud lítid af honum vid heilsu edur vanheilsu, vid lucku edur ólucku, vid sorg edur gledi, svo verdi á oss hans vilji, sem ætíd vill oss hid besta og fulltreystum því, ad hvad sem hann lætur fram vid oss koma, er oss hid besta; en máské oss audnist nú ecki nærsta dags morgun-ljós ad líta, enn sídur enda þess ný-byrjada Vetrar; máské vér deyja kunnum jafnvel

á þess-

á þessari nóttu, og eilífdarinnar morg-
un renni oss upp ádur enn nýr dagur, ell-
egar máské ný reynsla á nýjum Vetri, sé oss
enn geymd; hvert heldur, sem er, erum
vér gladir af voninni, fullvissir um, ad
hvad helst Gud lætur oss ad höndum
bera, verdur oss fyrir bestu, ad hvört,
sem vér lifum edur deyjum á Drottinn
ráð á oss, og ad úr hans födur-hendi fær
enginn oss slitid; honum felum vér og oll
vor efni. Æ! virdstu nú, almáttugi
Gud og Fadir! ad blessa og vardveita oss
á komanda Vetri! undir þinni vernd og
blessun megnar engin ólucka par á móti
oss, engin háskasemd ad torthýna oss, eng-
inn veikleiki ad raska vorri von, engin synd
ad ofbjóda né daudinn ad auka oss skélf-
íngu. Vertú, ó Gud! vor Fadir og Gud,
í medlæti og mótlæti, í lífi og í dauda!
Amen.

## 3. Hugvekja.

Svo hátt sem himininn er yfir jerdunni, svo
máttug er Guds miskunsemi yfir þeim
sem hann óttast, Psálm. 103.

Ad vér ánægdir fáum nú endad þenn-
ann dag og væntum ógvídnir
morg-



morgundagsins, er ávøxtur þess trúnadar-trausts, sem vér berum til gædsku vors almáttuga Guds, hann einn hefir allt þad til ad bera, á hvørju vér grundvalla megum alla vora von; hann einn þeckir grant og sjer alla vora þørf og alla vora armædu, hann einn þeckir og velur þau bestu medøl til ad aflétta þeim. Munum vér hans augum huldir vera, sem svo dásamlega skapadi oss? mun nockud honum ókunnugt, af því, sem kann ad gagna oss edur skada? vid þessa þeckingu, sem hann hefir á oss, og øllum hlutum, er sameinadur sá Guddóms máttur, hvørjum enginn fær mótstadid, hvørjum øll náttúran verdur ad hlýda, eda mun ecki vor egin og hlutanna tilvera, fá þetta nóglega sannad? og hvørr fær hindrad Skaparans mátt, sem med einu ordi megnar ad gefa ádur óskoptum verøldum mind og tilveru? med því ad fulltreysta hans guddóms almætti fáum vér allt andstreymi yfirunnid, allar hindranir sigrad. Þó er oss eckért huggunar-ríkara, enn ad vita nád og miskun vors Guds eins vendanlega og hans mátt og vitsku, og ad hann lángtum tunilegar elskar oss, enn nockur módir

einka

einka barn sitt. Það er hans gæðska, sem hrærir hann til að auðsyna á oss almætti sitt og viðrétta vorn eymdahag, og hvörsu gleðjandi, hvörsu friðandi má ecki sá þánki vera vorum sálum þegar vér yfirvegum, að þessi gæðska, þessi máttur og vitska eru engum umbreytíngum undirorpin, heldur munu vara ó-umbreytt frá eilífð til eilífðar! já, Guð er og verður æ megnugur að uppfylla það, sem hann hefir oss heitið, sífellt er hann fús að gjöra oss gott, ef að vér sjálfir brjótum ecki af oss hans gæðsku. O! hvörsu farsæla megum vér þá prísa sjálfa oss, þegar Guð Jacobs er vor hjálpari, og vor von grundvallast á honum, sem skapað hefir himin og jörð, sjóinn og allt hvað í honum er, á honum, sem heldur sín fyrirheit eilíflega! þareð nú þetta trúnaðar-traust, gjörir oss svo farsæla, látum oss þá ætíð varðveita þann ásetníng öldúngis að fulltreysta honum, látum þá jafnvel ecki það bágasta ástand, né mótdrægustu tilfelli vors lífs megna að veikja vora von, heldur þegar vér forgéfins væntum hjálpar af mönnum, látum þá vort traust á honum vera því öruggara; en því öruggari, sem vor

von



von verdur á honum, því meiri ánægju, því meiri rósemi finnur vort hjarta; þó allir vorir vinir yfirgéfi oss, er þó Gud vor eini óbrygdulí og trúfasti vinur; verdi þá svo dymmt í kríngum oss, sem verda má, Drottinn er þó vort ljós; umkríngi oss þá svo margar hættur og háskasemdir, sem vilja, Drottinn er vor verndari og frelsari; verdi þá vor líkamans veikleiki svo mikill, sem má, Drottinn er vor styrkleiki, vor grædari; verdi daudinn oss þá svo bitur, sem hann verda má, Gud er vor lífs kraptur og vor sáluhjálp. Æ! vort líf mega þá hitta þau vandrædi, sem vér hvørki fáum fyrirsjed, afstýrt né áqvardad, því í sérhvørju ástandi vors lífs, og øllum þeim tilfellum er oss í því mæta kunna, er og verdur Gud vort hæli, vort hellubjarg, vor kastali uppá hvørn vér reidum oss, hann er vor Gud og fadir kjær, sín børn aldrei forlátid fær. Med þessu hugar-fari endum vér nú þennann dag og viljum uppbyrja daginn á morgun, en bidjum þig audmjúklega, miskunsami Gud! ad styrkja oss í því til enda vors lífs; unn oss, med krapti þíns anda, ad yfirvinna alla hjartans vantrú og óstød-

ug-

ugleika; já, unn oss, med sáluhjálplegri von, jafnan ad vænta alls gods af þinni miskun og náð; lát oss æ lifa þér til dýrdar, svo vér æ megum lofa og vídfrægja þitt almætti, þína speki og þína gædsku vid oss, Amen.

## 4. Hugvekja.

Drottinn hatar þá, er temja sér vondt sinnislag, en á þeim, sem framgánga á hans vegum hefir hann velþóknun, segir Salómon.

Vér qvídum máské þeim vegi, sem vér nærsta dag gánga skulum. Það er allt offsatt, ad oss fellur yfrid þúngbært ad fullnægja Jesú krofu til sinna eptirfylgjara, þeirri nefnil.: ad afneita sjálfum oss og vorum girndum, ad taka uppá oss Krists kross, og þannig fylgja honum eptir; en látum oss, mín sál! ecki skélfast af þeirri mædu, er mætir oss á þessum vegi; hvar fáum vid nockud veglegt ødlast eda áunnid í heiminum mædu- og ómaks-laust? hvorr féssjódur má ablast og vardveitast án umhyggju? því undrumst vid þá, ad þad kosti ómak ad ødlast sanna farsæld? eda mun kannské meiri mædu og ómak þurfa til þess, ad

vera sannkristinn, enn lastanna brœll? berum þó saman að öðru leiti mœðu og erfiðismuni þá, sem hafa þarf fyrir þessu jarðneska í lastanna þjónustu, við það óvissa, fánýta, já, allopt hrœðilega endurgjald, er þeir veita. Berum að hinu leitinu saman umhyggju þá, er ockar velferð krefur, við þau ómetanlegu gæði, sem ockur eru víss í dygðanna skóla Ecki þarf lengi til þess að leita, að við verðum þess vísari, að heimurinn aldrei umbunar að fullu, og sjaldan vel þeim hann elska, né þá mœðu, sem þeir mega fyrir honum hafa; en þar á móti, að enginn jöfnuður er á milli þeirrar mœðu, þess stríðs, þeirrar umhyggju, sem við hljotum að hafa fyrir ockar velferð, og þeirra verðlauna, sem ockur eru geymd í varanlegri gleði. Þyki vegferðin mœðusöm og hlaðin motlætíngum, látum ockur þá til hugar koma, hvörsu mikla mœðu, hvörsu mikla baráttu, hvörsu bitrar píslir það kostaði ockar Jesúm, að leiðbeina ockur til eilífrar velferðar um þann veg, sem við nú egum eptir honum að feta; hvörsu lengi hlaut hann ecki að yfirgéfa sinnar guððóms dýrðar samastað, til þess að sœtta heiminn við himininn

og

og sigra helvíti, en afreka ockur eilífdar- innar sælu? í hvílíkri fátækt og van- virdu mátti hañ ecki lifa? med hvílíkum óútsegjanlegum píslum mátti hann ecki daudans beiskju smacka? skulum vid þá, mín sál! mögla og qvarta, þar vegur- inn er ockur ruddur og hinn mesti farar- tálmi eyddur, en von géfst ockur örugg um ómetanlegt verdkaup ad endalokum? nej, o Jesú! lengur skulu þínar endur- leystu mannsképnur ecki qvarta yfir, ad torveldt sé ad hlýda bodum þíns sanna kristinndóms; lengur skal eckért undan- draga vorn ásetníng, ad fylgja þeim vegi med glodu hjarta, sem þú hefir oss búid; engin mæda skal oss frá því hræda, trú- arstyrkvir ad vinna þenna sæla sigur, hvörs umbun er eilíft líf; hvörsu lítils- verdt er ecki allt þad ersidi, oll sú mæda, sem vér fyrir þad lída hljótum? sá beisk- asti kaleikur, sem fyrir oss kann ad á- skenkjast, er hvörgi nærri svo beiskur, sem sá, er þú hlautst af ad súpa; engin sjálfs afneitan kann í nockurn samjöfn- ud ad koma vid þína; þær súrustu sman- anir heimsins barna eru eckért ad reikna á móti þeirri vanvyrdu, sem þú saklaus þola máttir, og beiskja vors dauda er eck-

ért á móti þeirri daudans qvøl, sem þú leidst; já, hvørsu lángviñt, sem vort andstreymi er, tekur þad þó um sídir enda, og þá høfum vér yfirunñid allann ørdugleika, þá er øll vor neyd á enda, og þá eru allar háskasemdir yfirunnar; þá leidumst vér inní vort fyrirheitna føđurland, til þess ad njóta óumrædilegrar sælu, og hvørsu skjótt mun þá ecki gleymt, ad vér hér á jørdu þola máttum lítilsverda og skammvinna mædu og erfidi, til þess ad ødlast endalausa rósemd og gledi á himnum.

# 5. Hugvekja.

Haldtú því, sem þú hefir, ad enginn taki þína kórónu, Opinber. b. 3.

Þegar þannig er varid mannlegu ástandi, ad á hvørju augnabliki má fyrir því óttast, ad rósemi og ánægja missist, og vér jafnvel lída kunnum tjón á vorri egin sálu, vyrdist þad harla naudsynlegt, ad verja til nágvæmustu umhyggju og vísustu varsemi í øllum efnum; skodum vér heiminn, sem vér lifum í, med gløggum augum, munum vér fiña, hvørsu mikla þørf vér høfum á, ad verja mestu árvekni og alúd til farsældar vorri sálu,

sálu, því af hvørju er heimurinn ríkari, enn sífeldum ginnandi og freistandi tálsnørum, þó er eckért, sem optar og voldugar drottni yfir hjørtum vorum enn áhyggja þessa lífs, audur og vellyst, og hindri oss svo tídum frá umhyggju vorrar egin andlegu velferdar. Þegar vér gefum hjarta voru ad øllu leiti taum til jardneskra sorga og sýslana, berum vér þó eckért annad úr býtum enn órosemi og leidindi, og hvørsu margfaldar eru ecki þær orsakir, sem tendra líkamlegrar áhyggju eld í spilltum manna-hjørtum; stundum sturlar þad umlidna oss, og vér unum því illa, ad Gud hefir leidt oss ødruvísi, enn vér óskad hefdum, og heimskulega gjørt oss í lund ad betur fara mætti. Stundum erum vér hugsjúkir vegna komandi tímanna; nú er eg þegar, segir hinn veiktrúadi, svo naudstaddur og þurfandi, hvadan mun eg nú ødlast lífs uppheldi hédan af? stundum erum vér óánægdir med yfirstandandi tíma, hvørsu mikid gott, hvørsu marga, hvørsu miklvæga velgjørnínga, sem Gud lætur oss í tje og hlotnast, erum vér þó ætíd óánægdir; hvørsu létta byrdi, sem hann leggur á oss ad bera, finnst oss hún ávallt ó-

 

bærileg; en höfum ér þaradauki drottnandi og óstjórnlega tilhneigíngu til tímanleara gjæda og vellysta, villumst vér enn þá lengra, vor andlegu efni verda þá léttvæg í vorum augum, vorrar sálnhjálpar dýrmætustu lærdoma vyrdum vér þá lítils, og himin og helvíti, sem smámuni. En þegar svo lángt er komid, eru fá stig eptir ofanin til eilífrar glötunar; skyldum vér þá, í þessu ástandi, og í þessum heimi, sem þvílíkar tálsnörur henr búnar hvörjum af oss, framana þánkalausir! nei, þad sé fjærri! látum oss í kyrrdum og einrúmi ransaka nákvæmlega vort egid hjarta, og þann heim, sem vér lifum í; látum oss kappkosta ad vardveita hreint og óspjallad vort hvikula hjarta, sem hægt er ad leida afvega í heiminum, já, látum oss stadfastlega ásetja ad stjorna því og verka vora sálubjálp med ugga og otta! nóga orsök höfum vér til ad vera hugsjúkir vegna vors egiñ óstödugleika, sem svo audveldt veitir afvega ad leida, og hvörsu hanarlega látum vér ecki af sérhvörri minnstu lockun og freistíngu sigrast, ef vér vogudum ad hætta oss úti heimsins tælandi vellystir, treystandi einúngis vor-

um

um eginn kreptum? hjá oss er eckért megn ad finna, til ad sigra heimsins véla-brøgd né syndarinnar tillockanir. Vér bidjum þig því, o vor Gud! gjør þú oss sterka til ad strída mót syndinni og heñar tillockunum. Vaktú sjálfur yfir vorri sálú, ad hún ecki afvega leidist og tapist med øllu. Sýndú oss þær heimuglegu tálsnørur, sem leggjast í vegiñ fyrir vorn góda ásetníng, og leid vorn fót frá neti því, sem vort sakleysi kynni ad festast í; þá fáum vér farsællega sigrad allar freistíngar, og þá mun vor ódaudlega sál frelsud, sem án þinnar hjálpar yrdi tortýnd. Æ! vardveittú oss, miskunsami Gud! vegna þíns sonar Jesú Krists, og géfdú oss nád til ad strída því góda strídinu, svo vér verdugir fiñast mættum, ad ødlast ad lokunum trúariñar umbun, þad eilífa lífid, Amen.

## 6. Hugvekja.

Lát þig ecki skélfa þad, sem þú lída átt: vertú trúr til daudans, og þú skalt ødlast lífsins kórónu, Opinber. b. 2.

Vér qvørtum svo tídum yfir lífsins mædu og þreyngíngum, yfir því

 strídi,

strídi, sem vér megum útstanda, jafnvel einnig yfir þeim motlætingum, sem vér enn megum vænta, en hugleidum vér grandgiæfilega yfir hvørju vér qvørtum? er þá allt þad oqédfelda, sem vér finnum til, svo mikid í siálfu sér, ad þad verdskuldi þvílíkar umqvartanir, hvílíka sorg? metum vér þá og réttilega gledina, sem Gud unnir oss á moti þeirri sorg, sem hann stundum lætur oss til handa bera. Minnumst þó á motlætis døgumum vorra medbrædra, sem þola mega þýngri motlætingar og meiri þjáníngar enn vér, sem ega ad berjast vid fátækt og forakt, baktal, offoknir, sottir og siúkdóma; máské eg sé frí fyrir þessari þúngbæru reynslu, máské mínir brædur í heiminum, sem bjúgir og ørmæddir stynja undir motlætinganna þúnga, vildu gladir skipta sínum kjørum vid mig, og þó eg þola ætti allt, sem holdinu biturt og þúngbært er, mættu þo Jesú píslarvottar lángtum þýngra lída; þeir voru í sífeldri daudans hættu, allt af undirokadir ógnarlegustu píntingum og hørdustu offóknum. Fátækt og vanvyrda, baktal og siúkdómar, allt þetta er þó ecki annad enn smámunir á moti þeirra pýslum, vid

hvørra

hvørra eintómt nafn, mannleg náttúra titrar. O! hvad eru þó vorar, hvad eru allar píslarvottaña hørmúngar, á móti þeim, sem vor Endurlausnari þola mátti fyrir oss, hvørninn má þeirra nockurn samjøfnud finna? þær syndir, sem oss ángra, særdu hann miklu meira; þann kaleik, sem vér einúngis smockum á, mátti hann í botn afdrecka med allri hans beiskju. J øllum vorum tilfallandi eymdum, í øllum vorum strídustu motlætíngum, høfum vér þó þá huggun, ad þær muni ecki lengi vara. O! hvílíka upphvatníngu finnum vér í Jesú píun, til ad bera vorar lídanir med því meira stødugløndi! af hans dæmi sjáum vér, ad Gud er oss ecki svo strángur, þó hann leggi oss motlætis byrdi á herdar, sem hann var sínum eginn Syni. Því skyldum vér ætlast til ad bada sífellt í rósum, fyrst Guds eingétiñ Sonur mátti þyrnibroddanna kénna? þó vér lídum spott og smán, órétt og øfund, já, sjálfann daudann, hvørja orsøk høfum vér samt til ad møgla? hefir ecki Sonur Guds lidid allt hid sama fyrir oss? lifum vér í fátækt og vanvyrdu, æ svo minnumst á Jesúm, sem jafnvel þó hann værí í Guds

 mind,



mind, tók á sig þjóns mind; þó hañ væri fullríkur, gjørdist fátækur vegna vor. Verdum vér ránglega baktaladir og vanvyrdtir; lítum þá til Jesú, hvørr svo miklu meiri vanvyrdu þoldi fyrir sakleysi, fyrir gott. Séum vér staddir í sorgum, ángistum, eymdum og mædu; miñumst þá á vors Endurlausnara daudans ángist, sem útpressadi hans blóduga sveita, til hans dauda á krossinum. Fiñist oss tídin laung, uns vér hédan leysast fáum; reññum þá augunum til þeirra dýrdlegu endaloka Jesú pínu; heñar vegna þorum vér sómuleidis ad vænta oss sáluhjálplegs og dýrdlegs enda á øllum vorum þjáníngum. Ef vér kappkostum ad vardveita þessa þánka stødugu, kuñum vér med gladværd og ró taka sérhvørju, sem ad høndum kémur.

## 7. Hugvekja.

Svo skulum lífid vanda vel, sem vildum óskad hafa þá, oss hédan dregur dapurt hel, dómstól Guds fyrir himnum á.

Hvørsu þánkafulla mætti ecki sú hugleidíng gjøra oss, hvad sorglegur mun

mun ecki morgum sá þánki: máské eg legg-
ist nú í seinasta sinni í sæng mína í qveld,
máské eg á þessu qvöldi njóti í sídasta sinni
gledilegrar umgengni med vinum mín-
um. Hvørsu sorglegur, sem nú þessi
þánki vera má, er þó hans tilefni hvørki
hégómlegt né ólíklegt; hvad er veik og
forgengileg mannsképna annad enn af-
fallandi laufblad og visnandi blómstur?
óteljandi tilfelli kunna til ad bera, sem
orsaka daudann, og sérhvørjum af oss
er ókunnugt hvílíkur danddagi enda gjora
muni á voru lífi; máské eitthvørt til-
felli, sem sviptir oss rænunni, rycki
oss burt; strídur sjúkdómur í skyndíngu
svipti oss lífinu; mis-stígid spor, ófall,
jafnvel kaldur vatns-dryckur, já, þúsund
tilfelli, sem vér hvørki þeckjum né sjáum
fyrir, kunna, fyrr enn varir, ad leggja
oss í grøfina, því vor burtferdar-tími er
oss æ hulinn. Enginn morgun géfur
nockrum af oss þá fullvissu, ad vér til
qvölds munum heilbrygdir lifa, og eckért
qvöld, ad á komandi nóttu grípi helsóttin
oss ecki. Hvørr er sá, sem viti, hvørt
hann géfa muni upp andann á medal
vina edur óvina, kunnugra edur ókunn-
ugra, í fátækt edur ríkdómi, í manna
ná-



náveru ellegar einmana, í einu orði: allt styrkir þá vissu að skéð géti eg í síðasti sinni sjái heimsins ljós á þessum degi, og ef nú svo yrði, ef einhvørr af oss héldi nú síðustu qvøldbæn í þetta sinn, kynnum vér þá ánægðir að mæta þeim tíma, sem apturlykti vorar varir í síðasta sinni? æ! vor Guð! ef hvørr af oss deyja ætti svo undirbúinn sem nú, mundi skjótt útgjørt um vora velferð. Því biðjum vér þig, náðarfulli Guð! gefðú oss náð, að tilreiða oss með bæn og árvekni undir vorn síðasta burtfarar tíma, sem koma kann að þegar vér síst væntum og fyrirbúumst. Máské þessi qvøldbæn verði vor síðasta, en því alvarlegri ætti hún að vera; máské þessi verði vor seinasti olifaði qvøldtími, því einlægari veri sá ásetníngur að brúka hann vel, og endurkaupa hvørt forsómað augnablik, með þeim ókomnu, þángað til það síðasta aðber; máské vér í seinasta sinni sjáum vora vini og vandamenn á þessu qvøldi, því framar ber oss að unna þeim, og því trúlegar að taka vara á vorum skyldum við þá; máské þessi verði dagurinn, sem vér seinastann egum að bera heimsins mótlætíngar, því þolinmóðari

skul-

skulum vér lída allt þad, sem á móti blæs, og því stoduglyndari vera í hvørju því tilfelli, sem ad høndum kémur. Um þína náð þar til bidjum vér þig, kjærleiksfulli, nádar-ríki Fadir! komi þá daudiñ og yfirfalli oss, nær sem vill og hvar sem vera skal, vér munum óttalausir til hans tala: kom þú sæll, þegar þú vilt! og afhendum svo, í Frelsarans Jesú nafni, vora sálu, med þolinmódu og glødu gédi, í hans hønd, sem hana skóp og gaf.

## 8. Hugvekja.

Þad er gott ad þacka Drottni og syngja þínu nafni lof, þú allra hærsti, ad kunngjøra þína miskunsemi á morgnana, og þinn sannleika á nóttunni, Psálm. 92.

Umskipti dags og nætur benda til veikleika og óstødugleika þessa heims, ad sønnu er nóttin áqvørdud til hvíldar og svefns, til ad styrkja náttúruna, og endurnæra líkamann og vora veiku limi, en þar hjá er þad merki til veikleika náttúru vorrar, og hennar forgengilegleika, ad hún þarf þvílíkrar endurnæríngar vid; en í himninum er ecki þessa børf, því himna-búarnir þreytast aldrei né veikjast.



A medan vér búum í þessum heimi, brýtur dagsins erfidi þegar nóttin yfirfellur, en á himnum taka sælar sýslanir engann enda; þar gétur engin verkleysa, eckért vannmætti, engin ydjulaus stund verid til. Þegar næturtímunum í þessum heimi er eydt í ydjuleysi, finnast þeir lángsamir og leidinlegir á medan augun vaka og svefninn flýr oss. En øll vor dvøl í himninum er eintómt líf og ljós, sífeld ánægjusøm ydjusemi, gledi og vaxandi heilagleiki og føgnudur. A medan vér jardríkid byggjum, er oss tídum í náttmyrkrinu villuhætt á afvega slódir, en í ødrum heimi þarf enga þvílíka hættu ad óttast; allir himnar upplýsast af Guds nálægd; hvørt augnablik í þessu gledinnar landi, er eintóm ánægja, og dagsins ljós skín þar eilíflega yfir þeim, sem þar búa; þá nætur-myrkrin tilbyrgja dagsins ljós, hverfur vorum augum øll náttúrunnar prýdi á jørdunni; en í himninum fáum vér sífeldt ad sjá uppljómandi dýrdar glansa þess eilífa lífs; þeirrar Paradísar ljómi skal oss aldrei hverfa, aldrei leidast þar ad sjá, og þar ad smacka þá sælu, sem eckért auga hefir sjed, eckért eyra heyrt, og aldrei hef-

ei hefir í nockurs manns hug edur hjarta komid; ó! hvørsu tídum dregur fáfrædis og uggleysis myrkur fyrir skilníng og greind vorrar sálu, á medan vér búum á jordunni! sjaldan høfum vér þann andans fýrugleika til ad bera, sem Gudi er þócknanlegur; hvørsu kaldur og dosin er ecki vor kjærleiki til vors besta fødurs og Guds? hvørsu treg og hálfvolg elskan til Guds Sonar, sem þó elskadi oss svo heitt! en þá vér komnir erum í þad sanna farsældar land, verdur vor ánægjufyllsta ydja, med andans gladværd, ad sjá, elska, dýrka og lofa Gud; engin tregda, dosinleiki eda sinnuleysi skal þá framar hindra vora helgudu krapta frá þessari farsældar ydju. Loksins géfur oss hvør sú nótt, sem dregst yfir, umþenkíngarverda afmálun daudans; nótt og náttúrhvíld má álíta, sem einhvørn skammvinnann dauda, er umskiptist med margvíslegum athøfnum þeirra lifendu. Eneins og í himninum enginn svefn hefir stad, svo er þar hvørki daudi né nockur daudans ímind, því allt er þar einskjært líf og gledi. Allir kraptar eru odaudlegir, allar lifandi verur eilífar; á allri þessari farsæld egum vér von, þegar sá fagn-



fagnadarfulli morgunrodi uppríſu dagſins reñur upp yfir oſs; en á medan vér búa hljótum í þeſſum heimi, hvar dagur og nótt, ljós og myrkur, erfidi og róſemi ſífeldt ſkiptaſt um, viljum vér, gladir í voninni, vænta og bída þeſſarar farſælu umbreytíngar, og leitaſt vid, med alvarlegri áſtundun, ad gjøra oſs verduga þeirrar luctu, ſem um allar eilífdir bídur vor hjá Jeſú í dýrdinni.

# 9. Hugvekja.

Hvørr ſem ljúfann Gud lætur ráda, líka vonar á hann ætíd, vill þann Drottinn vernda og náda, víſt þó ad dynji neyd og ſtríd; hvørr ſem vid Gud ſér heldur tryggt, hús þeſs er ei á ſandi byggt.

Þad er hinn fyrſti tilgángur Guds fyrirætlunar med oſs, ad vér lifum samhljoda vors Skapara heilaga og góda vilja, og útveljum þan medøl, ſem þéna til þeſs, er hann vill; hér í ætti mañeſkjan, ſem ſkynſemdarfull ſképna, ad líkjaſt Gudi, ſem þeſs vegna gaf ſálu hennar frjálann vilja til ad útvelja og hafna; en, því midur! þeſſum vísdómi gløtum vér optlega, og því hnegiſt viljinn opt til

ens verra, já, hvørsu opt verdum vér ecki þessa varir, ef vér íhugum og ransøkum vorar tilhnegíngar? hvørsu opt veljum vér ecki af heimsku þá hluti, sem vér fordast ættum, og þvert á moti høfum andstygd á hinu, sem vér ættum ad elska? Þad, sem vér einatt siáum og reynum hafa hjá ofs þá hásikasomu verkun, ad nidurdempa tilhnegíngu til Guds ótta í sálu vorri, er einkum ríkdómur, vyrdíngar og vellyst; þetta eru þeir Gudir, sem menn tilbidja, og vænta sér rósemi og lucku af þeim, og þó vér einstökum sinnum veljum þad góda, er þad stundum framar til þess, ad fylgja annara dæmum, enn af egin laungun. O! hvørsu ólíkt er guddómlegum vísdómi varid, hvørs mark og mid og tilgáungur er jafnan hinn besti! ó! hvørsu óljosir og ófinnanlegir eru ofs þó tídum hans vegir, sem hann velur til framqvæmdar sínu alvísa rádi. Opt þykist skamsýn, sérgædings mannvitska finna þad marklaust, já, heimsku, í hvørju þo ædsti vísdómur er folginn; hvørsu opt lætur þó ecki rádstofun ens alvalda þornadann staf bera blomstur, hvørsu opt leidir hann skjæra vatns-lind af hellunni, til endurnæríngar og svølunar otel-

C jan-

janlegum fjølda fólks? hans undrunarverdi vísdómur lætur sig í ljósi í allri hans stjórnun; folnud laufblød og blómstur falla af á haustum og verda ad dupti, svo ad á næsta vori framkomi í þeirra stad, græn og yndisleg og ylmandi blød og blómstur á ný, og hvørsu opt og margfaldlega má náttúrunnar adgætni skodari þreifa á þessum vors Guds óumrædilega vísdómi í náttúrunnar nidur-rødun, undir eins og þánkalaus heimskíngi finnur eckért athugaverdt! hvørsu audþecktur er ecki sami vísdómur í stjórnun þeirra tilfella, sem mønnunum mæta? rennum augunum til Jóséphs, sem var besti sonur fødur síns, hans elli-stod og hans gledi, en var þo mansali seldur af svikafullum brædrum, til þess hann sídan vidhaldid fengi sjálfum þeim, øllu hyski fødurs síns, já, øllu Egyptalandi í eydileggjandi hallæri. Rauda hafsins ólgu flodum má linna, brúsandi bylgjur hjadna, hafid hrøckva til baka og standa sem múrveggur til beggja hlida, svo ad Ísrael fái óhultá braut yfrum þad, en sama hafid fellur aptur í þessa braut til þess ad framqvæma Guds strøffunardóm á forherdtum Pharaó og torthýna

hon-

honum og lidi hans; á seinni tímunum sjáum vér Guds kirkju opt adþrengda á allar sídur, og manna hatur og grimd verda samtaka helvítis makt, til ad hrysta og skékja trúarinnar grundvøll, en þessar áráſir orka ecki par, heldur grundvalla hana og styrkja miklu framar. O! vor mildirſki Gud! þú, sem ert alvís í øllu þínu rádi, og nádugur í þínum verkum, vidhaldtú þessum og þvílíkum huggunar-ríkum endurminníngum þiñar undrunar-verdu stjórnunar í vorri sálu; innrættú hjá oss þá stødugu trú, ad hvørsu undar-legir og óranſakanlegir, sem þínir vegir vyrdast oss, sé þó allt þad, þú gjørir, vel gjørt, allt harla gott, Amen.

## IO. Hugvekja.

Hvørjum, sem óttast Drottinn, mun hann vísa hinn besta veg, Psálm. 25.

Því framar, sem þú, mín sál! sann-færist um þennann sannleika, því meiri verdur þín ánægja og rósemi, og því óbifanlegra þitt trúnadar-traust á Gudi; haldtu þess vegna stadfastlega vid þennann sannleika, og ad allir vegir þíns Guds, eru ecki annad enn miskun og trú-

festi. Ef ad þú qvartar yfir lítilsverdum mótdrægum tilfellum, sem auka þér þó armædu í lífinu, þá láttú þér í hug koma, ad Gud hefir ecki heitid og áqvardad þér farsæld og fullgjørda rósemi hér á jørdu; þinn barns-grátur gaf þegar vissu um, ad þín lífsins gledi mundi á stundum blandast sorg á komandi døgunum. Spurdú ecki, því Gud ecki hafi gjørt þig og heiminn enn þá fullkomnari, enn þá audugri af varanlegri gledi? engum, nema oendanlegum vísdómi Guds, er fullkunnugt, hvørs vegna allt er skapad þannig og ecki ødruvísi, eda mun honum bera ad gjøra þér skil fyrir øllum verkum sínum, vilja og tilgángi? þér nægir ad vita hann þér nádugann fødur, sem daglega úthellir yfir þig óteljandi nýjum og nýjum velgjørdum, fyrir hvørjar hann krefur þitt audmjúkt hjartans þacklæti; þér nægir ad vita hann heimsins alvalda Konúng, sem krefur þína undirgéfnu hlýdni, og hvørjum skyldir þú vilja hlýda, ef ecki svo gædskuríkum Gudi, sem á hvørju augnabliki sannfærir þig um þad, ad hann elskar þig, og elur fyrir þér ønn? hvørjum skyldir þú fulltreysta, ef ecki honum, sem

svo

svo opt, svo dásamlega, svo áþreifanlega
audsýnir þér sitt almætti, sinn vísdom
og sinn kjærleika! og þegar þú finnur
þinn hag midur fullkominn, enn þú ósk-
ar, og heldur breytíngum undirokadann,
láttú þá þetta og sérhvört mótlæti, sem
ad høndum ber, lífga þína von og full-
vissu, ad kjærleiki þíns mildiríka fødurs
hafi þér án efa geymt huggun og gledi
og heillasamara ástand sídar meir. Hañ,
sem lætur frækornid þróast og frjófgast
í jørdunni og á henni blómgast, hañ, sem
vardveitir orminn í jørdunni, lætur hañ
um-myndast og gjørir loks fleygann, mun
hann ecki unna manneskjum ad ná full-
komnun þeirra edlis, og ødlast betra á-
sigkomulag enn þetta nærverandi! nátt-
úran leidir þig ad morgum þeim leynd-
ardómum, sem þín sljóa skynsemi ecki fær
ransakad og fullskilid, varastú því ad
efa um Guds vísdóm og gædsku, og ad
treysta um of þínum veika skilníngi, en
reiddú þig uppá þá máttugu hønd, sem
markadi stjørnunum veg, mældi sólar-
innar skeid og samtengdi alls skøpunar-
verksins dásamlegu kédju; hann mun og
gjørvøllu vidhalda í sinni fullkomnun,
nús sólin sloknar, sem nú skiptir árinu í

 sum-

sumar og vetur, vor og haust. Reiddú þig öruggt á Guðs örlátu forsjón, sem bædi útbýtir oss ríkuglegri næríngu og breidir ánægju og lystisemdir fram fyrir augu vor, og fel þig svo med gladværri rosemd vilja þeirrar veru, hvørrar áformtani jafnan mida til farsældar, þó ad tilgángur þeirra sé oss hulinn. Látir þú, mín sál! þessi heilrædi vera þér hugföst, mun sérhvørr partur þinna lífsdaga, sérhvørr dagur og stund af þinni Pílagríms ferd, géfa þér nóg tilefni ad prísa vísdómsfulla og nádar-ríka stjórnun þíns Guds. Adgættú því nákvæmlega alla þá vegu, um hvørja Guds forsjon leidir þig, en voga aldrei ad dæma þá fyrirfram á medan þú ecki þeckir Guds fullkomnad ráð á þér. Þú veitst enn þá ecki hvørr hans tilgángur vera kann med þig, en sídar meir verdur þad opinbert; vertú einúngis þolinmod, ætíd vongod og fulltreystú honum. Ad endadri vegleidslu Guds í þessu lífi, mun eilífdin fullkomlega í ljós leida, hvørsu trúlega, hvørsu nádarsamlega, hvørsu födurlega Gud leidir sína; látum því þá sannfæríngu næraja: vor Gud er einskjær gædska og trúfesti, hann leidir oss med sinni föd-

ur

ur-hendi alla vora æfi hér, en mun í himninum nña oss fyrirheitiñar gledi og sælu um eilífd.

## II. Hugvekja.

— Dauda, eilífd og dóminn enn, daglega þenkid á, nærsta mjøg þetta nálgumst senn, naum er lífs-stund ad fá; lagi því hvørr svo lifnad sinn, ad lendi' hann Gudi hjá.

Hútmálanlega stór er mismunurinn á milli vors nærveranda og eptirkomanda ássigkomulags, á milli þessa, er vér lifum í hér í tímanum, og hins, sem sídan er fyrir høndum í eilífdinni. Um þennann sannleika erum vér full-sannfærdir, og hyrdum þó engu ad sídur lángtum minna um vora eilífu, enn vora tímanlegu velferd. Vissir erum vér um, ad tímanlegt líf tekur brádum enda, og þó høfum vér sífeldt svo mikid fyri stafni, eins og því ætti aldrei ad linna, ellegar engin eilífd tæki þar vid, er þetta þrýtur; vér vitum víst, ad sú komandi eilífd er endalaus, og þó er oss svo treg-núid til ad búa oss undir hana. Pad einúngis, sem gjørir oss svo óhulta og andvaralausa í þessu mikilvæga efni, er þad

lánga bil, sem vér gjørum oss í grun, og teljum víst á milli nálægra tíma og vors komanda eilífa lífs. Allt af (mindum vér oss það, sem vér óskum, að vor danda-dagur, og sú eilífð, sem þar eptir fyrir höndum er, sé enn þá fjærri. Ungdómsins blómstrandi aldur, heilbrygdi líkamans og vor smjaðrandi von villir oss í þessari raungu meiníngu, svo vér á hvørjum degi ætlum eilífðina oss fjarlæga, en milli-bilið, edur það, sem eptir er lífsins og svo opt-sviptir oss eilífðarinnar sjónum, er eingannveginn svo stórt, sem vér gjørum oss í hugar-lund. Tilfellin, sem lífið mega stytta, eru óteljanlega mørg. Þegar vér teljum frá þá mø gu tíma, sem eydast med svefni og ydjuleysi, edur að minnsta kosti í andvaraleysi, verdur hitt tíma-bilið svo yfrið lítið, að vort líf og vor dauði gjøra tilsamans einúngis einn sár-lítinn púnkt; því skulum vér daglega gaumgæfa tíðina, og það því framar, sem styttra er eptir, og vér høfum fleiri ár aflifað, en tilhugsan eilífdarinnar, skal þar á mót verda oss því markverdari og umvardandi, sem vér daglega nálgumst hana meir og meir.. Þessir skulu nú vorir þánkar á þessu dags

qvøldi,

qvöldt, og þessa þánka óskum vér æ að vardveita, til vareygdar og gudrækuis upporfunar, á allri vorri vegferd í heiminum! O! að tímans og eilífdarinñar tilhugsan mætti svo vakandi verda í voru hjarta, að vér alla vora daga létum oss aldrei úr minni lída, hvörsu tíminn er stuttur, en eilífdin laung. O Gud! virdstú að stadfesta og innræta í vorum hjörtum þessa sáluhjálplegu hugleidíngu. Séf þú að enginn munadur, engar ginníngar þessa lífs, hindri oss frá því, af öllum kroptum að keppast eptir því odaudlega og eilífa. Lát vora gladværu von aldrei grundvallast á jardneskri og fallvalltri farsæld, heldur lypta sér hærra og festa sjonir á þeirri óforgengilegu og eilífu, svo að vér allar æfistundir verdum því ákafari, því ótraudari að feta dygdañá veg, og yfirviña allañ þañ ordugleika, sem oss á honum mæta kynni, Amen.

# 12. Hugvekja.

Seljast ecki tveir Titlingar fyrir einn smá-peníng? samt fellur enginn af þeim til jardar án ydar födurs vilja. — Enn fremur: öll ydar höfud-hár eru líka talin. — Ottist þess vegna ecki!

þér erud meira verdir enn margir Titlíng-
ar, sagdi Jesús, Matth. 10.

Á hvörjum degi sjáum vér þá tilburdi á jördu, sem ómótmælanlega sannfæra oss um, ad Guds nádarrík forsjón vakir yfir öllum heiminum, og einkanlega yfir oss mönnunum; sá mætti med á-settu rádi apturloka augum sínum, og of mótþróanlega þverskallast vid skilníngar-vitanna reynslu, og skynseminnar sannfæríngar, sem ecki játar sig finna ótöluleg merki Guds nádar-ríku stjórnunar, nema hann sé med öllu tilfinníngarlaus. Med hvílíkum yfirburdum hefir Gud sæmt manneskjunnar líf, framar öllu, sem vér þeckjum! sí og æ sannfærumst vér fullkomlega um þad, ad vort líf er dýrmætt í Guds augum; má ecki hvörr og einn vidurkénna og segja: med födurlegri umhyggju vakir hann yfir mér; med mikilli trúfesti verndar hann mig af öllum háskasemdum, sem annars mundu skada mig; nákvæm og gædskurík er hans forsjón fyrir minni næríngu; med guddómlegri nád, styrkir hann og endurnærir mitt veika líf! ef hans hönd ecki vardveitti mig, væri eg fyrir laungu

síðan

síðan með sólunni undirgenginn, ellegar ný sorg og ný armæða rinni mér upp með sérhverri sólu. Sérhvørr viðaukí míns lífs, hefði verið mér straff, hefði hann ecki látið sína náð margfaldast við mig eins og hann lét mína daga fjølga. O! hvørsu hughreystandi er þessi þánki, þegar eg yfirvega hans náð, sem útbreidd er um alla verøld, og að enginn sá staður er til, sem ecki votti og sýni augljós kénnimerki Guðs gæðsku! hvørt sem eg fer og leita, leiðir mig Guðs náðar-rík forsjón allstaðar; hún vakir yfir mér þegar eg sef, hún skilur ecki við mig þo eg sé einmana; øll náttúran sannar með mér forsjón míns Guðs, og styrkir mitt traust á hans almáttugu gæðsku; sérhvørr fugl, sem flýgur í kríng eptir fæðu, minnir mig á, að himins og jarðar almáttugi Skapari einnig forsorgi hann, og kénnir mér til að blygðast fyrir mína trúarleysu. O! látum oss þá með athygli skoða Guðs undrunarverðu stjórnun; látum oss gledjast af þeirri lucku, að vera undir veldi þess Guðs, sem ríkur er af vísdómi og náð! hvorsu ómetanleg er mér sú lucka, að eg má þora að setja á hann mitt trúnaðar-traust, og

vænta

vænta alls gods af hans hendi. Hvørsu mikilsverdt má eg þad álíta, ad þessi Gud er minn fyrir Jesúm forlíktur fadir, hvørjum eg med sonarlegri djørfúng fela má øll mín efni á hendur! og hvørsu dýrmætt er ecki sú huggan, er eg hefi af yfirvegun hans eginlegleika? Gud er almáttugur: hans armleggur mun því aldrei vera offstuttur til ad hjálpa mér og útryckja mér af øllum háskasemdum. Hann er alvís: hann veit því og þeckir øll þau beztu medøl og vegi, til ad efla mína lucku. Hann er allstadar nálægur: eg finn hann því hvar sem eg er, og í hvørjum hellst kríngumstædum, sem eg er staddur, reyni eg hann ad vera máttugann hjálpara, sem bænheyrir mig. Hann er réttlátur: því lætur hañ mér ecki ólaunad, þegar eg med trúlyndu hjarta ástunda ad hlýda hans bodum. Hann er eilífur: því má eg á øllum tímum, setja óhult og óhvikult traust til hans. Eilíflega vertú lofadur, nádar-ríki Gud! fyrir þessar hugganir! leid þú mig æ fram í stødugri hlýdni vid þig, svo eg sífellt megi gledjast vid þína Guddóms eginlegleika og fullvissuna um þína fødurlegu forsjón; þad sé mín ánægja ad yfirvega þá, ad dást ad

ad og hughreystast af þeim, og undir eins ad láta þá leida mig til dygdanna æfíngar! gef ad eg sífeldt í øllum mínum athøfnum minnist þín og þinna bodorda, já, daglega minnist þinar nádarfullu forsjónar og handleidslu á mér, og þar med á-fhysist ad géfa mig øldúngis í þína þjónustu, svo eg verda mætti þín eginleg eign um alla eilífd, Amen.

## 13. Hugvekja.

Nú, Israel! sagdi Móses, hvad krefur Drottinn þinn Gud af þér, nema ad þú óttist Drottinn, gángir á øllum hans vegum, elskir hann og þjónir Drottni Gudi þínum af øllu þinn hjarta, og af allri sálu? 5 Mós. 10.

Varla er nockurr svo hardsvíradur og óbeygjanlegur, ad hann ecki hræra megi og víña med velgjorníngum. Velgjørdirnar mýkja jafnvel skynsemdarlaus dýr; en forherdtur syndari lætur einn ecki skipast vid nockra gædsku, ecki hræraft af nockurri vinsemd, ecki ladast af nockru fyrirheiti, ecki vinnast med nockurri gáfu, og ecki leidast til ad elska Gud, med nockurs slags vidleitni. Manneskjan



jan er jafnvel enn óþacklátari vid Gud, enn vid sinn líka, hvörjum hún ætti eitthvad gott ad þacka. Madurinn þyggur fæduna af Skaparanum, sem nærir hann, nýtur jardarinnar á hvörri hann gengur, ljóssins, sem lýsir honum, sólarinnar, sem vermir hann, og allra þeirra gæda, sem hann finnur í sér eda kríngum sig, engu ad sídur hatar hann sinn Skapara, og vyrdir lítils fyrir allar hans velgjørdir. Sjerdú þig nú ecki sjálfa, mín sál! í þessum spegli? eda finnur þú þig enn nockud hrærda af velgjörníngum þíns Guds? ertú þá hlýdin hans roddu og þacklát fyrir alla hans gædsku? hafa þíns Guds velgjorníngar, og hans nýjar og nýjar nádar-veitíngar, á sérhvörjum degi svo unnid á þínu hjarta, ad þú létir þar vid leidast til ad elska þennann mildiríka Gud og þjóna honum? ó! hvörsu margir af þínum lífdøgum vitna nú á móti þér? hvörsu margir og miklir velgjorníngar hans mega láta þig blygdast þitt egid vanþacklæti? ó! hættú, hættú nú lengur ad breyta svo gálauslega; hættú vísvitandi ad módga þann framar, sem veitti þér svo margt og mikid gott, sem lét þér sína gædsku í tje, eins ádur

ur enn þú sjálf hafdir vit edur orku til nockurs góds; hættú ad launa gott med íllu, kjærleika med hatri, umburdarlyndi med þverúd! Gud hefir allt þad veitt, er til þinnar sáluhjálpar vidþarf, hann hefir gefid þér allt, sem þér er hentugt til lucku, já, enn þá meiri og eilífa farsæld hefir hann þér fyrirbúid, en krefur þó eckért annad af þér enn kjærleika og þacklátsemi; mun þad heyrilegt ad neita honum um svo sjálfsagda skyldu? mun þad heyrilegt ad láta hann jafnvel vanta þá þöck, sem þú krefja mundir af ødrum fyrir veittann lítilsverdann velgjørníng? því skyldir þú ecki elska hann, sem allt gott hefir til ad bera, og verdugastur er elsku af øllum? dagurinn, sem þú nú lifdir í dag, minnir þig á þessa yndælu skyldu, á kjærleikans og þacklátseminnar luckusælu skyldu; æ! láttú þig ecki forgéfins hér um áminna, heldur uppvekja til ad elska nú héreptir um fram allt þinn Gud, sem er vera verdugust elsku, og ad þacka þessum gódgjarnasta velgjørara! ó Gud! fyrirgéfdú, ad eg híngad til hefi svo hyrdulaus verid um mínar skyldur vid þig; eg hefi ødrum framar audsýnt þér vanþöck og kjærleiksleysi, en þad er

nú

 

nú minn einlægur ásetníngur ad elska þig og þacka þér framar enn adrir. Eg vil láta mig sannfæra af yfirvegun þíns kiærleika. Láttú ecki þad óþacklæti, sem eg híngad til hefi í frammi haft vid þig, olla því, ad þú hér eptir sviptir mig þínum velgiørdum, heldur líttú í nád til þess ásetníngs, sem eg um alla okomna æfidaga skuldbind mig til ad framqvæma. Þad skal æ vera mín órjúfanleg skylda og yndæl gledi, ad prísa þig med mínum líkama og med mínni sálu, og ætíd ad medtaka þínar velgiørdir med þacklátu hjarta.

# 14. Hugvekja.

Var eg í dag sá vera skyldi? vitna þad, mitt hjarta! í qvøld; ávann óþreytt míns Guds mildi, mig ad fordast glæpa vøld? æ! eg blygdast, auga þitt, alskygni! sier dagfar mitt, æ því gjørr þad yfirvega, æ því meir eg fyllist trega.

Í hvílíkri blindni hefi eg ecki híngad til lifad, undir hvílíkri yfirdrottnun minna tilhnegínga, hefi eg ecki híngad til mátt andvarpa! en, o! hvørsu farsæll hefdi eg þó verid, ef eg fyrr hefdi yfirvegad mitt auma ástand, og sied hvar eg

var

var ad kominn; en, því midur! eg géck fram í dárlegri gledi, fann ecki til þeirrar samvitsku nøgunar, sem eg mátti búast vid, ecki til þeirrar eymdar, sem undirokadi mig, og gleymdi þeirri spillingu og þeim voda, sem eg steypti mér í; þó eg enga lucku fiñdi af lastanna æfingu, leitadi eg þó med þeim farsældar, sem allt af flúdi mig; eg reyndi, hvørsu fallvallt og skammvinnt allt útvortis eptirlæti var, og þó leitadist eg vid eins ákaft ad ná því, og þó eg aldrei hefdi átt ad missa þad. Ó! ad þessi qvøld-stund yrdi mér sú lucku-stund ad eg tæki nú fyrir mig ad yfirgéfa lastanna veg, á hvørjum eg híngad til forgéfins leitadi ad rósemi og lucku. Ó! ad eg lærdi ad þeckja, ad vilji eg vera luckulegur á jørdu, verd eg ad elska og vardveita heiløg bodord míns Guds! ó! ad hans Andi sannfærdi mig um þad, ad því framar, sem eg leita mér rósemis í løstunum, því framar eykst mín órósemi; því hvørja ánægju má sú sála finna, sem vantar góda samvitsku, og sá er þo ávøxturinn af gálausu lífernis lát þér þad vel skiljast, sála mín! ad øll ólucka er í løstunum folgin, og øll lucka þar á móti í dygdanna æfingu. Lát þad ecki

villa þig, ad þeim gudlausa lídur á stund-
unni vel. Þessi vellídan hans og munad-
ur hverfa skyndilega, af allri hans ánæg-
ju er innan skamms eckért annad eptir enn
ángur og orvylnan; ó! hvørsu fráleitt,
hvørsu gagnstædt er þar á móti ástand
þess gudhrædda; hann blómgast eins og
tré, sem plantad er á vatna-bockum,
hvørs blod visnar ecki, hans gledi hverfur
ecki, hans ávøxtur verdur ecki ad engu,
hans hrós er allt eins varanlegt og hans
lucka, og hans nafn er innskrifad á lífs-
ins bók. Ó! þú allra heilagasta vera!
þegar eg yfirvega þessa-lucku, fyllist eg
heilagri gledi; æ! láttú þína nád leida
mig, svo eg njóta megi þessarar farsæld-
ar. Eg er þess fullviss, ad mín lucka í þess-
um og ødrum heimi, er undir því komin,
ad eg med trúu og einlægu hjarta vandi,
sem best, líferni mitt. Ó Gud! géf mér
nád til, ad þessi fullvissa stjórni fram-
vegis mínum vilja, svo ad eg alvarlega
leiti þessarar lucku, og virdi hana miklu
meir enn alla jardneska farsæld, sem opt
er einbert draumur, og opt ad mestu inni-
falin í einberri ímyndun; haf sífeldа gát
á mér, mildiríki Fadir! svo eg villist ecki
á þá syndanna hálkasomu afvegu; vard-
veittú

veittú mig fyrir þeim tálsnörum, sem leggjast í veg fyrir minn góda ásetníng. Styrk þú mig í strídinu á móti syndiñi og þessa lífs giñíngum; en, þegar eg skeika, þegar mig hendir sá veikleiki, ad syndga móti þér, æ! vorkéñdú mér þá, af miskun og födurlegu umburdarlyndi, og miñstú í náð á mitt dupt. Fullkomna þú þitt byrjada góda verk í mér, svo eg ad lokunum megi úr býtum bera kórónu réttlætisins. Farsæll, já, óútmálanlega farsæll verd eg þá, þegar þú eins í þessum heimi vyrdist ad vera med mér og mér allt í öllu; eins og þú í himninum munt verda mér þad um allar eilífdir.

# 15. Hugvekja.

Ærnum þúnga, hvörr svo heldur, himin-kroppa, jafnvigt í? lopt þú skópst, hvörr veit hvad veldur, vereld ídur fram í því? mid hvörr sólu setja réd, svo vísdómi' og dásemd med, ad il og byrtu senda sinni, sól-vereldu' og frjófgun kynni?

Hendannlegur Gud er sá, sem gjörir allt þetta; hans hönd hefir tilbúid himininn og sólina, og afmarkad stjarnanna veg; af honum og fyrir hann eru

allir hlutir; þetta er sá þánki er sálu miñi ætti aldrei úr minni að líða, svo opt, sem eg sje himininn og himnanna her; þetta er sá þánki, sem eg offra þeim æðsta heimsins stjórnara, þegar eg íhuga hans dásemdir, og lypti mínum augum upp til himins, og upp til þeirrar Guddóms veru, hvørri einúngis ber dýrkan og tilbeiðsla. Hvørt sæ eg litið, án þess eg finni sjáanleg kénni-teikn hans allstaðar nálægðar, og megi þar við uppvekjast til að prísa hans dýrðarfulla nafn? sjálfur er eg, og hvør ein manneskja, augljós røksemd hans almættis og gæðsku. Jørðin og allt hvað á henni finnst, er verk þessa haga og alvísa meistara, og himnarnir sömuleiðis hans almættis verk. Þessir dásømu himin-kroppar, hvørja mín augu sjá yfir mér áfram líða, á svo reglubundinn og hátignar-fullann hátt, og á móti hvørjum øllum jarðar-hnattarins stærð er ecki meiri að reikna enn eitt sandkorn, sýna mér augljóslega hans Guddóms hátign; hvørr band sólunni að stjórna deginum, og túnglinu að lýsa nóttunni? hvørr gaf stjørnunum tilveru og nøfn? hvørr nema hann, sem er Skapari allra hluta, og á því af øllum að tilbiðjast?

jafn-

jafnvel eg er eitt af því undrunarverda, sem hans óendanlega almætti hefir af jørdunni framleidt; svo lítilmótleg sem mannsképnan er, þegar hún jafnar sér saman vid adrar stærri Guds skapadar sképnur, er hún þó svo stór, ad hún má allt eins vel hrósa sér af því, ad vera handa-verk síns Skapara og adrar hans sképnur. Ad sønnu má þad furdanlegt vyrdast, ad svo mikill og máttugur Gud og svo vilji minnast mannsképnunnar, sem ecki er annad enn dupt, og fleckar þaradauki svo tídum þetta dupt med misgjørdum; ad sønnu má eg med ótta upplypta mínum augum til hans, sem er sú fullkomnasta og dýrdlegasta vera og uppspretta allrar fullkomnunar, en þá eg þenki til hans, hvørsu mikid eg hefi hans Syni, mínum frelsara, ad þacka, ó! hvørsu mikilsverda sje eg þá ecki manneskjuna álitna í hans augum? Í þessa þíns eilífa Sonar nafni tilbid eg þig, þú allra hluta Skapari og Fadir! eg veit ecki betur ad helga nockurn dag, enn þegar eg med gjørvallri sálu skoda þína hátign og nád; æ! lát því tilfinníngu þinnar almáttugu gædsku verda jafnan lifandi hjá mér, og hnegja minn vilja til þíns

 ótta.

ótta. Þegar dramb og oflæti taka ad villa mér sjonir, lát mig þá minnast á þína hátign, svo mun skjott minn dárlegur sérþotti og hroki hjadna. Þegar mitt traust á þér tekur ad veiklast, æ! minntú mig þá á þitt almætti, sem sameinad er oendanlegri gædsku. Þegar eg freistast til syndarinnar hlýdni, settú mér þá fyrir sjonir þína heilögu og skélfilegu hátign, hvörrar íhugan jafnvel skélfa má þann fleckminnsta af veikum mannsképnum. Verdi eg omiskunsamur og kjærleikslaus vid mína medbrædur, settú mér þá fyrir sjónir þá ómetanlegu velgjørnínga, sem þú daglega audsýnir mér, svo óverdugur, sem eg þo er. Kéñ mér ad miñast med lotníngu þiña guddóms eginlegleika, og þañig ad gaumgæfa og hagnýta mér þau miklu verk þiña handa, ad eg med miñi adferd ecki vanvyrdi þína hátign. Allt hvad eg sie á himni og á jørdu, leidi mig jafnan til þín; í øllu verdi þitt heilaga nafn vegsamad af mér! þanninn læri eg ad búa mig undir þá lucku, sem mér er geymd í eilífu og sælufullu lífi, hvar eg skoda mun án enda, undrast og tilbidja þína óumrædilegu hátign.

# 16. Hugvekja.

Vér hefum hér engann varanlegann samastad, leitum þvi hins, sem hér fyrir ofan er, Ebr. 13.

Hvad er vort líf annad enn ólgufullt haf, á hvorju vér alltaf qvída megum bylgjaña áföllum? vort ástand umbreytist á hvorju augnabliki, og sú breytíng ablar oss sífeldt nýrrar órósemi; forgéfins leitum vér varanlegs samastadar hjá sképnunum, er vér sjáum oss sífeldt neydda til ad hrífa oss lausa frá þeim. Þegar vér þykjumst fundid hafa hvíldarstad, megum vér skjótt þreyta nýtt hlaup; allt forgengur og allt eydist fyrir vorum augum. Mikill hluti af þeim lifanda heimi, sem vér sáum, þegar vér komum inní hann, er nú ecki til framar. Nýjar persónur eru framkomnar á skodunar-plátsid, og búast nú þegar undir ad yfirgéfa þad aptur. Fátt í þessu lífi gengur oss ad óskum; þad, sem vér elskum, flýr oss; þad, sem vér óskum oss, ødlumst vér ecki; en þad, sem vér óttumst, hittir oss. Aldrei erum vér fullkomlega farsælir; sé luckan oss brosleit, brestur opt heilsuna; séum vér heilbrygdir, er luckan opt á móti oss; séum



ré: lærdir, høfum vér opt umsvif, sem hindra vorar ydnir; séum vér fáfródir, erum vér forsmádir; séum vér í metordum, erum vér øfundadir, og hvørsu ostødugt og hvikult er þá ecki vort hjarta! á þessu augnabliki høfum vér þann ásetníng ad þjóna Gudi, og á næsta augnabliki er þessi þánki þegar gjøreyddur af þeim hlutum, sem kríngum oss eru í heiminum; hér er sífeld umbreytíng allstadar, og von og qvídi, gledi og sorg, hatur og kjærleiki skiptast ydugleg a til; varla erum vér nockurt augnablik sjálfum oss líkir, heimskulegar tilfinníngar og tilfelli orsaka sífeldar biltíngar á høgum vorum, og sú er manneskjunnar stutta lífsaga. Þannig er lífinu varid til þessa, og þannig mun þvi varid hér eptir, þvi á medan vér lifum á jørdunni, mun hégóminn og óstødugleikinn verda vort sífelda hlutfall; máské ad heilsan, sem vér nú njótum, breytist til morguns í daudlegann sjúkdom; máské sú rósemi, sem nú gledur oss, hverfi á samri stundu; máské sú von, sem nú eykur vora kjæti, sé nú þegar brotin; máské øll sú lucka, sem gledur oss nú, sé horfin, fljótar enn draumur. Hvørr veit hvørsu margar ógéd-
sel-

feldar umbreytíngar liggja kunna hrádlega fyrir oss? hitt er víst, ad vér, medan lifum, gétum ecki vænt annars enn þess, sem dagleg reynsla sannar og kénnir. Allt í heiminum er eintomur hégomi, innan nærsta dags enda, edur enn þá fyrr, má vor egin reynsla máské sanna þad med Salómoni. Æ! því elskum vér þá svo dárlega hégómann, og útveljum þad ósteduga í heimi þessum, án yfirvegunar? en sjálfa oss fríum vér frá mörgu andstreymi, ef ad vér brúkum heiminn og heimsins hégóma í hófi. Vér gætum þá verid ánægdir og rósamir vid sérhvör ohægileg tilfelli lífsins, og óstödugleiki jardneskra hluta fengi aldrei hjá oss ollad svo mikillar órósemi, ef vér ætíd hefdum himininn oss fyrir augum, hvar enginn hégómi, engar lífsins mædusamar breytíngar eru til.

# 17. Hugvekja.

Mín sála bídur eptir Drottni, hann er vor hjálpari og vor skjøldur, Psálm. 32.

Til ad losa mig vid þessa lífs órósemi og dáraskap, finn eg ohultasta medalid, ad afhenda mig aldúngis á vald og

vilja Guds; hvørr er sá Drottinn, hvørs vilja og valdi eg afhendi mig? þad er sá almáttugi Gud, sem megnar ad gjøra enda á øllum mínum sorgum; med einu ordi: sá sem hefir medøl nóg, rád og vilja, til ad bæta mér allt þad mig vantar, umbreyta allri minni áhyggju í vissa von, og ryckja mér út úr øllum háskasemdum. Eg missi því ekkért vid þad, þó eg reidi mig á hann, sem veit hjálp og rád, svo opt, sem mér áliggur. Þad, sem mønnum sýnist ómøgulegt, er hans almætti audveldt, og því vanmáttugri, sem mannanna hjálp reynist, því vissari er hans hjálp, því øblugari hans adstod, svo eg megi alls góds af honum vænta, en setji aldrei mitt traust á veikar mannsképnur. Þessi Gud er og alvís, hvørs vilja eg óqvldinn undirkasta mig, hann hefir ætíd sinn vissa tilgáng med allt, sem hann lætur mér mæta, í hvørju helst standi, sem eg er, og þó þessi tilgángur sé mér ecki kunnur, er þad þó víst, ad hann er bædi réttvís og gódur, svo mér ber ánægdum med hann ad vera. Um hann má eg ecki dæma eptir mínum veikleika og litla skilníngi; eg sje ad sönu ecki ætíd hvørt þeir vegir, sem hann vísar

ar mér á, muni leida mig, en þared hañ hefir mér þágreidt og búid, er mér óhætt á þeim ad gánga. Mikli Guð! því skyldi þá ecki mín sál afhenda sig í þitt vald? hvad má eg óttast, þegar eg í øllum hlutum reidi mig uppá þig! á medan eg híngad til vildi sjálfur ráda yfir mínum kjørum og tilfellum, á medan for eg allt villur vega; afdrifin hafa aldrei sambodid mínum óskum eda fyrirtæki; alls eckért gott hefi eg af því haft, en þarámót daglega orsakad mér gremju og andstreymi; þegar eg leitadist vid ad verda óhultur, bjó eg mér sjálfum fordjørfun; þad, sem eg áleit mér stod og stytta, vard mitt fall. O! minn Gud! hvørsu miklu óhultari er eg þá, þegar eg einúngis læt þig ráda og þegar eg gjøri ecki annad enn þad, sem þér vel þócknast! nú skal eg síst enda þennann dag eins og eg híngad til hefi endad svo marga mína lífdaga; eg vil lifa rólegur og vel ánægdur, og því ecki leggjast í vøl og áhyggju, heldur fela mig þinni fødur-hendi, þú almáttugi! eg vil sleppa øllum ótta, varpa allri minni áhyggju í þitt skaut, og ecki qvída komandi tíd, eda vera hugsjúkur hennar vegna, nema samstemmandi þínum

bod-



bodordum. I djúpustu lotníngu vil eg fyrst yfirvega þinn náduga tilgáng og vilja med mig, og sídan, án moglunar, fela mig honum á vald, án þess ad hallmæla honum. Mig og allt hvad mér vidvíkur vil eg afhenda þinni stjórnun, svo mun mín rósemi og mín lucka verda fullkomin.

## 18. Hugvekja.

Sá, sem yfirvinnur, mun erfa alla hluti; eg vil vera hans Gud, og hann skal vera minn sonur, Opinber. b. 21.

Skyldi eg ecki þacka honum, sem hefir géfid mér lífid, fyrir þad, ad hann enn þá lét mig lifa þennann dag; skyldi eg ecki prísa hans nafn, þess ljóssins födurs, fyrir hvörs nád eg sied hefi þessa dags ljos? því jafnvel þó þetta líf sé svo stutt, ad einn dagur, ein vika, eitt ár sé valla teljandi; jafnvel þó þad mannlega líf sé uppfyllt med svo mikla mædu, órósemi og sorg, ad telja megi því lengra, sem þad er þess fleiri bjáníngar- og mótlætíngarstundir, hefi eg þó nóga orsök á hina sídunna, til ad álíta sérhvörn dag, sem Guds nád unnir mér, svo sem sérlega blessun. Hvad eru ecki þessa heims jardnesku gædi,

sem

sem gjora mig luckulegann! hvørki metorð, ríkdómur né góðir dagar géta ollað minnar sálar rósemi, nema eg undir eins hafi góða samvitsku, viti mig fríañ af íllgirnis syndum og lifi guðrækilega, því eckért annað má géfa hjarta mínu rósemd, án hvørrar engrar farsældar er þó að vænta; skyldi eg þá øfunda þá, sem gleyma Guði, þó að flest í heiminum gángi eptir þeirra óskum, því hefndin mun þó alltaf fylgja þeim, og þeir, midt í sinni gleði, nagast af samvitskunnar áklögunum. Nej! eg vil ánægður vera með þau minni gæði, sem Guð hefir mér unnt, sem þó eru lángtum meiri enn eg hefi forþénað. Gjarnan vil eg fara á mis við margsslags ánægju og hægð, allskonar motlæti vil eg bera með góðu og þolinmóðu géðslagi, þegar eg einúngis ecki þarf að óttast áklögun minnar samvitsku. Endurminníng goðra verka, fullvissa um Guðs hylli, von um náðarríka umbun, þessi ómetanlegu gæði vekja þvílíka gleði í minni gjorvallri sálu, að eg ecki mundi skipta þeim eitt augnablik, við heimsins dýrmætustu fjársjóðu. Þó eg á stundum líði skort, veit eg þó, að eg má vænta mér óútsegjanlegra nægta;



nægta; þó eg af drambsömum verdi foraktadur, sie eg þó fyrifram ad sú kémur tídin, þá jafnvel þinn minnsti hlutt þeirra metorda, sem eg mun njóta, endurgéldur mér ríkuglega alla heimsins vanvyrdu. Þó ad mig umkríngi óteljanlegar plágur, munu þær þó umbunast med ómælanlegri gledi, sem eg á sídan njóta mun; sé sá vegur mér oljós, um hvørn mínum Gudi þócknast ad leida mig, mun þó sú koma tídin, á hvørri eg prísa og undrast mun þessa Guds huldu vegleidslu. Engar mótlætíngar mega þá mæta mér hér í heimi, í hvørjum góð samvitska og ørugg trú ecki géti gésid mér ánægjanlega huggun? Því þygg eg, ó Gud! þá velgjørnínga þína, sem unna mér lengra lífs og fleiri heilla, án sorgar og vøls, þared eg metid hefi lífsins ørdugleika, og gledi ánægjufulls hjarta hvørt á móti ødru, og fundid þessa gledi ad vega miklu meira enn allt hitt. Eg þacka því audmjúkur þennann dag, þessa dýrmætu tíd, hvørja eg hefdi átt ad brúka til undirbúníngs undir eilífdina. Lát mig æ eyda mínum døgum undir þinni nádugu vegleidslu og stjórnun; en lát mig øllu framar aldrei gleyma

gleyma, hvørs-vegna þú gafst mér lífið, brúka það eptir þínu orði og vilja, og auðsýna með öllum mínum athøfnum, að eg sé fullkomlega sannfærður um mína áqvørðun til þess eilífa lífsins.

## 19. Hugvekja.

Veitstú best, Drottinn! vanmátt manns, veitstú best orku freistarans, vorum herskrúða vill hann ná, vor merkis-maður sértú þá, í oss stríðandi eðl-vort ráð, í þér svo fáum sigri náð.

Það er bæði tilhlýðilegt og harla nauðsynlegt, að eg á hvørjum degi minnist þeirrar mjøg svo áríðandi skyldu, sem hvørr kristinn á að varðveita, til þess ætíð á ný að upphvetjast æ betur og betur til að ástunda hana; en hvørsu fæ eg hana uppfyllt, ef eg ecki fyrirfram gét þeim hindrunum af vegi rudt, sem gjøra mér minnar skyldu uppfyllíngu ómøgulega, og hvørjar hindranir eru þó sterkari og fleiri, sem hér liggja í vegi fyrir mér, enn mitt egið hjarta, hvørs veikleika, til að mótstanda freistíngunum, eg þecki, finn og qveina svo sárt yfir? hvørsu opt héldt eg mig ecki nógu sterkann til að mót-

mótstanda syndarinnar táldragandi tillockunum; en, eg vard á samri stundu aumkunarlega yfirunninn, og aldrei fjarlægari sigrinum yfir mínum girndum, enn þegar eg, eptir heimsku minni, þóktist vera honum sem nálægastur; hvørsu mjøg fyrirvard ecki mitt hjarta sig, þegar eg fann þess veikleika, og þau fjøtur og bønd, med hvørjum lystin til ens illa hafdi mig bundid? eg sá á ný þeña ovin lángt frá mér, géck honum med stødug-lyndi á móti, til ad fá hann yfirunnid med nýjum hetju-mód, en fyrr enn til þess kom, vard eg fángadur í þeim snørum, sem lagdar vóru í veginn fyrir mitt vareygdarleysi, og eg vard á ný herteкiñ af þessum mínum sigrara. O! hvørsu blygdast eg nú vid þetta í hjarta mínu, og hvørsu ólucklulegur hefdi eg loksins ordid, ef ecki sú øfluga hetja af kyni Júda hefdi frelsad mig frá daudanum. Skyldi eg þá hédanaf á ný verda þessum mínum Frelsara og sáluhjálpar høfundi ótrúr, þó mig kosti þad baráttu, vegna míns veika og óstøduga hjarta, ad vera honum stødduglega trúr? hvad hjálpar mér od keppast eptir lífsins kórónu, hvørri eg sjálfur fæ þó ecki nád, vegna míns van-

mætt-

mættis? hvad hjálpar mér ad sporna vid því vonda, ef ad þad, engu ad sídur, dregur mig med sér? hvad nota mér oll mín dygdugu fyrirtæki? hvad gagnar allur minn áſetníngur til gudrækilegra athafna, þegar ein lítil hreifíng minna syndsamlegu girnda, kollkaſtar þeim grunndvelli, er eg vildi reiſa á nýrrar gud-hrædslu byggíngu? Vertú þó engu ad sídur ohrædd, oqvídin og hughrauſt, mín sál, þú hefir þegar unnid mikid, þegar þú kannaſt vid þitt vanmætti; ad þú svo þrálega fallid hefir, kénnur af því, ad þú ránglega tmindadir þér, ad þú fengir ſtadiſt med þínum eginn kroptum. Þú ert veik, og þeſs vegna þarftú hjálpar vid, og hana fær þú, bidjir þú alvarlega um hana; líttu til hans, sem betalad hefir fyrir þínar syndir, þinn Jesús hefir ſjálfur verid freiſtadur, hans alvitſka og nærgætni þeckir tillockananna mátt, freiſtínganna hættu og ſtrídsins ordugleika; mundi hann þá ecki hafa medaumkun med þér? jú, sannarlega mun hann þér vorkunsemi veita. Gjør þú mig, ljúfi Lausnari minn! æ meir og framar fullvissann um veikleika míns hjarta, en ásamt um þad, hvo su reidubúinn þú ert

 ad

ad styrkja mig í øllum freistíngum, þá skal eg aldrei láta mér hugfallast, heldur svo lengi, sem eg lifi, strída í trausti þíns guddómlega kraptar; þá mun eg loksins, fyrir hjálp þína og adstod, sigurinn efalaust úr býtum bera.

# 20. Hugvekja.

Taktú vara á þeirri hentugu tíd, og vara þig fyrir því vónda, svo þú ecki verdir til skammar, Syr. 4.

Vort líf á jørdunñi er vidvarandi furduverk guddómlegrar miskunar; tídin, á hvørri hann unnir ofs þessa veika lífs, er áþreifanlegt merki hans gædsku. J ofs og voru holdi býr ecki einúngis eckért gott, heldur høfum vér þaradauki drýgt margar syndugar athafnir, med hvørjum vér verdskuldad høfum réttlátañ dauda dóm; svo opt sem vér brotid høfum guddómleg bodord, svo opt hefdum vér verdskuldad lífid ad missa; en þessi tími er enn þá ómetanlegur Guds velgjørníngur fyrir ofs, þar hvørt eitt augnablik, sem vér lifum, er ný nád, sem Gud audsýnir ofs, enn þá undandregur hann vora fordæmíngu og dauda-dóm, til þess

ad

ad unna oss frest-til ad brúka betur þad líf, sem vér svo illa høfum framdregid híngad til. Ad eyda þessari tíd ónytsamlega og syndsamlega, væri ad vanvyrda Guds óendanlega gædsku, væri ad brjóta af sér hans nád, væri einkis ad vyrda eilífdina. Hvílík fásinna er þad þá ecki, ad vilja ecki brúka vel svo dýrmætann hlut, sem lífid er, ad vér viljum eyda til einkis tíd vorri, þar med setja vora eilífu velferd í vogun í syndanna skammvinnu gledi, og láta vora von um ódaudlegleikans fullsælu, hverfa burt frá oss eins og reyk; enginn er sá dagur, enginn sá tími, eckért þad augnablik, sem ecki sé oss markverdt og árídandi í tilliti til eilífdarinnar; einúngis eitt tapad edur eydt augnablik, mætti því vekja lángtum stærri sorg hjá oss, enn þó vér mist hefdum mikla lucku; og þó er þessi dýrmæta tíd optlega fyrir oss leidinleg; allt vort líf er eckért annad enn vidvarandi ástundan ad spilla, sem mest gétum, tídinni. Vora þénustusemi sýnum vér vinum vorum, vora velgjørnínga þeim, sem vér elskum, en vora tíd gétum vér, svo ad segja, hvørjum sem hafa vill. Svo athugalauslega, svo hirdulauslega, já, svo



dárlega forum vér med þá dýrmætustu gáfu, sem Gud hefir oss veitt. En egum vér þá sífellt ad þurfa ad gjöra þessa umqvörtun yfir sjálfum oss? skulum vér enn þá lifa lengi, án þess ad vita hvörs vegna vér lifum? egum vér enn þá framvegis til einkis adeyda tídinni, um hvörrar miklu nytsemi, vér þo erum svo sannfródir? á nú ecki þessi stundenn þá ad vekja hjá oss betri þánka? ó Gud! þín nád vardveiti oss fyrir þeirri ólucku, sem verda má uppspretta og orsök til vorrar eilífu óhamíngju! vér megum loksins byrja ad reikna þá tíd, sem vér þegar útsóad höfum, og hugleida þá daga, sem enn eru fyrir höndum. Hvört, sem tala vorra komandi líf-daga er stór eda smá, erum vér þo í hvörutveggju tilliti óluckulegir, ef vér brúkum þá illa; ef vér lifum enn þá lengi hér eptir, og eydum tíd vorri syndsamlega, aukum vér þar med vora fordæmíngu; egum vér ecki eptir nema skamt ólifad, kunnum vér voveiflega og varbúnir ad framleidast fyrir þann dómstól, hvar vér svara egum reikníngskap fyrir þad, hvörnig vér brúkad höfum tídina og vort líf. O! eilífi Gud! géfdú oss vísdóm, til ad efla vora sáluhjálp,

og

og kénn ofs ad brúka alla vora daga, tíma og augnablik til þessa mest áríðanda augna-mids.

# 21. Hugvekja.

Væntú æ daudans, vinur kjær! vonum framar
hann stendur nær, vid hvørn dag þenki hugur-
inn þinn: hann mun verda sídasti minn!

Ad morgni dags, þegar vér ljúkum fyrst upp augunum, egum vér strax ad hugsa til þess tíma, þegar þau munu seinast apturlykjast. Því skyldi eg nú, hugsar sá úngi, þar eg valla er enn þá kominn inn í heiminn, hriggja sjálfann mig med endurminníngu þess tíma, á hvørjum eg aptur á heiminn ad yfirgéfa? þó, þegar eg yfirvega, hvørsu nálægt lífid er daudanum, og hvørsu voveiflega hann kann ad yfirfalla mig, er ecki annad mögulegt, enn ad sameina daudans umhugsun med lífsins. Ecki þarf meir enn þad eina tilfelli, sem allbúid vera kann mér, nefnilega: ad minn vidskilnadar tími kunni hastarlega ad yfirfalla mig, til þess ad minna mig sífeldt á minn dauda-dag. Og þar ed eg eckért augnablik er fyrir daudanum ó-



hultur, kann eg heldur eckért augnablik af ad lifa, án þess ad ottast hann, og ætti því ad búast undir hann. Fyrst eckért augabragd lídur hjá, á hvørju daudinn ecki útleidi í hópatali daudlega menn frá lífinu, hvørsu margir mega þeir þá ecki vera, sem á þessu qvøldi qvedja heiminn í sídasta sinni, og gjøra nú í qvøld þá sídustu andláts-bæn. Þad er því víst, í hvørju ásigkomulagi, sem eg er staddur, er eckért þad augnablik til, sem ecki kunni ad verda mitt sídasta; eckért þad fyrirtæki í voru lífi, á hvørju grøfin gjøri ecki enda; engin sú hátíd, sem máské ecki kunni ad endast med líksaungum; engin sú fæda, sem ecki géti ordid ad banvænu eitri; enginn sá svefnhøfgi, sem ecki verda megi minn sídasti svefn; enginn sá morgun, sem ecki kunni ad afhenda mig í daudans skaut; enginn sá sjúkdómur, sem ecki géti ordid mitt banamein; hvar med skal afsaka þá fávísu gleymsku og afskiptaleysi, sem menn lifa í, í tilliti til ens sídasta dags og burtferdar-tíma, máské med úngdóms árunum! en þad eru þó þau, sem menn ættu ad bera hvad mesta umsorgun fyrir, því þau eru háskasamastur tími þess mann-

lega

lega lífs, edur máské madur treysti uppá heilbrygdi sína? en sú hrausta heilsa er lík neista, sem skyndilega má útslockvast af minnsta vind-blæ; máské einhvørr reidi sig uppá þennann tíma, á hvørjum ecki finnst til nockurs meins edur kránkleika; en hvørsu morg þúsund manneskjur lifa ecki á þessu augnabliki ásamt oss, sem ecki fá næstu morgunsól ad sjá? þad er því í øllu tilliti umvardandi naudsyuja efni fyrir oss, sífellt ad hefa daudann fyrir augunum, og med Guds nádar adstod ad keppast eptir því ásigkomulagi, sem vér óskudum oss ad vera í, þegar vér egum ad deyja. O! ad þvílíkar daudans hugleidíngar væru sífellt vakandi í minni sálu! ó! ad eg þar vid uppvekjast mætti til Guds ótta og mannelsku, og þar af huggun ødlast í øllum lífsins mótlætíngum! ó! ad svo mørg dauda dæmi, sem eg sje og jafnadarlega heyri, mættu leida mig til þess nátturlegasta af øllum þanukum, og ad eg sé dupt og aska, allteins og allir mínir burtsofnudu brædur! ó! ad eg yrdi svo vitur, ad eg náqvæmlega yfirvegadi hvad vid muni taka fyrir mér, þegar daudann skyndilega og mér óvørum ad bæri. Því



vitrari, sem eg um þetta verd, því luckulegri verda minir lífdagar, og því rolegri min endalykt.

## 22. Hugvekja.

Hvad hefir þú, madur! það þú hafir ecki þegid, en fyrst þú hefir það þegid, hvad hrósar þú þér þá, eins og þú hefdir það ecki þegid? 1 Cor. 4.

Þar ed sérhvörr dagur leidir þig inn í nýjann reynslu og freistingarskola, hlýddú þá, min sála! þeim vísa lærdómi, sem lofa má þér gódum enda á freistingunum, og einkanlega sinnisins rósemi í øllum þjáníngum; hugleid þá fyrst, ad Gud er þér um eckért skyldugur, og ad þú, eptir þinni egin forþénustu, ecki kannt annars ad vænta, enn óánægju, skorts og vesældar Taktú þar fyrir þessu med rosemd, svo sem því eina, sem þú att skilid, en álít það goda, sem þú nýtur, ecki ødruvísi enn yfirgnæfanlega nádar-gáfu; minnstú þess, ad gott og illt, gledi og sorg, hlýtur eptir Guds vísdomsfullu nidur-rødun, opt hvørt ødru sameinad vera; berdú þína luckulegu daga saman vid þá oluckulegu, og

þá

þá muntú fá það reynt, að þeir síðari eru færri hinum luckusælu. Reiknaðú frá alla þá mótføllnu daga, eins og þeir aldrei hefðu til verið, og reiknaðú þar á móti komandi dagana móti svo mørgum góðum, sem þú notið hefir. Settú þér áður fyrir sjónir margvísleg mædu tilfelli, sem þér máské kynnu að høndum bera, og búdú þig út á móti þeim með von og þolinmædi, en gleymdú heldur ecki þeim glødu augnablikum, sem þú í framtíðinni mátt vænta þér af mildum Gudi; yfirvegaðú ætíð, að þitt ástand, hvørsu aumt sem það er, gétur þó orðið aumara. Líktú kjørum þínum saman við svo margra þinna með-brædra, og þá muntú sjá, að þitt ástand er í morgu miklu betra enn þeirra; hugleiddú það vonda og góda, sem mætir þér, og adgjættú vel, að alls ecki veitst hvað af því í raun og veru verda kann þér að skada, því jafnvel það, sem þér kann að vyrdast skadlegt, gétur ordið þér fyrir bestu. Láttú þér loksins til hugar koma þinn dauda, sem gjøra mun æskilegann enda á øllum þínum þreyngíngum, og króna þitt stødugglyndi, með óendanlegri farsæld. Þessar hugleidíngar skulu, með



Guds hjálp, meir og meir upphvetja þig til þolinmædi, og leida þig í þad ástand, ad þú gétir ánægdur verid med øll þau tilfelli, sem þinn himneski fadir lætur þér ad høndum bera, en þolinmædin mun ecki einúngis hjálpa þér til ad lifa í vinfengi og ró vid alla menn, og til ad yfirvega og framqvæma allt hvad þú tekur þér fyrir hendur, med tilhlýdilegri umhyggju og ánægju, heldur mun hún og gjøra jafnvel þau sorglegustu tilfelli þér léttbær, og ad minnsta kosti þolanleg. Ottastú því ecki nockra adra ólucku, enn þá storkostlegu og sannkølludu, nefnilega: þíns Skapara og velgjørara ónád, og kostadú því kapps um svo ad lifa, ad þú æ vîss verdir um hans miskun og nád; hvad mun þá annad géta ollad þér órósemi, hvad hriggt edur þjád þig? þær megnustu pínur eru eckért, því þær leida þig enn nær þeirri ánægju, sém innifalin er í vidvarandi og óútmálanlegri sinnis rósemi. Hvad er fátækt nema eckért, þegar þú yfirvegar þann ríkdóm, sem Gud hefir geymt þér í því komanda lífi; hvad er heimsins vanvyrda nema eckért, þegar þú yfirvegar þá æru og velþocknun, sem þú ødlast hjá Gudi; hvad

er

er lífid sjálft nema eckért, þegar þú jafnar því saman vid þad sælufulla líf, sem þú átt fyrir höndum í himninum? já, daudinn sjálfur er eckért, þegar þú ert ordinn viss um þad, ad hann er byrjan til óendanlegs og betra lífs.

## 23. Hugvekja.

En, vor Borgar-réttur er á himnum, hvadan vér væntum Frelsarans Drottins vors Jesú Krists, sem mun um-minda þann líkama, sem vér, í þessari vorri lægíngu, berum, ad hann líkur verdi þeim líkama, hann í dýrd sinni hefir, Philipp. 3.

Á hvörjum degi mætti þad vera fyrir vorum hugskots-sjónum, hvörsu vor náttúra er veik, og vor líkami vanfær; ecki er annars ad vænta, enn ad vér á stundum hriggjumst af því, þar ed vér megum álíta þennañ vorn náttúru veikleika, sem hellstu orsök vorra bágbornu lífsstunda; vor andi býr í þvílíkum líkama, sem nær því daglega minnir oss á, ad hann sé ecki annad eñ hrørlegt hreysi, sem í dag fá kunni áfall, en á morgun vera fallinn, ellegar um hvørt óttast megi, ad þetta hreysi, undir eins og á-

fall-



fallid tilber, hrynji í grunn nidur. Svo opt vér endurnærum oss med mati og dryck, svo opt, sem vér máttlausir óskum oss rólegheita, svo opt, sem vér finnum til nockurs meins edur þjáníngar, svo opt fáum vér nýja advørun þar um, ad vér skulum gjøra oss reidubúna til ad yfirgésa þetta líf. Daudans fyrirbođa finnum vér hjá sjálfum oss, stundum meiri og stundum minni, en þañig finnum vér hann þó, ad vér missum þar vid, um mikinn hluta æfi vorrar, rósemi vora og gledi. Sálin finnur daglega til óþægilegleika síns samastadar, og ófullkomlegleika sinna krapta, og þar af rísa svo óteljanlegar sorgir, áhyggja og órósemi. O! hvørsu aumkunar-verdar sképnur værum vér ecki, ef vér eckért hefdum ad hugga oss vid, á móti þessum sorglegu hlutum, eckért, sem gæti gjørt oss rólega; vér hefdum þá fullt efni til ad taka komu sérhvørs dags med tárum og sorg, og særast af sømú órósemi yfir vorra lífs-stunda varanlegleika, sem vér nú særumst af því, hvørsu skammviñt þad er. En vort ásigkomulag er farsællra, þared vér í Guds otta finnum máttuga huggun á móti allsslags veikleika, og trú-

fastann leidtoga í vorum útlendíngsskap. Petta gjörir oss þá örugga og óhrædda í öllum þeim tilfellum, sem boda oss daudañ fyrifram, þared vor Guds ótti géfur oss vissa von um añad fullkomnara og betra födurland. Þessi Guds ótti styrkir oss til ad bera med þolinmædi allar mótlætíngar, um hvörjar máské allmargar sjálfum oss kañ og vera ad kéña, því hañ fullvissir oss um vors Guds födur-kjærleika og máttugu hjálp. Þessi Guds ótti hughreystir oss med sálubjálplegri von um endurnýjad og dýrdlegt ástand, sem vér væntum oss eptir þetta líf. Þegar þær sáru tilfiñíngar, sem vors hrörlega líkama ásigkomulag ollir oss, orsaka óróseini, og oss vyrdist allt hid jardneska næsta hriggilegt, höfum vér añad þessu til léttirs í huga vorum, sem reiknast má miklu gledilegra. Vér sjáum fyrifram oss búiñ óendanlegañ fögnud, hvörjum vér jöfnum saman vid nærverandi sorg. Vér sjáum í huganum óforgengilegañ líkama, sem vér munum umskipta fyri þetta hrörlega veika hreysi, eilíft líf í stad þessa skammvïña, og sáluhjálplega upprisu eptir þeñañ tímanlega dauda; ad þessi umskipti séu oss fyribúin, þurfum vér ecki ad leida í gétgátu nockra,

ecki

ecki ad vænta eda óſka oſs þeirra med nockurri efaſemd; nei, vér megum álíta þau, jafnvel í þeſſu lífi, ſvo ſem nálæg, og hvad meira er, vér kuñum nú þegar fyrifram ad ſmacka og fiña þá ánægju hér í lífi, ſem fullviſſan um ædri komandi farſæld, géfur ſérhvorjum trúndum. Hvorſu yfirgnæfanlega gjörir þá ecki Guds óttiñ líf vort yndælt og róſamt? vér megum því hætta allri qvortun yfir þeſs mañlega lífs mædu og eymdum, en láta þad því framar vera vora daglegu umhyggju, hvørnig vér lifad fáum gudrækilega, ſvo ad vér lífa mættum ánægdir og luckulegir. O Gud! vyrdſtú ad tilreida oſs þar til med þínum góda anda, og uppfylla þeſſa vora hjartans óſk! æ! bænheyrdú þad nádarſamlega, þú, ſem ecki forſmáir hreinſkilnar bænir réttlátra, Amen.

## 24. Hugvekja.

Kénn mér fánþtum glauſa'ad gleyma, og gulleign jardar, metnad', lyſt, af munni hjartans óſk lát ſtreyma: ó Gud! þitt ríki komi víſt! undir eins og eg ávinn þad, audnaſt mér líka gott ſérhvad.

Á þeſſari qvøld-ſtundu óſkum vér oſs efalauſt rólegra, ánægdra og lucku-

legra daga; og mørg þúsund vorra med-
bræđra sameina sínar óskir med oss um
þetta sama. En munu þó gódu dagarnir,
er vér svo nefnum, og svo ákaft óskum
oss, í raun réttri vera svo nytsamlegir fyr-
ir oss, sem vér hugsum? mun oss þad svo
heilsusamlegt, sem vér álitum, ad vera
øldúngis fríir fyrir øllum lídunum og
mótlætíngum, en njóta allskonar heims-
gæda, æru og fagnadar? hvørs er allt
þetta verdt, þegar vér þó ecki undir eins
høfum ánægt sinni? hvørnig færi, ef øll
þessi heims-gædi snéru voru sinni frá
Guds nád og vingun, og vørpudu oss
enn dýpra í þá fordjorfun, sem skilníng-
ar-vitin svo optlega ginna og leida oss í?
og hvørnig færi, ef þau upprættu alla
laungun úr hjartanu til vorrar sáluhjálp-
ar andlegu gæda, alla tilfinníngu af kjær-
leika Guds, en uppfylltu vora sálu þar
á mót med þvílíkum girndum, sem ræna
mættu oss grundvalladri von um full-
sælu í eilífu lífi? hvørnig færi, ef þessir
gódu dagar gjørdu vort hjarta dramb-
samt, fylltu þad med miskunarleysi, á-
girnd og vellyst? þó fer þetta alloptast
þannig, og jardnesk gledi er æ hættuleg
vorn hjarta og vorri sáluhjálp; því luctu-
legri,

legri, sem vér erum í útvortis kríngum-stædum, því fleiri freistíngum, því stærri hættu erum vér undirorpnir; eckért nema eitt fær hrifid oss út af þessari háskasemd, sem æ fylgir gódu dögunum; ecki nema eitt er þad til, sem fær varnad, ad vér verdum hvorki módlausir í mótgángi né óluckulegir í medlæti, og þetta dýrmæta medal er sannur Guds ótti; vid þetta medal verda bædi vorir gódu og vondu dagar oss nytsamlegir, og þessa gáfu, þinn sáluhjálplega ótta, bidjum vér þig, miskunsami nádugi Gud! ad qveikja og vidhalda í oss, þá erum vér fullvissir um, ad allir hlutir verda oss ad gódu. Géf ad þinn ótti sé æ lifandi og stadfastur í vorri sálu, svo ad hún jafnan hlýdi þér, en ecki syndsamlegum girndum! kénndú oss ad meta sérhvorn hlut, sem oss er þægur og kjær, eptir maklegleikum, og láttu oss aldrei breyta svo óforsjálega, ad vér skiptum vorri sálarvelferd fyrir ríkdom, vyrdíngar eda vellyst; láttú skodun og umþenkíngu þess ósýnilega og eilífa, svipta oss ofmiklu dálæti á þessu sýnilega og skammvinna jardneska; láttú þær freistíngar, sem gódu dagarnir olla í þessum heimi, aldrei

leida

leida oss afvega, aldrei-spilla vorri eilífu farsæld, til ad ødlast jardneska forgengilega lucku. Láttu þinn ótta abla oss blessunar og gledi í vorum heilbrygdu og vanheilu døgum, í medlætis og mótlætis døgum, í gledi og sorgar døgum, í lífi og dauda; vér viljum einkis óska oss sérílagi, en vyrdstú af nád, ad géfa oss hvad þér þócknast, og oss má fyrir bestu verda; med þacklæti skulum vér medtaka allt, sem þín milda fødur-hønd útbýtir oss; audnist oss ad eins ad vardveita þinn ótta og þína elsku í vorum hjørtum, megum vér audveldlega alls annars án vera.

## 25. Hugvekja.

Þared vér erum réttlátir fyrir trúna, þá høfum vér frid vid Gud, fyrir vorn Drottinn Jesúm Krist, Róm. 5.

Um hvad ættum vér optar ad þenkja, enn um Jesú Krists kjærleika, af hvørjum vér høfum ad vænta oss allrar sálubjálpar? til hvørs skyldum vér optar hugsa, enn þeirrar ævarandi sáluhjálpar, sem nád vors Guds lætur oss vona? hvad gérur fyrir oss meir árídandi verid, enn ad vita oss géfna sálu, ecki

einúngis ódauðlega, heldur og þá, sem eptir þetta líf skal eilíflega sameinast Guði, og njóta eilífrar farsældar hjá hönum? hvað gétur framar hrært vort hjarta, enn yfirvegun þessarar farsældar, hennar óumræðilega yndælt og ypparlegleiki? samlíkjum henni við það, sem hér á jörðunni kallast lucka, og aðgætum hvörsu mikla yfirburði þessi eilífa farsæld hefir; hvað gétur framar haldið vorum girndum og tilhnegíngum í taumi, enn þegar vér látum oss einúngis lánga eptir þessari óviðjafnanlegu lucku, og stundum með fremstu kroptum að ødlast þessa sáluhjálp? gétum vér nákvæmlega þenkt um allt þetta án þess að upptendrast af kjærleika, og þacklætt til hans, sem er høfundur þessara gjæða, þessarar sáluhjálpar? ó! nei, þá fyrst fáum vér fullkomlega fundið það, hvörsu mikið lof og þacklæti Guði og vors Jesú Krists Fødur ber, sem hefir blessað oss með allsháttar andlegri blessun, þeirra himnesku gæða fyrir Krist; þá fyrst verður vort hjarta réttilega hrært af Jesú Krists óútsegjanlega kjærleika, sem hefir með svo dýru verði, hvørki með gulli né sylfri, heldur með sínu dýrmæta

og saklausa blódi, keypt og afrekad oss umskipti á daudanum og fordæmínguñi fyrir lífid og sáluhjálpina, sem hann oss útvegadi; þá munum vér og fá þacklátt og hlýdid hjarta, fyrir Guds Anda nádarsamlegu tilhlutun, sem hér vill tilreida oss med sínum guddómlega krapti og nád, og gjøra hæsilega til ad njóta þess eilífa lífsins. Þetta er mjøg svo áríd-andi og vidurqvæmileg æfíng fyrir hvørn kristinn, til ad komast í náqvæmari sameiníngu vid Gud, sem svo nádarsamlega kallar hann til sín og sinnar sameiníngar. Þetta er sú sáluhjálplegasta ydja, fyrir hverja vér ætíd meir og meir kunnum ad sameinast vorum Frelsara, vegna hvørs kjærleika vér verda munum eilíflega luckulegir; þetta er vor sanna lucka, ad vér ætíd látum oss stjórna af Guds Anda, sem æ leidir oss til Guds, og hans náqvæmu sáluhjálplegu umgengni, og kénnir oss æ meir og meir ad meta þá sáluhjálp, sem Jesú Krists kjærleiki og nád vors himneska Fødurs lofar oss ad vænta. O! þú sannleiksins Andi, géfdu oss nád til ad halda vorum þanknum sífellt stødugum vid þessa háleitu hluti; gjørdu vora sálu æ meir og meir vid-



vidſkila vid ſyndſamlegra gîrnda bønd og tálſnørur, ſem hîngad til hafa ſvo lengi hamlad hennar framfør til farſældar, og kénn oſs æ betur og betur ad þeckja, hvad til vors fridar heyrir; lát eckért vera oſs meir áríðandi, enn ad ſameinaſt Gudi, og eilíflega njóta hans nádar; eins og vér nú á þeſſari ſtundu umgaungumſt Gud, ſvo lát og vort hjarta framvegis honum helgad vera, þenkja til hans, óttaſt og elſka hann yfir alla hluti fram, og þanninn nálægjaſt þá farſæld, ſem eilíflega mun gledja oſs fyrir hans veldis-ſtóli, Amen.

## 26. Hugvekja.

Wid réttlátra mun ad føgnudi verda, en von óguðra fyrirferſt, Ordsqv. b. 10.

Þeſſi dagur, ſem náð míns Guds lét mig aflifa, er nýtt ſtig fram ad þeirri endalauſu eilífd. Sú óútmálanlega farſæld, ſem hann enn framar hefir áqvardad mér, uppfyllir mína ſálu med brennandi laungun eptir ad verda hennar hluttakandi. Hvørſu opt finnſt mér ecki tídin laung, hvørſu opt hvarflar mér nú í hug óþolinmód laungun,

af

af því eg enn þá ecki fæ að njóta þessarar farsældar; enn þá hughreystir mig, enn þá upplífgar mig sá þánki, að eg ætlid meir og meir nálægist mitt mikla farsældar takmark. Ecki renni eg þánka til daga eda ára, sem eg lifad hefi, heldur tel eg tímana og augnablikin, sem eptir eru og enn hamla mér fullkomlega að géta nálgast minn Jesúm, og hvørsu gledur mitt hjarta sig, að tala þeirra fer ódum mínkandi. Á morgun verd eg fluttur enn þá nær mínu vonar takmarki, já, vid hvørt augnablik styttist meir og meir þessi fjarlægd, þángad til loksins þann tímans púnkt adber, að mér audnast að verda eilífflega farsæll. Því skélfist þú þá, sála mín! er þú minnist þágbornu tímanna, sem enn þá máské bída þín? hvørsu fljótt munu þeir ecki framhjá lída? hvørsu þæg mun ecki þeirra endalykt, og hvørsu yndæl verdur ecki þeirra umbun? hreystú þig upp til að bera þá med stødugl yndi, allir mida þeir til þess, að búa þig verduglega undir eilífdina; já, lofadur veri Gud, að hann vyrdir mig þess, að láta mig á stundum smán og ofsókn lída fyrir síns nafns sakir! Mín sála príſar hann, sem géfid hefir mér

 or-

ørugga von um allt hvad eptir kémur, þá miklu og gladværu von, sem engu mótlæti gr̄da þarf í þeirri komandi eilífd. Láttu nú og, líknarfulli Gud! þá miklu skyldu, sem mér framvegis ber ad vardveita, vera mér sífellt fyrir sjónum; lát mig aldrei festa þann kjærleika vid heiminn, eda nockurn hlut í heiminum, ad eg þess vegna gleymi þeim gædum, sem mér eru geymd í komandi eilífd; gjör þú mig viljugann og hæfilegann, til ad afneita minni egin gagnsemi, minni rosem og hægdum, minni ánægju og drambsemi, þegar gilda skal ad sýna hugprýdi og náúngans kjærleika, og æfa sam̄kollud gódverk til þinnar þjónustu. Þurfi minn bródir hjálpar vid, verd eg ad flýta mér til hans til þess ad hjálpa honum og álíta mig luckulegann, fái eg þessa orkad; þó óvinur minn hafi afbrotid á móti mér, og jafnvel illt í sinni gégn mér, géf mér samt, ó Gud! nád til ad fyrirgéfa honum af hjarta, og med nýjum velgjörníngum ad sannfæra hann um, ad engin̄, nema sá rétt-kristni, er svo hugprúdur, ad hann umbuni illt med godu; géf mér í öllum athøfnum ad audsýna mig gódann, kristinn mann, og lát mig í medlæti

eins

eins og í mótlæti, í dauda, sem lífi, sanna, ad eg kappstosti ad vera míns Jesú trúr eptirfylgjari og barn míns Födurs, sem á himnum er; lát enn framar sannast á mér, ad sönn trú og gudhrædsla öllu fremur gjöri sína elskendur verdugar, gódar og farsælar manneskjur!

## 27. Hugvekja.

Varpadú þinni áhyggju uppá Drottinn, og hann mun forsórga þig, hann mun ecki leyfa ad sá réttláti æfinlega liggi fallinn, Psálm. 55.

Dagurinn, sem vér höfum lifad í dag, er ný sannfæring þess, ad Gud, minn gædskuríki fadir, enn þá elskar mig, og vyrdir sinnar kjærlegu og nádugu endurminníngar. Þá eg renni þaunkunum aptur til þess umlidna, hvílíkra undrunar-verka hans kjærleika, og vidqvæmu födurlegu umhyggju, verd eg þá ecki hvervetna var? hann ól önn fyrir mér, ádur enn eg vard til, og hefir sífellt borid umhyggju fyrir minni velgengni frá byrjun míns lífs, til þessa augnabliks. Oteljanlegir eru hans velgjörníngar, og óumrædilegur hans kjærleiki til mannanna barna. Hvörsu mætti nú ecki mitt

hjarta hræraſt við þannig að hugſa tilbaka og yfirvega umlidnu tímana? hvílík uppørſan fyrir mig, til að vona, elſka og þolinmódlega líða? þú, ó Gud! ſem mér gjørt heſir ſvo mikid gott híngað til, þú munt ſíſt yfirgéfa mig hédan af, og það er min ørugga trú. Eg, ſem í ſvo lánga tíma heſi verid forſo gadur af þér med øllu godu, mun ſíſt mæduſama áhyggju bera fyrir deginum, ſem kémur á morgun. Þú heſir híngað til hjálpað mér í gégnum ſvo margar þreyngíngar, því mun eg øqvídin framvégis reida mig uppá þína hjálp; þú heſir ſannſært mig ſvo opt um það, að øll mín tilfelli og allt hvad mér mætir, kémur einúngis frá þér og ſtjórnaſt af þinni hønd, eptir oendanlegum vísdómi þínum og gædſku, mér til beſta; ſkyldi eg þá vera óánægdur med hvad þú útblutar mér? ſkyldi eg møgla á móti þér, eg heſi ſvo opt ſjed að lygi og fals hafa til ſkammar ordid, og að einúngis dygd og fromleiki fá ſtadiſt til enda, ſkyldi eg þá ecki hata bakmælgi, en elſka hreinſkilni? þú heſir allt af elſkað mig ſvo áſtúdlega, ſkyldi eg þá ecki elſka þig aptur? þú heſir géfid mér lífid, og allt hvad eg heſi, ſkyldi eg þá

ecki

ecki vera reidubúinn og viljugur til ad yfirgéfa alla hluti fyrir þínar sakir? þú hefir sýnt þig svo ástúdlegann vid mig, skyldi eg þá vera hardgédja vid brædur mína? þú hefir fyrirgéfid mér svo margfaldar og miklar syndir, skyldi eg þá ecki af hjarta fyrirgéfa mínum óvinum? ó Gud! þú, sem ert svo ríkur af nád og mikill ad miskun, þú, sem hefir útausid yfir mig svo mørgum velgjørníngum, þó eg sé óverdugur ad njóta þinnar minnstu nádar, þar eg á engann hátt gét þá aptur endurgoldid. O! láttú mig þó ad minnsta kosti ecki vera óþacklátann fyrir þá, svo eg efalaust megi gjøra mér þá óhultu von, ad þú á tilkomandi tímanum viljir minnast mín, viljir vera minn hjálpari og verndari; þá munu þær skyldur verda mér bædi þægar og léttar, sem mér nú finnast ørdugar og ógédfeldar. Þegar eg einúngis hefi þacklátt og hlýdid hjarta til ad bera, er þad, hér í tímanum ad álíta, sem inngánginn til þess gledi- og lofgjørdar-saungs, sem eg á sídanst eilífdinni mun færa þér, fyrir alla þá nád og ómetanlegu velgjørnínga, sem þú frá barns-beini og um alla mína æfi hefir mér svo fødurlega audsýnt.

# 28. Hugvekja.

Þó sorg og ánaud sífeldlig, samferdist lífsins døgum, eg gladur er því, Gud! veit þig, gløggt sjá hvad mínum høgum, er fyrir bestu, mædu med, mitt þú reynir og venur géd, í þínum ad þreyja'áløgum.

Þó sorgin særi og mótlætid mædi mig, vil eg þó vel ánægdur vera, géti eg þocknast mínum Gudi; eg veit ad þetta líf muni þó enda taka, og ad eg næ farsæld hjá Gudi, þegar lífid þrýtur; hvad hefir ecki Gud fyrir mig gjört, til þess ad lada mig til sín? hvørsu tídum hefir hann ecki bodid mér til sín aptur ad snúa frá syndunum? hvørsu mørgum hindrunum hefir hann ecki burtu vellt, til ad gjøra þann veg færann, á hvørjum hann vildi mig framleida? allar þær nádarverkanir, sem hans Andi framqvæmt hefir í minni sálu alla mína æfi, frá því eg sá fyrst heimsins ljós, vóru ecki annad enn uppvakníngar, sem vegleida máttu mig enn nær Gudi. Sá guddómlegi vísdómur, lét øll þau tilfelli, sem vid mig framkomu, studla til þess, ad eg leiddur yrdi æ lengra fram á veginn

inn til hans sameiníngar; en máské eg ecki til hálfs þecki þennann Guds velgjorníng, þar eg ecki ad fullu skynja kann áqvardanir og tilgáng Guds forsjónar, sem svo nádarsamlega vakir yfir mér. En ef ad Gud opnadi mín augu, þá munda eg verda þess var, ad øll mín lífs tilfelli stefna til sannrar luckusálar minnar; eg mundi þá læra ad þeckja, ad jafnvel sá mótgángur, sem mér ad hondum ber, er eckért annad enn nádar-rík rádstafan míns Guds, svo eg enn framar sameinist honum; eg mundi þá verda þess var, ad margir tilburdir, sem eg álít ad vera léttvæg tilfelli og hendíngar, eru þau medøl, sem Guds nád brúkar til ad gjøra enn greidari veg til betrunar míns hjarta; eg mundi þá sjá, ad mín fædíng, lucka og eignir, mínar náttúrugáfur og allt mitt ástand, eru kroptug medøl til ad leidbeina sálu minni á Guds veg; eg mundi þeckja, ad Gud, á sérhvørju augnabliki míns lífs, audsýnir mér ný og ný merki hans miskunar. Stundum burthratt hann einhvorri hindrun minnar sáluhjálpar med nockrum missir, stundum dempadi hann mínar tilhneigíngar med einhvørju þægilegu tilfelli;

stund-

stundum gaf hann mér med einhvorju gódu dœmi tœkifœri til alvarlegra hugleidínga, stundum uppvakti hann mína sofandi samvitsku med einhvørs medbródurs hastarlegum vidskilnadi, í einu ordi: Gud hefir allt vid mig gjørt, og gjørir enn nú, til þess ad draga mig frá heiminum til sáluhjálplegrar sameiníngar vid sig. En, hefir þá sá miskunsami Gud fengid þad hjá mér framqvœmt, sem hans nádar-fulli tilgángur midadi til? hefi eg nockud skipast látid vid bendíngar hans? er eg daglega nœr honum komiñ? ó Gud! hvad fœ eg dulid fyrir þér? þú þeckir mína fásinnu og mótþróa. Þú veitst hvørsu eg mótstadid hefi þíns Anda verkunum. Hvørr dagur var híngad til nýý ydrunar upphvatníng fyrir mig, og þo brúkadi eg hann eins og hann verid hefdi einber upphvatníng til lasta. O! Gud! gack ecki í dóm vid mig, og kref mig ecki til reikníngs fyrir þína medteknu velgjørnínga og nádar-verkanir, sem eg hefi misbrúkad, haldtú áfram ad uppvekja, hrœra og sannfœra mig med þínum Anda; láttú mig sífellt sjá og vidurkénna, hvørsu fødurlega þú sífeldt ladar mig til apturhvarfs til þín, og géf ad eg

verda

verda mætti æ fúsari og fúsari þar til, þér æ hlýdnari enn eg hingad til verid hefi, og ecki lengur ónýta og forsmá þína náð vid mig, med tilfinníngarleysi og þverúd. Leid mig á þínum, vegum og varna mér frá því nockurntíma hédan af, af þeim ad víkja, svo ad eg ad lokunum ødlast megi þad eilífa og sælufulla líf, til hvørs þinn kjærleiki í Jesú Kristi hefir mig áqvardad. Amen.

## 29. Hugvekja.

Lífid er stutt, kénn, minn Gud! mér, mína svo telja daga hér, ad tækifæri aldrei neitt, ydju skyldunnar frá sé snéydt; tíd sú eitt sinn mér fór burt frá, fara ecki til baka má.

Tíminn er stuttur, og því fæ eg aldrei nógu vel íhugad og gætt, ad færa mér hann í nyt; ætti eg enn fyrir hønd-um ad lifa hundrad ára øld, þá væru kannské þeir illa brúkudu dagar og augnablik ecki meir eñ lítils vyrdi, sem mér brád-lega bættist, en nú eru mínir dagar og ár áqvørdud svo fá, ad alls eckért af þeim missast má. Dragi eg frá øllum mínum aldri þann tíma, sem eg verd ad brúka til umhyggju fyrir líkamanum og minni

vel-

velgengni, hvad verdur þá eptir af allri æfinni, sem Gudi og eilífdinni sé varid, og þó lætst eg ecki vita til hvørs eg brúka skuli þad lítid, sem afgángs er? já, eg leita mér þúsund brágda, til ad stytta mér þessa tíd. Æ! mig aumkunar verdann! því hefi eg ecki hugleidt, ad nú líf eins laung og mitt, fá ecki bætt mér aptur hinn minnsta part af þeim tíma, hvørn eg vanbrúkad hefi. Hvørnig gét eg þá í svo stuttu lífi fengid nockurn tíma afgángs til lystínga og ónytsamlegra hluta? mun nockurr saka-madur, sem var til dauda dæmdur og átti einúngis einn dag eptir ólifadann, á hvørjum hann gæti nádar leitad, mundi hann hafa nockurn tíma afgángs, sem hann eyda megi til ónytis? ó! hvørsu fásinna eg er! dótnurinn er þegar fallinn um mig, eg á einúngis einn dags-frest eptir, og þessi dagur er mér til leidinda? eg eydi honum í þvíl íku þánkaleysi, med gjálfri, í barndóms legum og ónytsamlegum athøfnum, og leitast hvad mest eg get vid ad stytta hann; eg sje qvøldid koma, án þess ad hafa brúkad þann dag, sem Gud hefir géfid mér ødruvísi enn svo, ad eg vann til enn þýngri hegníngar. Hvørnig fæ eg sagt, ad eg hafi

hafi haft afgángs tíma þennann dag? ó! hvørsu tídin er stutt, og mínar skyldur ó-teljanlegar, og þó fann eg enn þá svo margar kónistinidir á hvørjum degi, á hvørjum eg ekkért tók mér fyrir ad vdja; enn þá lét eg lystiligar stytta mér tídina. Voldugi Gud! þú, sem einn úthlutar tímum og augnablikum, hvørninn mun þér gedjast ad sjá mig þanninn eyda minni tíd, sem er svo stutt og þó svo mikils-verd? æ! eg skélf og titra; sá mesti og besti partur míns lífs er þegar lidinn og tapadur, skal eg enn þá ætla mér, ad eyda eins ónytsamlega því, sem eptir er daganna? skal ekkért alvarlegt augna-blik vera til í mínu lífi, nema þad seinasta, sem endar þad! ó Gud! vardveittu mig vid þeirri óútmálanlegu miklu ó-lucku; helga þú sjálfur þau fáu augna-blik, sem eg enn þá lifa skal í þessum heimi, og géf mér nád til ad brúka þau mér til sáluhjálpar. Þessi dagur flytur mig nær grøfinni, ó! hvad vildi eg gjøra, ef eg vissi mig ega einúngis eitt stig ófarid eptir af minni vegferdar-reisu ad grøf-inni? lát sífellt vaka í huga mínum þetta íhugaverda: hvad ef mér yrdi nú í burtu svipt, hvør mundu þá mín kjör verda?

eilíft

eilífi Guð! miſkunna þig yfir mig, og géfðú mér þann vísdóm forſjálega að telja mína fáu daga, forſjálega að brúka mína ſtuttu tíð, og forſjálega að endurkaupa hvört forſómað augnablik, þareð mín eilífu forløg eru þar undir komin.

# 30. Hugvekja.

Þitt orð er vor hjartans gledi og huggun, Jer. 15.

Þegar ég elſka Guð og Jeſúm Kriſt, gét eg í øllum lífs tilfellum hughrauſtur verið; hvørt, ſem eg lít til þeſs umliðna, til þeſs nærveranda, eða þeſs ókomna, ſtyrkiſt eg æ í þeim áſetníngi, að vera hjá mínum Endurlauſnara, að hvørjum einum eg vil mér halda; eg finn að ſønnu, þá eg aðgæti mitt umliðna líf, að eg einnínn varið heſi æfi minni í heimſins gjálífi og til heimſins lyſtínga, en hvílíka huggun finn eg þar hjá midt í þeſſari ſorglegu endurminníngu! eg gét ecki hugſað til þeirra umliðnu tímanna, án þeſs undir eins að þacka og þeckja alla þá vegu, um hvørja Guðs miſkunſemi heſir mig framleidt. Allſtaðar þecki eg þá náðugu forſjón, ſem Guð heſir fyrir mér borið, jafnvel og þá,

er

er eg eñ géck á vondum villu-stigum. Eg kannast vid þær heimuglegu advaranir, med hvørjum hañ tídum kalladi mig til ad taka vara á minni skyldu, og med hvílíkri glediog huggun má þá ecki mín sál uppfyllast? hvørsu óendanleg er ecki, ó Gud! þín miskunsemi, má eg med Spámanninum undirtaka! þegar eg er Jesú, fyrir trúna, sameinadur, liggur mér í léttu rúmi hvad hellst sem ad kémur og ágengur í þessu lífi; heimsins óstødugleiki, ránglæti og álas, sem er svo sorglegt fyrir þá, sem elska hañ, þénar mér ecki til añars, eñ ad eg læri því betur ad þeckja, hvørsu eg er farsæll, sem útvalid hefi mér annann herra enn heiminn; en þó verd eg enn krøptuglegar huggadur vid umþenkíngu þess, sem eptirkomandi er. Eg bíd þeirrar sælu vonar og þess luckulega augnabliks, þá eg inntakast mun í þeirra himnesku hersveita samfélag, aptur sameinast brædrum mínum, sem eg mist hefi á jørdunni, og ódaudlegum Gudi sjálfum; eg kannast þá vid þad, ad þó eg hafni því, sem nærverandi er, tapa eg þó engu, þared allt þetta jardneska mun eptir fá lidin augnablik horfid, og þær þreyngíngar, sem eg hefi lidid, mega ecki koma í nockurn samjøfnud



nd vid þá dýrd, sem mér er fyrirbúin í himninum; eg veit og má sanna: ad nálægir hlutir hverfa í burtu skyndilega, og eru ecki þess verdir ad nockurr telji þá, eptir ára eda jafnvel hundrad ára tølu, þó svo lengi audnast mætti ad njóta þeirra. O! því hefi eg ecki fyrir laungu látid mig leida af Jesú stjórnun, svo eg ødlast mætti þessa sælu? Því hefi eg ecki leitad þessarar sameiníngar vid minn Endurlausnara, til ad gjøra þad umlidna, nálæga og eptirkomanda mér audveldara? æ flýttu þér, mín sál! vid enda þessa dags, ad vinga þig vid þinn Drottinn, hvørs nád og gódgirni mun gjøra, ad allt verdur þér gott og gledilegt; slíttu af þér þau bøndin, sem enn þá binda þig vid jørdina, og kom sídan til ad nota þér þau gædi, sem þinn Jesús býdur! þú fyllist, ad vonum, óróa, þegar þú minnist þinna drýgdu bernsku brota, hvørsu mikla mædu orsakar þér ecki sjón nálægra eymda hér í heimi? hvørsu mikillar áhyggju valda þér ecki umþenkíng þinna komandi tilfella, og hvørsu sorglegir verda ecki vid allt þetta þínir dagar? ó! léttu á þér þessari byrdi og leitadu rósemdar þinni sálu hjá Jesú, já, leitadu fyrirgéfníngar hjá honum á

þín-

þínum í frammi høfdu syndum, gledi hjá honum á nálægri tíd, og sáluhjálplegrar vonar fyrir komandi tímana!

## 31. Hugvekja.

Þó samtøk gjørdu himin, haf, og haudur mér til ama, hættum stædi'eg umspenntur af, og ógn hels í bili sama, en heimur allur hvirfi mér, Herra Gud! samt eg treysti þér, óttast fár eckért framar.

Sú nád og miskun míns Guds, sem vardveitir mig og hefir híngad til vakad yfir mínum døgum, uppfyllir nú mitt hjarta med djørfúng og trúnadartrausti. Því skyldi eg efa um hans handleidslu, þared sérhvørr dagurinn, sérhvørt augnablik míns lífs sýnir mér audsjáanlegustu merki hans vísdóms, almættis og gædsku? nei, eg sæ ecki annad enn íhugad ókomnu tímana med því trúar-øruggasta hjarta, þared sá sami alvísi og nádugi Herra ræædur fyrir þeim, sem audsýndi sig mér svo dýrdlegann á umlidna tímanum. Eg veit því fyrirfram ad hvørr ókominn dagur muni géfa mér nýjar sannfæríngar hans nádugu forsorgunar fyrir mér; eg mun framvegis

óqvídinn vona mega ad finna hann vera þann sama mildiríka velgjørara, sem ánægjanlega veitir mér allt hid goda. Hann mun leida mig á þeim vegi, sem mín fávitska og breiskleiki varna mér annars ad gánga; hañ mun snúa frá mér þeim háskasemdum, sem framvegis munu mæta mér á miñi Pílagríms-reisu; hann mun bæta þann skort, sem fylgir jafnan mínu ásigkomulagi; hañ mun framhalda þeirri umhyggju og kjærleika, sem hañ hefir borid fyrir mér, allt frá módur-lífi, hann hefir aldrei aflátid ad vera minn Gud og hjálpari; máttur og yfirburdir hans guddómlegu veru, og sañleiki hans fyrirheita, géfa mér þá óefanlegustu fullvissu um allt þetta; eg veit hañ og ad vera minn mildiríka Gud, og mitt hjarta gledur sig af því, ad hañ svo fúslega hjálpar mér. Eg vil því prísa þig, minn Gud! því ad þú gjørir svo vel vid mig; en eg veit og fyrirfram, ad sú komandi tíd hefir mér mótlætíngar búnar, og ad eg hér eptir ecki heldur muni frí verda fyrir øllum þjáníngum. Já, eg yrdi eiñ medal þeirra óluckulegustu mañsképna, ef eckért mætti mér þad, sem fengi læckad mína drambsemi, stødvad mitt óstøduglyndi og hrært

mitt

mitt hjarta til ad képpast eptir betri og varanlegri gædum. Þú munt því best sjá og áqvarda mér þad, sem mér er naudsynlegt og fyrir bestu, minn Gud! og á stundum, vegna minnar sønnu velferdar, sjá hentugast ad straffa og audmýkja mig; en eg bid þig af øllu mínu hjarta, ad þú vyrdist ad géfa mér þolinmædi, von og huggun, til ad medtaka og svo hid ógédfelda af þínum fødur-høndum, og kannast vid þinn gædskufulla tilgáng, í øllu því þú gjørir. Vissulega munt þú einnig í mótlætínganna skamti høndla miklu nádarsamlegar vid mig, enn eg verdskulda, og ecki leggja á mig stærri þjáníngar, enn eg fæ borid; eg vil því audmjúkur vona á þig, og øldúngis afhenda mig þinni gædsku og nád fyrir Jesúm Krist. O! minn Gud! þú, sem einn þá aldrei létst nockurn þann til skammar verda, sem sett hefir sitt traust á þig, láttú mig og fá ad reyna trúarinnar sáluhjálplegu verkanir, og finna hvørsu luckulegur sá er, sem má vona á þig, og afhenda sig med fullu trúnadar-trausti á þitt vald. Eg fel mig nú á þessari stundu þinni trúføstu vegleidslu í øllum tilfellum. Hvad gétur mér íllt mætt, ef þú



ad eins ert minn Gud og minn Frelsari? hvad hefi eg ad hrædast, sért þú ad eins mitt traust og hæli?

# 32. Hugvekja.

Þvi far þinn veg nú, þú heimur fallvallti og hefd þín ótrú! eg sný hug til himins og hann stunda á, til Herra míns Jesú, minn Frelsara'ad sjá; þar hjá þeim útvoldu' hann hét og bjó mér, víst sjálfum med sér, víst sjálfum med sér.

Vor borgar-réttur, vor von og vor ávardada eilífa vistar-vera er á himnum; ad hugsa þángad heim, daglega meir og meir ad samfærast hér um, og þess vegna minna ad meta þad jardneska, þad er vor skylda á medan vér búum á þessari jordu; Gud hefir því allopt gjort oss samastadinn hér svo ordugann, ad vor umsorgun og þánkar dragast skyldu frá heiminum til himinsins; ad vér síst gjorum oss í lund, ad vér hafa kunnum eins mikla gledi og unadsemd hér, eins og vér þar á sídan vænta megum. Þegar daudinn loksins ber ad dyrum hjá oss og vér skulum rádstafa voru húsi, verdur allt þetta jardneska litilsverdt og fánýtara eñ nú í vorum augum. Allt þad vér mik-

ils

ils høfum metid í þessu lífi, mun oss þá sýnast, sem einkisverdt, en hitt þar á móti, sem vér høfum lítils metid, verdur oss svo dýrmætt, ad vér þá dœmum þad verdskuldad hafa allañ vorn kjærleika allann vorn aldur. Ef ad vér adgætum þetta, nú á medan vér erum heilir heilsu, yrdum vér betur þar um sannfærdir, hvørsu fánýtt þetta líf er. Ef ad vér réttilega hugleiddum himinsins farsæld, mundu oss víst miña verdar álitast eymdir og armæda þessa lífs. Ef ad vér réttilega yfirvegum, ad oss er hér ætlud vera einúngis um stutta stund, og vér tímanlega megum búa oss undir vora burtfør til þess himneska fødurlands, þá mundi oss ecki gánga svo nærri ad þola litiñ mótgust og ørdugleika á ferdiñi, svosem hitt, ad missa alla hægd og gledi þá hédan alkomnir erum. Ef vér ydugleg a hugsum út í, til hvørs Gud einkanlega setti oss hér á jørdu, þá mundum vér gladir og fegins huga, framqvæma svo mikid gott, sem oss møgulegt væri í þessu stutta lífi. Ef vér einúngis vildum meta himnaña farsæld ad hálfu leiti vid þad, sem hún er í raun og veru, þá mundum vér sannlega meira vilja til hennar vinna. Svo opt, sem vér

íhugudum himinsins vegsemd, mættum vér sannfærast um vort seinlæti til þess góda, og um heimsins ófullkomlegleika. O Gud! fyrst þér þocknast hefir ad lengja vort líf allt híngad til, svo géf oss nú nád til ad yfirvega, ad vér suarlega megum hédan halda, og ad vor velferd er undir því komin, hvørnig vér erum undir þessa burtfør búnir; lát oss upphvetjast af Soninni um þau dýrdlegu laun, sem þú hefir heitid oss, ef vér ad eins ótraudir keppumst eptir eilífdinni og hennar farsæld. O! ad vér megnudum ad framqvæma þinn vilja med eins mikilli gledi, og þeir sælu andar Englarnir, sem skoda þitt auglit! ó! ad himinsins umhugsan mætti vekja alla vora lífs og sálar krapta, og géfa oss æ meiri og meiri laungun og styrk til dygdanna æfíngar! láttú þad vera vora einustu stødugu ástundun, ad gjørast verdugir til ad ná þeirri sáluhjálp, sem oss er í himninum ágvørdud! þessa skulum vér einúngis óska, þarvid skulu vorir þánkar skémta sér, og þetta á og má vera vort stødugа mark og mid, frá hvørju engir jardneskir hlutir fái oss snúid. Þannig skal vor umgengni vera á himnum, hvadan vér væntum vors Drottins

og

og Frelsara Jesú Krísts, sem mun ummínda þañ líkama, sem vér í þessari vorri lægíngu berum, ad hañ líkur verdi þeim líkama, hañ í dýrd siñi hefir, med hans voldugа krapti, sem alla hluti kañ sér undirgéfna ad gjøra.

## 33. Hugvekja.

Hvørsu gott, sem lifid er, varir þad þó ecki nema stutta stund, segir Syrach 41.

Heilbrygdi, ríkdómur, vyrdíngar og ástsæld, eru þau gædi, sem allir í tímanum óska sér ad eignast, og ef vér vissum þeirra flestu mañа bænar iñihald á þessu qvøldi, mundu þessir hlutir vera hellsta innihaldid af óskum þeirra; þegar eg nákvæmlega prófa sjálfañ mig, fiñ eg einnig laungun eptir heilbrygdi, ríkdómi, vyrdíngum og vinskap í hjarta mínu. Þessa laungun er ecki ad lasta, en mætti eg einúngis velja réttu medølin til ad ná þessum gædum, vildi eg einúngis bidja Gud um dygdugt hjarta, og þá mundu øll þessi gædi hvad vissast verda mín eign, þvíad Guds ótti er veguriñ, á hvørjum eg vona má ad ødlast heilsu, ríkdóm, vyrdíngu og ástsæld. Ef eg er réttlskickadur fyrir Gudi,

má eg hellst vænta mér heilbrygdis og lánglífis, því þá æfi eg þær dygdir, sem vidhalda mega heilsu minni; þá fordast eg lesti, sem stytta mína daga. Ef eg gudhrædsluna elska, þá mun mig síst ríkdom vanta. Þá mun Gud stýra mínum athöfnum med sinni sérlegu og mildiríku forsjón, blessa mín fyrirtæki, og láta mínar gjørdir farsælega luckast, og þó eg nædi ecki miklu ríkidæmi, mundi þó Gudhrædslan géfa mér ánægt hjarta; án hvørs ríkdomur yrdi mér einúngis byrdar auki, og ástand mitt engu þólanlegra. Sé eg dygdugur, þá verd eg bædi vyrdtur og vel metinn; sérhvørr, sem elskar rádvandt framferdi, mun meta og vyrda mig mikils, og yrdi þetta meir enn fullkomid jafnvægi á móti þeirri vanvyrdu, sem eg saklaus lída kynni af ógudlegum. Elski eg Gud med hjartans einlægni, mun mig aldrei vini vanta; því þá mun eg ætíd finna þá vini, sem med einlægum kjærleika og hreinu hjarta verda mér unnandi, og greida úr mínum vanrædum, eins og þau væru þeirra egin. Sú er því sérlegasta ósk mín á þessu qvøldi, ad eg verda megi gudhræddur og dygdugur, og audnist mér þad, hefi eg allt. Því

gud-

gudhræddari sem eg er, því rólegri, ánægdari og luckulegri mun eg verda, eckért mun eg fyrir þad missa af því, sem heimsins børn képpast svo ákaft eptir, og ecki skal mig eptir því lánga, þared eg á betri audlegd; heilbrygdi miñar sálar mun og gjøra mér líkamans sjúkdóma léttari og þolanlegri; Guds nádar ríkdómur mun uppørfa mig, þegar útvortis skortur þreyngir ad; ad vita mig Gudi kjæraň, og honum um mig hugad, mun gjøra mig gladsinna, þó heimuriñ snúi vid mér bakinu, og vegna fullvissu um Guds og Jesú kjærleika, mun eg þolinmódur umbera, þó vinirnir bregdist mér. Eg verd því ad øllu leiti, og í øllum kríngumstædum, farsæll, hafi eg gudhrædsluna til ad bera; ad eg megi gudhræddur verda, skal því mín innilegasta bæn ad þessa dags qvøldi.

## 34. Hugvekja.

Drottinn Gud er sól og skjøldur, Drottinn géfur nád og heidur, hann mun ecki láta þá vanta neitt gott, sém á hann vona, Psálm. 84.

Þegar eg yfirvega hvad Gud er, og hvad eg er, þá mætti sú yfirvegan uppvekja hjá mér djúpustu lotníngu; eg gæti



gæti þá ecki annad enn nálægt mig Gudi med tilfiñanlegustu (hugun miñar eymdar og óhæfilegleika til alls ens góda, og þetta er líka veguriñ, á hvørjum eg fiña mun nád hjá Gudi. Í þessu áfigkomulagi mun eg honum þócknanlegur vera, þegar eg lært hefi ad þeckja mig sjálfañ og audmýkja mig fyrir hans dýrdlegu hátign; mín vesæld og eymdarskapur mun ad sönu því olla, ad eg valla dyrfist ad upplypta mínum augum til þessarar hátignar, en hans augu munu því heldur líta ofan til mín, sem eg eptir hans bodi og dæmi míns Jesú, er sañ audmjúkari; þañig á mig komiñ mun eg ætíd óhultur og gladur voga ad nálægjast Gud. Mín Guds þjónusta, sá vyrdíngarfulli ótti, sem eg ber fyrir honum í trúnni, med tilfinníngu sjálfs míns eymdar og óverdugleika, mun honum víst þægari, eñ þótt øll verøldin færdi honum hégomleg brenni-offur. Mín bæn mun vissulega þreyngja sér ad hans veldisstóli, og hræra hann til ad gjøra mig hlut-takandi í hans nádarfullu fyrirheitum. Hann, sem heyrir bænir þeirra vesælu, og hjálpar þeim, sem hafa kløckvann og audmjúkann anda, mun efalaust heyra mína bæn, og flýta sér ad hjálpa

hjálpa og miſkuna mér, hann mun ecki forſmá mitt ſundurkramid og ángrádt hjarta, ecki minnaſt minna ſynda, heldur láta þær frá ſínum augum burthverfa eins og ſkÿ fyrir vindi; á þeirri vondu tíd, á ángiſtar, neydar og hørmúnganna degi, ſkal eg vïſt voga ad nálægja mig til hans; í hvørju, ſem ad høndum ber, já, í daudans ſídſtu adſókn, ſkal eg óhultur og óhræddur voga til hans ad flýja; þegar mér hvørgi í heiminum er lengur vært, ſkal eg dirfaſt ad leita hælis hjá mínum Jeſú, og fyrir hans krapt og fulltíngi ſigra þenna ſídaſta óvin. O Gud! kénn mér ad verda ſann-audmjúkur, þú ert mikill og yfir alla hluti upphafinn, en eg er eckért; þú ert eilífur, og verdur hinn ſami og þú ert, og þín ár fá engann enda, en mín tilvera hér, er ſem einn dagur, og mitt líf á jørdunni eins og ſkuggi; ó Gud! kénndú mér ad ſjá og þeckja ad eg er eckért, og ad eg hefi verdſkuldad daudann vegna minna ſynda. An þín framgeng eg í megnri blindni og fávitſku, og ſje ecki þína reidi gegn ſyndum mínum, fyrir hvørri eg mundi þó eilíflega torthýnaſt; mín augu fá ecki heldur hættuna ſjed, er eg ſveyma í, ſem er: ad

eg

eg líða kynni eilífa smán og vanvyrðu, sem verðskuldud endalok minnar dramb-semi, nema þú með þínum góða Anda vyrðist að vísa mér veg til sannrar aud-mýktar og lítillækkunar sjálfs míns; æ! hvørsu lengi mun eg enn ráfa villtur frá þeim sanna audmýktar vegi? hvørsu lengi álíta mig fullsterkann, jafnvel þó eg sé staddur í mikilli eymd, hvorja eg hvørki hugleidi né þecki? nær mun þitt náðar-ljós, eilífi ljósanna Fadir! fá algjørlega burtrýmt þessu myrkri og fásinnu úr hjarta mínu? sjá, ó Gud! að mig nú lángar til að rata þenna farsældar veg, æ! verka þú sanna audmýkt hjá mér, svo að eg megi þér þócknast, því eg er brotlegur syndari, sem hefi skort á þeirri hrósun, sem fyri þér gyld-ir; vertú mér jafnan náðugur, láttú þitt auglit lýsa yfir mér, og kenn mér þín réttindi.

## 35. Hugvekja.

Mitt athvarf er til Guds; vonið á hann alla tíma, gott fólk! segir David, Psálm. 62.

Hvad fær oss ángistar ollað, þegar vér bædi í tilliti til þess nálæga og hins ókomna, gétum haft þá øruggu von, að øll vor velferd í þessu lífi sé í høndum vors Guds?

Guds? hañ þeckir allar vorar þreyngíngar, og hefir nog medøl til ad frelsa oss frá þeim. Hans miskunsemi mun ecki neita oss neins þess, sem í raun og réttri veru er oss þénanlegt? því skyldum vér setja vort traust á meñina, sem eru eins brygdulir og sú hjálp, er vér væntum oss af þeim? því skyldum vér eyda vorum døgum í þessa lífs sorgum, þared vor lucka er í hendi vors Guds, sem hefir þegar áqvardad fyrifram þañ tíma, er vér skulum heñar njóta, hvørsu lengi hún vara skuli og verda oss til gledi? vona þú einúngis á hañ, mín sál! og afhendtú þig hans vísu og nádugu stjórnun, sem best sier fyrir øllu; hvørsu qvídafullir verdum vér eckitídum, þá vér lítum til þess ókomna? hvørsu margar og þúngbærar naudir eru oss kañské búnar á efri døgunum, þegar vér verdum gráhærdir og gamlir? máské þeir vinirnir, sem nú eru vor huggan, yfirgéfi oss þá; máské lángvinñur og strángur sjúkdómur nidurbrjoti þá heilsu vora; máské fátækt, forakt eda øñur eymd verdi hlutfall vorra ókomnu daga. O þú ørvæntíngarsama hjarta! til hvørs skulu þessar harma-tølur og sorgir, þared allt þad, sem á komandi tímanum mæta skal þér, stendur ecki í þínum

hønd-



høndum? hann, sem stjórnar allra mañna lucku-kjørum á jørdunni, hann hefir og áqvardad þín, og hvornig máttú vænta þér añars af þíns milda fødurs hendi eñ þess, sem í sañleika er þér nytsamlegt? og þó ad vid þig kynnu nú framvegis þvílík tilfelli fram ad koma, sem væru þér óþægileg, eru þau þó nytsamleg, svo sem þér áqvørdud af þíns besta fødurs vísdómsfulla tilgángi, og hvad munu þig stoda qvídafullar hugsanir? hvørt munu þær mega þínum eymdum aptra, sem þú álengdar þykist fyrisjá, ellegar gjøra þær sjálfum þér léttbærari, enn þær annars verda kyñu? fel þínum Gudi alla ókomna tíma, og þau lucku-kjør, sem þér eru áqvørdud, eru þér best og sáluhjálplegust; og berir þú enn nockra áhyggju fyrir ókomna tímanum, þá hugsadu einkanlega til daudans, til grafarinnar og dómsins; leitadú þeirrar lucku, sem varanleg er, midt í þessum umbreytíngum, og veldú þá vegu, sem leida þig til hennar, því jafnvel í þessu tilliti, hefir þinn fadir borid umønnun fyrir þér; hann hefir áqvardad þér farsælann ódaudlegleika, látid þinn Endurlausnara afreka þér eilífa gledi; lifdú þar fyrir eins og sómir þeirri manneskju, sem

á dyra

á dýra lucku í vændum; lifdú í trúnni á Guds Son, og í von um sælan ódaudlegleika; þá mun jafnvel engin hörmúngafull ókomin tíd hafa neitt óttalegt ad skélfa þig med. O Gud! þú, sem hefir géfid oss lífid, vér þöckum þér hjartanlega fyrir þá hugguñ, ad vor lucka í þessum og hinum ókomna heimi, stendur í þínum höndum, svo vor sála þarf framar engu ad qvída; þú munt úthlúta oss svo miklu, sem naudsynlegt er til vorrar farsældar á sérhvörjum degi vors lífs; allt viljum vér medtaka af þinni hendi; og svo þañ mótlætínga kaleik, sem þú kañt ad oss rétta, viljum vér feginsamlega medtaka; vér viljum drecka hañ, og segja med vorum Jesú: **verdi þinn vilji!** med þessum ásetníngi viljum vér áfram halda vorri Pílagríms-ferd, þú munt og, vor Gud! á komandi dögum vors lífs, vera vor Gud og vor frelsari; vér hughreystum oss vid þína ómælanlega gædsku, því þú munt allt vel vid oss gjöra.

## 36. Hugvekja.

Minnst á gröf þína midt í gledi.

Hvörr einn dagur, sem yfir oss kémur, leidir oss nær daudanum, gröfinni



og eilífdinni, og hvörr veit nema einhvörr af oss sé, án þess honum komi það nú til hugar, þegar framstiginn á þann graf-ar backa, sem eptir litinn tíma alltaf-minn bylia hans líkama til eins sídasta dags; svo mikid vitum vér med vissu: ad því fleiri daga vér lifum, því meir ná-lægjumst vér lífsins qvöldstundu. Vér fáum þess ecki dulist, ad sá þánki fyllir oss sorg og þúngsinni, ad vera nálægur daudanum, gröfinni og eilífdinni. O Gud! hvörsu markverdt er oss ecki þetta? vér þurfum ecki efast um, ad það í raun réttri nálægist oss, en um hitt efumst vér: hvört vér erum svo á oss komnir, ad vér med gledi og godri von vogum ad renna aug-um vorum til þessa; því ef ad sá yfir-vofandi daudi, og sú öll nálæga eilífd ecki eiga ad skelfa oss, um of, verdum vér, ad nálægjast þig, ó vor Gud! en vor sam-vitska, þetta hátalandi eilífa vitni í siálfum oss, ber fram, ad vér enn þá séum lángt frá þér, og ad vér mættum verda eilíflega óluckulegir, ef vér nú vær-um svo nálægir daudanum, ad einkis frests eda frístundar væri nú framar ad vænta. En ef vér nú í dag höfum í sído-asta sinni sied dagsins ljós hér í heimin-um,

um, og ef vér nú í sídasta sinni þenktum þér til þín, o vor Gud! ef daudinn aptrulykti vorum vorum midt í því vér nú erum ad bidja þig, og sídasta ordid, er vér tølum á þessari stundu, yrdi hid sídasta í þessu lífi, ó Gud! hvørsu mjøg bløskrar oss ecki þessi þánki, og hvørsu audveldlega má þó ecki hann og þessi tilgáta uppfyllast! því, næsta skjotur er allopt banvænn sjúkdómur ad búa um sig í mannlegu holdi, sem ber ætíd nog dauda tilefni í sjálfu sér. Og hvørsu mørg hastarleg tilfelli, sem lítil sýnast, géta þar ad auki enda gjørt á þessu fallvallta lífi, einúngis eitt voveiflegt fall, einn svala-dryckur snogglega teygadur, einúngis ein smá-æd, er brøckva kann innvortis í líkamanum, géta þess ollad ad lífs-vøkvarnir missa ordulega rás, og þá er strax vor daudi og vor-dómur fyrir høndum. Á þessari einu stundu, eptir því, sem reiknad er ad vidberi á hvørri og eini klucku-stundu, vænta 4 þúsund manneskjur í heiminum síns sídasta vidskilnadar, og qvedja ad fullu þetta líf; mun þad ecki mega ské, ad einhvørr vor ástvinur, einhvørr af oss sjálfum sé nú í þessara tølu? en þó ad nú allar þessar til-

gátur brÿgdust, er þad þó víst, ad dauðinn kañ ad yfirfalla oss á þeirri stundu, er vér minnst væntum hans tilkomu, og vér máské hellst væntum og óskum oss ens lengsta lífs. Þessi óvissa um dauðans nálægd, skal kenna oss þañ vísdóm, ad þenkja ætíd til dauðans, og dauðans tilhugsan miña oss sífellt á þá nauðsyn, ad búa oss, sem best, undir hann. Því skyldum vér slá á frest þessu svo mjøg áríðanda verki, þar ed undandrátturinn er svo hættulegur, og ókomni tíminn óviss? nú á þessu augnabliki á medan vér enn þá heyrum, enn þá sjáum, enn þá finnum, viljum vér flýta vorri umvendun, enn þá er hún audveld, en hvørsu ørdug mun hún ecki verda oss, þá vér erum gamlir ordnir í vorum syndum? eñ þá høfum vér krapta til ad íhuga vort apturhvarf, en hvørsu miklu þýngri mædu mun þetta þá ecki kosta, er sjúkdómar og ellinnar þúngi hafa kraptana veikt, eda jafnvel svipt oss þeim? eñ þá er oss audid ad fara dag batnandi, og audsýna sonarlega ávøxtu vors apturhvarfs. En þessarar gledi og heilla megum vér án vera, ef vér fyrst á dauðastunduñi førum ad snúa oss til Guds. Þetta augnablik er enn

enn ívoru valdi, en hvort hid ókomna verdur þad, er mjøg óvíst. O Gud! lát oss vísslega brúka þetta augnablik, og gésdú oss nád til ad þenkja svo alvarlega um þetta efni alla vora æfi, sem vér nú látumst þenkja. Láttú oss æ nálægjast þig meir og meir, þá liggur oss í léttu rúmi, nær hellst dauðinn nálægist oss, hví vér munum vid hans tilkomu sjá vora sálu-hjálp nálgast.

## 37. Hugvekja.

Ef ad þér gjørid gott, og lídid med þolinmædi, svo munud þér nád finna hjá Gudi, því þar til erud þér kalladir; þared Kristur hefir og lídid fyrir ydur, og lét ydur þá dæmi eptir, ad þér skyldúd eptirfylgja hans fótsporum, 1 Pét. 2.

Jesú gjørvalla líferni var hid ljósasta dæmi uppá náúngans kjærleika og hjarta-gædsku, og þared oss er þad eiñig fyrirsett, þessar dygdir ad æfa, hvort fáum vér þá valid oss ædra dæmi til eptirbreytni? hvørsu ástúdlega umsorgun bar hann ecki fyrir mannkynsins velferd? hann brúkadi sína krapta, ecki einúngis til hjálpar, þegar hann var um hjálp ákalladur, heldur vitjadi hann sjálf-

ur hinna naudstöddu, og baud þeim adstod sína; med miklum erfidis munum ferdadist hann til hinna fjarlægustu stada og vitjadi fátækustu lands-bygda, svo ad bædi meiri og minni njota mættu hugg-unar og hjálpar af nálægd hans. Obedinn kom hann hinum aumu til hjálpar og géck um kríng til ad gjora gott, hann gaf hinum blindu sjón og sjúkum heilsu; hann gaf hinum vesælustu þad, sem enn þá var dýrmætara enn lífid ellegar líkamans heilbrygdi, gaf þeim skynsemina aptur, sem hana hofdu mist, og þad, sem géck lánat yfir alla hans velgjorninga, frelsadi þeirra aumu sálir frá myrkrana yfirvaldi og syndanna þrældómi; hann lét sína tilbidjendur adnjota sinnar guddómlegu náttúru, og bjó þá undir eilífa sáluhjálp; hann gleymdi bædi matar-nautn og allri rósemi einúngis til þess ad fornfæra sjálfum sér, og láta sig á krossinn negla til mannanna velferdar; hvorki féck honum aptrad mæda í sífeldri sjálfs afneitun, né lastandi túngna baktal, frá því ad halda fram erindi og sýslunum sínum; hann leitadi engra metorda, engrar lofdýrdar, engra verdlauna; þad, sem hann stundadi, var eckert ann-

ad

ad enn hans fødurs dýrd, og mannanna farsæld. Þetta var øll hans laungun, þar til midudu allir hans kappsmunir, sá var tilgángur pínu hans og dauda. Mun nockurntíma þvílík gædska hafa til verid, sem þessi gædska! og hvørnig gétum vér vyrdt fyrir oss þetta Jesú góðgjørdasama líferni, án þess alvarlega ad óska þess, og af øllum kroptum ad keppast eptir, ad vort líferni einnegínn mætti svo prýdt verda mann-elsku, eins og allt hans líferni? hann hefir gefid oss dæmid til eptirbreytni, vér egum ecki einúngis ad dást ad kjærleika hans, heldur og sýna hann hjá og á sjálfum oss. En hvørsu mætti ecki margur hvørr vor á medal blygdast, þá vér nágvæmar hugleidum þetta efni! Jesú líferni var rétt nefnd samanhángandi kjærleiks-kédja, og vér fáum varla sýnt eda talid einúngis ein tíma vors lífs, á hvørjum vér hreinann kjærleika audsýnt høfum. Hann leitadi sjálfur hinna aumu, og vér forøktum þá tídum, þegar þeir leita vor; sérhvør mæda var honum þæg og þócknanleg, þegar hann einúngis feck gott gjørt, og vér erum tídum hardgédja og omiskunsamir, jafnvel þá, þegar oss veitir þad, sem aud-

veldast gott ad gjöra. O! þú guddómlegi manneskju-vin! hvörsu ólíkir þér erum vér menninir! endurskapa þú og mitt vort hjörtu, ad vér mættum þér, sem líkastir verda, Amen.

# 38. Hugvekja.

Sjá þú, augu Drottins líta til þeirra, sem hann óttast, sem vona á hans miskun, Psálm. 33.

Hvad mun valda því, ad menn ecki hafa öruggari trú til Guds enn almennt skédur? því erum vér svo tídum vantrúar-fullir og efasamir? fáum vér jördina skodad, gétum vér virdt fyrir oss himininn, án þess vér undir eins rennum augunum til sjálfra vor, og blygdumst vora vantrúar-fullu efasemi? hvörr fær einúngis eitt augnablik efast um almætti Guds og gædsku, sem yfirvegar bædi hinar almennilegu og sérdeilislegu rökkseмdir hans gædsku og gódgirni. Einn morguninn segir þad ödrum, og hvörr dagurinn eptir annann auglýsir þad, hvörsu stór ad eru dásemdar-verk hans miskunar. Vor umlidna æfi géfur sjálf vitnisburdinn um hans gædsku, og vor egin reynsla stadfestir allt hvad segjast kann

um

um trúfesti hans. Solin rennur upp og gengur undir, en sannleiki Guds og trúfesti mun aldrei bregdast. Náttúrunnar gángur kann ad umbreytast, en Gud er oumbreytanlegur, og gétur þeim ómøgulega brugdist, sem setja á hann sitt traust. Hans mátt ber oss ad heidra, og dást ad hans gædsku og trúfesti; ad treysta nockrum hlut ødrum enn Gudi, er ad reida sig uppá fallvallt-ann grundvøll. Þegar vor Gud blessar oss, þá erum vér blessadir, blessadir í inngángi vorum og útgángi, blessadir í vøku og svefni, blessadir í lífi og dauda, blessadir í þessu og okomnu lífi. Blessan Guds vors mun undan oss gánga, svo sem leidar-stjarna, og fylgja oss, eins og verndar-engill. Vér snúum oss því til þín, þú almáttuga og gædskurîka vera! því allar sképnur, med sameinudum kroptum, fá sízt hjálpad oss; sért þú oss fjarlægur, þá megnar enginn madur, og jafnvel enginn engill med nálægd sinni, ad verda oss til nota. Ad þínu bodi hættir sjálf náttúran ad lidsinna oss, allt er þér audveldt, þú þarft einúngis ad tala eitt ord, og þá gengur oss allt ad óskum. Þitt forsjónar auga fær fridad vort óróafulla

hjarta, þegar sorg og mæda geysar í vorn brjósti. Þegar þú ad eins lítur vinsamlega til vor, er oss í léttu rúmi, þó allur heimurinn snúi vid oss bakinu. Stydjir þú vor efni, þá mun oss allt ad óskum gánga. Lát oss því einúngis setja allt vort traust á þig, og á alls eckért vona, sem þér er minna. Lát þína hönd æ vera yfir oss, ætíd vardveita oss, og géf oss ætíd óhultum ad finna sanna hugarins rósemi undir þinni forsjón og handleidslu; til þín flýjum vér, lát oss því vernd finna hjá þér mót öllu því vonda, sem vorri daudlegu náttúru er medfylgjandi, og hvørnig er þad mögulegt, ad þú, almáttugi Gud! kunnir ad yfirgéfa þá, sem vona á þína hjálp? nej! fyrr mun jørdin forgánga enn þín trúfesti og sannleikur bregdist. Þú hefir lofad oss, ad þú viljir hjálpa oss; þig mun sist ydra þinna fyrirheita; med því öruggasta trúnadar-trausti um þad, ad þú viljir vyrda oss þinnar nádar, gaungum vér út í þad ókomna og óvissa, sem þú sjálfur hefir áqvardad, ad yfir oss koma skuli; og þó ad vér vissum fyrirfram allar þær óheillir, sem oss mæta kynnu, mundum vér þeim ecki framar qvída, heldur enn nú, er þær oss huldar eru, því

vér

vér hǫfum þá huggun, ad þú viljir stýra þeim ǫllum til vors sannarlega besta. Þínir vegir séu svo torrsóktir, sem verda mega, vér reidum oss ad ǫllu leiti uppá þína vegleidslu, sem mun hægt og oss heilsasamt gjǫra allt hid ohægá, er oss á leidinni mæta kann. Ókomna tídin má svo myrk vera, sem vill, fyrir vorum sjónum, vér vitum, ad þú munt hana upplýsa fyrir oss, og leida oss til þeirrar sælu, sem oss er ætlud og geymd. Tilfelli vor mega svo sérleg, svo undarleg vera; sem vilja, vér viljum þó fagna í þér, ó vor Gud! og gledja oss vid vora sáluhjálp, sem fyrir hǫndum er.

# 39. Hugvekja.

Vona þú á Drottinn, og gjǫr hvad gott er, Psálm. 37.

Hvorsu stór lucka er þad ecki fyrir oss, ad vita Guds forsjón til vera, á hvorja vér setja þorum óbilt trúnadar-traust? hvǫr sinnis rósemi og sálar ánægja má stærri vera enn sú, sem grundvallast á þeirri fullvissu, ad ein óskǫnileg vera bert umsorgun fyrir oss, sem er óendanlega nádug, vís og almáttug? gétum vér haft nock-

nockra vissari von, enn þegar vér felum oss á vald þeim Gudi, sem þegar bar umonnun fyrir oss, þegar vér vórum í módurlísi, og sem fyrifram hefir umhugsad og áqvardad allt þad, sem vér vidþurfa mundum alla æfi vora? sem talid hefir alla vora daga, og fyrifram lagt grundvöllinn til allrar vorrar lucku, sett vorum óluckulegu tilfellum takmörk, og stýrt þeim oss til lucku? kañ nockur lucka meiri ad vera enn sú, sem grundvöllud er á þessari trú, þessari fullvissu? og hvörs vegna veitir þér þá svo ördugt, sála mín! ad láta sannfærast hér um? yfirvegadú eginlegleika þíns Guds, sem hefir skapad þig, og híngad til vidhaldid þér; líttú til Jesú, af hvörjum þú vænta mátt alls frelsis í þessu og ókomnu lífi; yfirvegadú þau dýrmætu fyrirheit, sem hiñ trúfasti Gud hefir géfid þér í sínu ordi; yfirvegadú hvörnig þeim hefir vegnad, sem hafa reidt sig uppá Gud, og lærdú af öllu þessu, ad sá almáttugi bér umhyggju fyrir þér, med födurlegri trygd og guddómlegum vísdómi. Vér höfum fullkomna röksemd fyrir þessum sannleika, vér mættum annars efa allt, já, ad sólin sé björt, og ad vér sjálfir séum til, ef vér í nockru efa

efa vilduin forsjón vors Guds; vér hljót-
um því ad audsýna vora trú í verkinu,
og þegar í dag ad sleppa öllu vyli og
qvída fyrir þeim ókomnu dögum; vér
skulum lika eins og þessi fullvissa krefur,
ad sönnu varlega, og med forsjálni, en
þó áhyggjulausir og gladsinna, og fela oss
og öll vor efni á vald Guds; vér skulum
hegda oss, sem hlýdin börn, og öldúngis
reida oss á umhyggju vors vísdómsfulla
og náduga födurs, sem elskar oss heitt,
og vill alla þá umönnun fyrir oss bera,
sem hann sjer oss vidþurfa og oss fyrir
bestu; þá audsveipnustu hlýdni egum
vér ad veita öllum hans bodordum, og
fyrir engu odru umhyggju ad bera, enn
því eina, ad vér æfum þær skyldur, sem
hann krefur af oss. Já, þó oss sýnast
mætti einhvörn tíma ad hann svipti oss
sinni nád, megum vér samt sem ádur
ecki láta hugfallast, heldur allt eins ör-
uggir og Job var undir hans þjáníng-
um, jafnan taka oss þau ord í munn:
aldrei skal eg afláta, uns mín endalykt
kémur, ad vona á Drottinn, og þó hann
deydi mig, skal eg samt á hann vona.
Fengjum vér ad eins innrætt vorri sálu
þetta gudrækilega sinnislag, mundu alls

eng-

 

engin lífsins umskipti eda umbreytingar, engin oláns tilfelli, sem oss mæta eda vér qvídum fyrir, koma vorri von til ad skeika, ellegar deyfa vort trúnadar traust í hvörri hellst órósemi og biltingum, sem mættu adkoma; midt í hinum qvídvæ alegustu ólucku tilfellum, mundum vér gladir og hughraustir vardveita stöduga bolinmædi í sálum vorum, og engu ad sídur njota þessa lífs med ánægju; vér mundum þá heldur ecki varir verda vid nockra þá nærverandi orosemi, sem svo mikinn fjölda manna hrella kann á þessum tíma; prísa mundum vér þá Gud, fyrir þad lidna líf; gledja oss í því nálæga og qvídalaust vænta hins okomna, sem í hönd fer. O Gud! virdstú ad styrkja oss í þessari trú, og gjöra æ hæfari og verdugri þinar nádarríku umsjónar.

# 40. Hugvekja.

Svo skal ei framar nockur neyd, né heldur þessa líkhams deyd, mér frá þér megna ad venda! ô Drottinn! eg er ástkjær þér, elska vil eg þig stödugt hér, en annars heims án enda; send mér, sem þér, þócknast gledi, þjáníng medur, þig alvísann, eg vil þó jafnan í öllu prísa.

Svo lengi, sem vér lifum í heimi þessum, megum vér sífeldt búast vid því,

ad ógédfeld tilfelli beri einneginn oss ad hendum; ad óska sér einúngis óbland-adra ánægju daga hér í lífi, þad væri ad krefja þess, sem ómögulegt er í svo um-breytíngasömum heimi, sem þessum, hvørn vér byggjum; þad væri og jafn-framt hættulegt fyrir vora sonnu velferd. Påted vor líkami er, eptir náttúru sinni, ysrid veikur, vor skynsemi mjøg sljó, en girndir vorar svo ósedjandi; þared marg-ir þeir, sem vér hljótum ad umgángast í heiminum, eru svo ótryggvir, egingjarn-ir og kjærleikslausir, og allir hlutir um-hverfis oss æ svo óstødugir, svo svipulir, já, sjálfir vér egum einúngis skamma tíd fyrir høndum ad lifa hér á jørdunni; hvørsu megum vér þá vænta þess, ad lifs-stundir vorar blandist ecki ødruhvorju med ógédfeldum augnablikum? og þó þad mögulegt væri, ad vér gætum fríir ord-id fyrir øllu ógédfeldu, hvørsu óholl mundi ecki sú sífelda lucka vorn andlega ásigkomulagi? í hvørsu gudlausu and-varaleysi, mundum vér þá ecki fram-ana! hvørsu lítid mundum vér þá skeyta um Gud, æfilok vor og eilífdina! því er mid-ur! vér verdum þess varir hjá sjálfum oss, hvørsu vidvarandi óblønduð lucka

blæs

blæs oss upp og gjorir tilfinnkugarlausa, vid sérhværja kristindómsins advørun og áminníngu; hværsu miklu skadvænni mundi þá ecki fyrir oss enn þá meiri og varanlegri lucka! o! hvad megum vér þá ecki þacka þér, vor godi Gud! ad þú høndlar svo nádarsamlega vid oss, ad audmykja oss á stundum med eymda og mótlætis tilfellum; sérhvørr af oss má efalaust vidurkénna, ad ef vidvarandi lífsins lystisemdir og ánægja, hefdu sífellt fallid í vort skaut, mundum vér sannarlega á þessari stundu ecki hafa hugsad til þín; í þess stad mundum vér miklu heldur hafa látid oss umhugad, ad halda áfram í syndum og løstum, eñ leita vorrar gledi í umgengni med þér. Lofadur vértú því, elskulegi Fadir! fyrir þad ástand, hvørs þú unntir oss; med audmjúkri lotníngu og þacklæti kyssum vér á þína fodur-hønd, sem úthlutad hefir oss fá-ein mædu augnablik mot svo mørgum gledistundum; og þó eru vissulega þeir sorgar-dagar fáir, sem vér høfum lifad, og vort mótlæti léttbært, þegar vér samanberum þad vid margra annara medbrædra. Vér þurfum einúngis ad reña augum vorum til margra sjúkra og sárra

vesæl-

vesællinga, margra fátækra adstodarlausra, sem ver vitum ásamt oss lifa í heimi þessum, og þá múnum vér þess brádlega varir verda, ad margur eiñ hefdi fullt efni til ad øfunda oss af vorri léttbæru byrdi. Vér høfum góda heilsu og heilbrygdi, eda vér lifum med glødu, ánægdu hjarta, ellegar egum trúann, einlægann ástvin, hvørt af þessu fyrir sig, má gjøra oss íhaldna, þó vér høfum þad ecki alltsaman. Vér viljum því engañvegiñ møgla néørvÿlnast fyrir þad, þó Gudi þócknist ad láta oss nockra, en litla hlutdeild fá þeirrar mædu og eymda, sem hañ af nádar-ríkum tilgángi hefir úthlutad þessari jørdu. Hvørr veit hvada motlætingum vér egum eñ þá vid ad búast í þessu lífi, hvørjar hellst sem þær verda, viljum vér þeirra bída, og styrkja vort hjarta med øruggri von til hans, sem útbÿtir þeim. Þar um erum vér fyrifram fulltrúa, ad þó ad Gud hafi áqvardad oss nockrar þjáníngar, hefir hañ undir eins áqvardad huggun og endurnæríngu oss til handa. Fortakslaust vogum vér, í þeim kríngumstædum, ad vænta alls góds af háns nádarríku forsjón; og þó ad nockud af þessu bregdast kyñi, sem vér nú í voniñi huggum oss vid, er þó hitt víst

uppá ad byggja, ad daudinn man eilífloga svipta oss øllum eymdum. O vor Gud! vér skulum framgánga med þeim stoduga ásetníngi, ad leggja oss med audsveipni og audmýkt undir þína vísdómsfullu og fødurlegu stjórnun; hafir þú áqvardad oss blída medlætis daga, viljum vér kappkosta ad brúka þá med þacklæti; en hafi þitt vísa rád heldur valid oss sorglega tíma, skulum vér eiñig taka þeim fúsir, og prísa þig eins fyrir þá, og med þolinmædi, von og viljugri undirgéfni leggja oss undir þína fødur hønd, sem aldrei úthlutar sínum børnum ødru enn því, sem gott er, og þeim heilsusamlegt.

## 41. Hugvekja.

Mín hjálp kémur frá Drottni, sem skapad hefir himin og jørd, Psálm. 121.

Ef ad vér einúngis ættum ad reida oss á vora eginn krapta, ef ad vér þyrdum ecki ad trúa á hann Gud, sem gjørvalla náttúruna hefir í sinni hendi, sem nidurradar hlutanna gángi, sem ber umsjon fyrir øllu því, er hann skapad hefir, og stýrir øllum tilfellum med vísdómi og gædsku, og ef vér ecki vissum, ad þessi al-

almáttugi Skapari væri vor líknsamur Gud og Fadir, hvad mundi þá af oss verda í heiminum! eckért hæli hefdum vér þá í naudunum, enga huggun í sorginni, enga ánægju í luckunni, og enga rósemi í daudanum. O! hvørsu aumir værum vér þá! hvørsu oluckulega glatadir! betra væri oss þá aldrei ad hafa verid til, enn þanninn ad hrekjast um í heiminum án Guds; ó! hvørsu óttalegur mætti oss ecki vera sá þánki, hvørnig kynnum vér med gledi ad sjá dagsins ljós, hvørnig gætum vér, án sorgar, rísd úr reckjum ad morgni dags, eda lagt oss til hvíldar ad qvøldi, ef vér ecki gætum gjert þá skýlausu játníngu: **eg trúi á Gud almáttugann, Skapara himins og jardar?** en þared vér nú trúum þessu, og Guds andi kroptuglega sannfærir oss þar um, mega hvør hellst tilfelli mæta, sem vilja, vér munum samt oqvídnir og rolegir taka þeim vandrædum, sem ad høndum bera. Vér skélfumst þá háskafému tíma, sem ad koma kunna, en Gud gétur á einu augabragdi umbreytt hlutanna ottalegasta útliti, og jafnvel þo heimurinn tortýndist, verdur þo Gud vort hæli og styrkleiki alla tíma.

 Ef



Ef ad vér ſkélfumſt offóknir vorra óvina, hatur og vondſku, er Gud þó fullmáttugur ad ſkýla oſs og vardveita, mýkja og yfirvinna vondſkufullar áráſir vorra offóknara; ſéum vér í háſka vegna vondra manna heimuglegra ſvikræda, gétur Gud þó gjort þeirra ſvikrædi ad engu, þvi hjá honum er ſtyrkleiki og vísdómur; heimſæki oſs fátækt og ſkortur, er þó Gud ſá, ſem heſir einninn þeſſi tilfelli í ſinni hendi, og hann fær umbreytt fátækt og ſkorti til ríkdóms og nægta. Ef ad vér føllum í ſkjæda ſjúkdóma, ſvo ad vor náttúra hlýtur ad berjaſt vid daudann, vér høfum engu ad ſídur øruggann mod, þvi ad Gud fær oſs ecki yfirgéfid, þegar vér ad eins vonum á hann; hann mun gjøra vora ſjúkdóms þjáníngu þolanlega, endurnæra vort ſorgmædda ſinni, gledja vort hjarta med ſinni huggun, vardveita oſs í þeſs ſídaſta óvinar yfirfalli, og medtaka vorar ſálir í ſitt miſkunar-ſkaut. Þanninn megum vér róſamir og óqvídnir vera í øllum tilfellum, og gledjaſt vid vors Guds nádugu ſtjórnun. Sá, ſem ſtýrir heiminum, er mjøg mildiríkur Gud, ſem elſkar oſs, hvørs gledi er ad gjøra gott, og ſem fær hjálpad oſs og verndad, þó alls heimſins veldi

gjørdi

gjørdi samtøk oss á móti, hans augu vaka yfir oss dag og nótt, og midt í hans reidi, sem vér med syndum vorum hofum verdskuldad, miñist hañ siñar miskunar og nádar fyrir Jesúm Krist. Svo hátt upphafiñ, sem hañ er, lítur hañ þó nidur til hiña lítilmótlegu, og miskunar sig yfir þá aumu og hinar vesælustu sképnur sínar. Halleluja! því Drottiñ, sá almáttugi Gud, stjórnar med gædsku og vísdómi! vér viljum fagna og vera gladir, og géfa Gudi dýrdina. Þitt ord, o vor Gud! er øll vor huggan, þad er vor lífs-regla, uns vér fáum ad syngja þínu nafni lof og eilíft Hallelúja í engla og útvaldra sambúdum.

## 42. Hugvekja.

Rósom samvitska ef er ad eins, eign mín, hvad
kann þá bløskra mér? hvad fær þá ordid
mér til meins, megn þegar qvídi adra skér?

Þú leitar ad rósemi, sála mín! en þad er stadreyndur sañleiki, ad þú fær hana ecki fundid hjá nockrum skøpudum hlutum, því sídur hjá sjálfri þér. Settú því fyrst til sídu alla þá hluti, sem líf þitt gjøra svo órólegt, og hjarta þitt svo ángurvært; hefir þú sjed nockurn

ágjarnann sífeldlega gladann? þeckir þú nockurn medal þeirra voldugu á jördu, sem endi svo æfi sína, ad ecki sé hann tídum svikinn, verdi opt ángurvær og sjálfum sér til leidinda? til hvørrar eldíngar gétur hann sagt: þú skalt ecki hitta mig? og, staddur í olgu-sjó, til hvørrar brúsandi bylgju hrópad: þú skalt ecki dreckja mér? lærdú þó ad þeckja þinn vanmátt, eda megnar þú ad bjóda luckunni ad fylgja þér, og óluckunni, ad skada þig ecki? kalladú á vor-tímann, ad hann enn þá bídi vid; bjod þú blómsturs fegurd, ad hún ecki svo hastarlega følni, en þetta mun ecki hlýda þér, og þú mátt sífellt rósemdar sakna; yfirgéfdú því sképnurnar og leitadú Skaparans, leggdú gjørvalla byrdina, sem á þér liggur, hvørsu þúng sem hún er, uppá hann, og láttú þig af honum endurnæra, þá máttú allra hluta vona, án þess ad verda á tálar dregin í von þinni. Þær syndsamlegu girndir, þær óleyfilegu óskir, sú lockandi vellyst, mátalaus sjálfs-elska og allt þad, sem eykur þér qvøl, mun þá frá þér flýja, og þú munt gladur verda vid hjálp Guds og vardveitslu; rósemd og byrta mun þig umkríngja, og dagar þínir og

nætt.

nætur munu bjartari verda eñ vordagaña sólskin. Sífeldt muntú ánægdur vera med Guds þíns vilja, og eins láta þér nægja þiñ deilda verd, eins og þó ættir øll ríki veraldarinnar og þeirra dýrd Fögnudur ens betra og komanda lífs, mun gjøra þér allslags umbreytíngar, órósemi og mótlæti léttbært. O! mín sála! þú, sem á þessari stundu girnist máské rósemi, fær þú þér þessi medøl í nyt, sem uppfylla munu þínar óskir; leitadú ecki rósemdar í þvílíkum hlutum, sem ad sönnu svæfa kuña hjarta þitt, og gjøra þad tilfiñíngarlaust, en fylla þad ecki neinum varanlegum fridi og rósemi. Settú þér tídum rétt skírlega fyrir hugskots sjónir, hina sídustu umbreytíngu, sem þú nálægist. Hvad helst, sem ecki fær huggad þig í daudanum, þad er eckért, og vissulega eckért varanlegt gott; en hitt, sem má gjøra þér daudann værañ, þad er medalid, sem eiñig kañ ad gjøra þitt líf yndælt, og eckért, øldúngis eckért añad, eñ gód samvitska, fær þetta afrekad. Stundadú þess vegna ad ødlast þeña dýrgrip, þá muntú þar med fiña allt añad samtengt, sem gjøra má þig ad luckulegri og ánægdri maññeskju; gód samvitska mun vera þér skjøldur, á móti øllum mót-

 gángi,

gángi, hún mun gjöra þér þessa lífs gleði yndislega, já, einig eymd þinar útlegðar þolanlega. O Guð! aldrei fáum vér beðið þig um ítrmætari blessun, enn góða samvitsku. Sérhvert tilfelli, sem þú áqvarðad hefir ad oss mæta skuli, mega vera svo á sig komin, sem vilja, dauðinn má aðkoma þegar þér þóknast, vér erum engan vegin aumkunarverðir, þegar vér ad eins eigum góða samvitsku. Styrk oss til ad öðlast og varðveita hana, o vor góði Faðir! fyrir Jesum Krist, Amen.

## 43. Hugvekja.

Allstaðar viðverandi Guð! vér þig í öllu sjáum; & hátign þína'í hverjum stað, hörsum í stóru og smáu. — — —

Hvílíkur þánki er það ekki, þegar vér sjougum heimsins stóru byggíngu, þegar vér vitum, ad einhverr hlutur eða líkami, sem með hraðasta flugi héldi áfram ferð sinni, þyrfti meir enn tuttugu ára tíma til ad fá komist til sólarinnar! þegar vér hugleiðum, ad stjarnanna óteljanlegi fjöldi er einúngis sólir, sem sýnast oss eins og smáir lýsandi púnktar, vegna þess, ad þeir eru oss svo miklu fjarlægari, enn

eñ vor sól, hvörsu ógrípanlegur má oss þá ecki vera sá þánki, ad Gud gagnskodi gjörvalla veröldina, eins hennar minnstu Parta! ad hann er nærverandi öllum veröldum, ad hann veit allt hvad vidvíkur sérhvörri, jafnvel minnstu sképnu sinni! en hvörsu sem skynsemin fellur í stans vid þenna þánka, er þó sá sannleiki obrygdull: Gud er allstadar; Gud er nálægur gjörvöllum heimi, og hañ er eiñiñ nálægur oss. Eda mun þá sá gódi Gud, sem svo vísdómslega tilbúid hefir allañ heimiñ, eins þañ audvyrdilegasta orm, ecki hafa til ad bera vísdóm og speki noga til ad þeckja alla hluti? mundi andaña Skapari ecki vita sálariñar þánka og ásetníng? hvad fær hinn óendanlega iñilukt? hvad hinum ómælilega takmörk sett? hvör speki má hiñ allravísasta bresta? hvör makt fær hinum almáttuga apturhaldid? maklega mátt þú falla í djúpustu undrun, sála mín! er þú hugleidir þetta; hvörr má, sem ber, dást ad mikilleik þvílíkrar speki, sem med einu Guddóms tilliti sjer og granskodar allra hluta bygg-íngu, sem veit og þeckir allt, sem telur allar himinsins stjörnur, og undir eins hárin á þínu höfdi? hvörr má, sem ber, dást ad

stærd þess máttar, sem verkandi er á øll-
um stodum og í øllum alheima endi-
merkum, sem skapadi orminn, forsorg-
ar hann og titlínginn, og undir eins vid-
heldur sólu og stjørnum um gjørvallar
aldir þeirra? en, þó ad þig, mín sál!
furdi þessi óútmálanlega hátign, ber þér
øllu framar ad láta þessa sannleika vid-
urkénníngu, verka heilsusama umbreyt-
íngu þíns hugarfars; veri þér æ í vak-
andi minni allstadar nálægd og alvitska
þíns Guds; hugleid þú yduglega ad Guds
tillit þreyngir sér inn í innstu fylsni þíns
hjarta, og ad hann sjer eina og sérhvør-
ja lystíngu, er qviknar í þínum huga, sér-
hvørja girnd, og serhvørja tilknýandi
orsøk þinna athafna; hugleid þú og, ad
enginn stadur er svo fjarlægur, enginn
afkymi svo dymmur, hvar hann ecki sé
nálægur og sjái þín verk; fái þá þvílík-
ar hugleidíngar haldid þér aptur frá
vondu, munu þær verda þér huggunar
uppspretta, sem aldrei uppþornar. Sú
hugleidíng um þinn allstadar nálæga
Gud, mun upplífga þig, þegar þú græt-
ur í einrúmi; þegar þú stynur undir
þeim mótlætínga þúnga, sem þú ecki
mátt ødrum opinbera, né vænta þér
hjálp-

hjálpar þar með. Þú munt öllum umbreytingum verða þar af styrkur; hvört sem þú fer og flækist, gengur þú allstaðar fram undir umsjón þess Guðs, hvörs boði og banni himin og jörð verða að hlýða. Hañ, sem frá sínum veldis stoli lítur ofan til allra, er á jörðuñi byggja, og stjórnar öllum sínum sképnum með vísdomi og gæðsku; hann ber oendanlega umhyggju fyrir þiñi frelsun, þiñi sálubjálp. Þegar ótti Drottins ætíð og allstaðar vísar þér veg, og þú framqvæmir það, sem hans anda er þocknanlegt, hvörsu obultur, hvörsu farsæll framgengur þú þá ecki á öllum þínum vegum, uns þér á síðan auðnast hlutdeild í himninum. Send þú oss, trúfasti Faðir! þína náð til svo að framgánga hér, að vér verðugir finnast mættum, þinnar trúföstu vegleiðslu og umsjonar, á meðan vér lifum, Amen.

# 44. Hugvekja.

Vitið þér ecki, að heimsins vinátta er Guðs óvinátta? því hverr, sem vill vera heimsins vinur, verður Guðs óvinur, Jak. 4.

En erum vér þá í náð við Guð? Þar um megum vér fullvissir vera, þegar



ar vér eckért þad adhøfumst, sem ollir oss hans óvináttu, og því skyldum vér ecki varast ad brjóta af oss vináttu Guds? þess Guds, sem gjørt hefir oss svo margt og svo mikid gott, sem géfid hefir oss þetta tímanlega líf, og heitid oss hinu eilífa? þessa Guds, sem í sérhvørju tilliti sýnir sig ad vera vor trúfasti vinur og velgjørari, já, vor ástríkur Fadir? samt sem ádur, þó vér af reynslunñi þeckjum Gud þvílíkañ, fáum vér samt, því midur! ecki med soñu játad um oss, ad vér jafnan séum fullkomlega ánægdir med alla vegi vors Guds og hans mildu skipanir, svo vér þessvegna maklega mættum efast um hans nád og vináttu, er vér þar med svo þrálega af oss brjótum. Æ! látum oss því øllu ómaki betur eñ híngad til verja til þess, ad læra ad þeckja bodord vors Guds, og hans trúføstu vegleidslu, sem hvørttveggja er fullkomid og gott, þó oss ecki ætíd sýnist samsvara tilhneigíngu vorri; sú þecking mun sañfæra oss um, ad øll verk og rádstafanir Guds eru oss heilla- og ábata-samar. Vér munum þar vid fríast frá óánægju yfir Guds rádstøfunum, og því sídur efast um þad, ad vér séum í vináttu vid Gud, já, fridþægdir vid Gud fyrir hans Son

Son og vorn Lausnara Jesúm. O! hvørsu farsælir erum þér þá! hvørsu lítils-vyrd er oss þá ecki øll sú heims lucka, sem menn almennast képpast eptir, án Guds, og medtaka án þess ad þacka honum! med hvílíkri medaumkun megum vér þá ecki vyrda þá fyrir oss, sem sýkjast eptir lucku, án þess ad láta sig nockud varda um Guds nád edur hans kjærleika, og gjøra sér í lund, ad þeir ná muni fullkominni sinnis ánægju og rósemd í þessum heimi af stundlegum hlutum? séum vér í nád vid Gud, má gjørvallur heimurinn vera svo óánægdur med oss, sem vill, því hann fær oss alls ecki grandad á medan hann ecki orkar ad svipta oss Guds nád; margir finnast og vissulega á medal manna godsinnadir og unnandi dygdinni sannmæla og verdskuldads heidurs, hvørjum enga orsøk ber ad géfa til kløgunar eda reidi gégn oss, en sérhvørr íllqvittni, sem ecki mætir oss nema af þeim vondu, er allt færa á verra veg, mun skyndilega hjadna, sem bóla vatns fyrir vindi, og þad má jafnvel nóg verda til ad gjøra oss vini, þó vort góda hjartalag og kristilega framferdi ecki væri alkunnugt ádur, ecki skínandi í sérhvørs

ang-

augum, ellegar vor góðverk ecki fengju enn þá ljóst fyrir mönnum; það skal oss þá nægja í leyndum gott að gjöra, ecki svo fyrir manna sjónum, sem fyrir hans augum, sem sjer hvað í leyni skéður. Þegar hann álítur oss í náð, er oss fyrir minnstu, þó oss bresti lofstír af mönnum, já, sé Guð ánægður með oss, og ef vor tímanlega lucka krefði að h:ð goða, sem finna mætti í fari voru, yrði hér kunnugt, veitir hans forsjon alhægt þetta í ljós að leiða. Því skal oss um ecként svo umhugað, sem að ödlast þá fullvissu, að Guð sé ánægður með oss. Því skúlum vér allt það ástunda, er þar til verka má, af öllum mætri; við sérhvört fyrirtæki, í hvörju helst standi, sem vér erum, skulum vér einatt aðspyrja vort hjarta: mun Guð vera með þig ánægður? en verðum vér nockurs þess varir hjá oss, sem bægja megi frá oss Guðs náð, eður vér fyrir það hana missa, skulum vér láta oss hjartanlega iðra þess, hata og forðast það framvegis, en með stöðugum betrunar ásetníngi vanda vort líferni á komandi tímanum, og fyrir vor afbrot leita líknar hjá Jesú, fyrir hvörs blóð, eður pínu og dauða, vér iðrandi vænta

vænta megum fyrirgéfníngar, og med þeirri trú ødlast fullvissu um nád Guds. Vér skulum einig kostgæfilega ástunda, ad vardveita þessa lucku, stunda, ad allt vort framferdi ávinni oss vors Guds og Jesú kiærleika; hañ sé vort støduga mark og mid, þá munum vér njótandi verda þeirrar yfirgnæfandi farsældar, eins í sjálfum daudanum voga ad reida oss á vinfengi Guds. Hvílík blessan mun þad ecki fyrir oss, þá ad mega deyja sem Guds vinir og sem hans óska-børn! þá mun óblønduđ gledi fylgja vorri fullvissu um oss fyrirbúna ingaungu í añañ æskilegri heim, hvar Gud eilíflega vera mun vor vinur, og vér eilíflega verdum hans eign.

## 45. Hugvekja.

Herrà! bænheyrdu mig á neydarinnar degi, nafnid Guds Jakobs frelsi mig, Psálm. 20.

Hvørr dagur hefir sína þjáníngu, en sérhvørr dagur færir oss einnig sérlega velgjørnínga; til ad sannfæraſt þar um, þarftú, sála mín! einúngis ad samlíkja þiñi daglegu eymd, vid þína daglegu lucku; hvad høfum vér daglega ad berà? vér finnum máske til erfidisins þúnga,

má-

máské fátæktarinnar ordugleika, vér líd-
um máské baktal eda órétt af mønnum,
máské vér finnum hvørsu þúngt veitir ad
bera veikann líkama, hvørsu þúngt ad
sporna og sjá vid syndum, ellegar máské
ønnur heimugleg eymd, huld sorg, neydi
oss til ad qveina og andvarpa sárlega.
Þó vér nú reyna mættum eitthvad af
þvílíkum bágindum, og þó oss mættu þau
øll sérhvørn dag, megum vér samt vid-
urkénna, ad sérhvørr dagur ber oss sína
blessun. Einn solar-geisli, sem vermir
oss, einn dryckur, sem svalar oss, einn
braudbiti, sem sefar vort húngur, svefn-
inn, sem endurnærir oss, vinurinn, í
hvørs fadmi vér lifum ánægdir, allt
þetta er oss blessan; sérhvørn dag um-
lídur oss Guds þolinmædi, sérhvørn dag
verkar hans andi í vorum hjørtum, sér-
hvørn dag megum vér bidja vorn Gud;
þetta er vor daglega ánægja, og hvílíka
gledi géfur oss ecki hans margvísleg
nádar-rádstafan? gledilegar, gédþeckar
fregnir, fenginn sigur yfir hjarta voru,
óvænt lucka og jafnvel þær heillir, sem
vér ødlast megum af sjálfu motlætinu,
ad verda audmjúkir, vitrir, þolinmodir
vid reynsluna, er allt þetta tilsamans og
hvad

hvad eitt sérflagi ecki sannarleg lucka? er þá sérhvørr dagur, sem vér lifum, ecki sannur velgjørníngur vid oss? vér segjum: vort líf er stutt, en einn dagur er þó styttri enn allt lífid, og ein þjáníng opt styttri enn heill dagur, en Guds nád varir eilíflega; o! ad vér mættum, vid þessar hugleidíngar, venjast af ad qvarta um skør fram, þó eitthvørt motlæti oss ad høndum beri, eda þó vér ecki alltaf bødum í rósum; o! ad vér vildum eins náqvæmlega telja fram Guds velgjørníngа vid oss, eins og vér gjørum oss ómak fyrir ad auka vora qvøl, og margfalda vorar egin þjáníngar; engann dag lifum vér þann, ad oss vanti tækifæri til ad íhuga gædsku vors himneska Fødurs; séum vér ad eins eptirtektasamir um hans fødurlegu rádstafanir, munum vér á hvørjum og einum degi vors lífs, hvørsu mædusamur og motlætíngafullur, sem hann verda má, þo finna nóg efni til ad prísa og lofa hann; því ber oss ætíd ad vera ánægdum med hans stiórnun, og í øllum tilfellum halda oss fast vid hann í von og þolinmædi. O! mín sál! haldtú þá hóf í øllum umqvørtunum, því hvad er þad, sem hrygg'r þig? máské jardneskt

 og

og fánýt gledi, sem þá alvísi hefir þig svipt? máské eitt óláns tilfelli, sem Gud baud verda þér ad enn meiri lucku? máské einhvör hindran þinnar velgengni, sem sídar má þéna þér til góds, og þó viltú qvarta og klaga? nej, vertú æ hughraust, og vonadú á Drottiñ. Gleymdú því aldrei hvörsu gott Gud gjörir þér, jafnvel þá, er hañ þig typtar; yfirvegadú jafnan þína áqvördun og Guds tilgáng, med því ad bæta þér vid í heiminum; umbreytíngar þíns lífs, ega ad minna þig á heimsins fallvallta óstødugleika og himinsins óraskanlegu gledi. Señ mun eilífdarinnar dagur upprenna þér, og þá mun engin þjáníng, eckért andstreymi framar til vera, heldur einber lucka; engar typtanir, heldur einskjær nád; engar andvarpanir, heldur lofsaungvar einir; þá muntú gleyma allri sorg, og þó þú minnist hennar, muntú samt gledja þig þar vid, ad hvörr dagurinn, sem þú lifdir hér, hafdi þér til betrunar, þér til uppvakníngar og lærdóms, einninn nockra þjáníngu medferdis.

46. Hug-

# 46. Hugvekja.

Hvørr, sem nú veit nockud gott ad gjøra, og gjørir þad ecki, honum er þad synd, Jak. 4.

Hvørsu margar stundir munum vér ecki mega halda tapadar, þegar Herrann loksins krefur reiknings fyrir þær? mun hvørr einn af oss þá framkoma þora fyrir dómarann og segja: Herra! eg hefi á sérhvørri stundu gjørt þad þú baudst mér? má ecki miklu framar margur á medal vor hinn qvída, ad hans sanna játníng verdi: svo margar þúsundir stunda hefi eg aflifad, og á medal þeirra svo margar, á hvørjum eg hefi eckért gjørt, en eydt enn fleirum med syndsamlegu athæfi? hvørsu margar stundir hefi eg ecki brúkad til ad sedja mínar girndir, og þessar stundir eru tapadar! hvørsu margar eru ecki þær stundir, á hvørjum eg forsómad hefi þad góda, sem eg var skuldbundinn ad gjøra, og hafdi svo margfaldt tækifæri til, og þessar stundir eru tapadar! hvørsu mørgum stundum hefi eg ecki varid til onytsamlegra og fáfengilegra fyrirtækja, og þær stundir eru einninn tapadar! hvørsu margar stundir hefi eg ecki brúkad til þvílíkra hluta, sem ad

sønnu áttu ad gjøraſt, en vóru þó ecki gjørdir í þeim tilgángi, ad vídfrægja Guds dýrd og efla vorra medbrædra heillir, einnig þær ſtundir eru tapadar? hvørſu mørgum ſtundum eyddi eg ecki til þeirra hluta, ſem ad ſønnu vóru ſyndlauſir, enn urdu ſyndſamlegir, þared þeir gengu út yfir takmørkin, ſem Guds bodord høfdu mér fyrirſett, og þær ſtundir eru tapadar? og þegar vér einlæglega ranſøkum vort umlidna líf, vóru þá ecki fleſtar vorar æfi ſtundir þannig áſigkomnar? megum vér þá ecki gjøra þá ſorglegu játníngu: ad fleſtar vorir ſtundir ſéu ílla ſóadar? en hvørſu margar ſtundir munum vér eptir ega enn þá, til ad útſoa þannig? munum vér enn þá ega ſvo margar ſtundir ólifadar, ad vér endurkeypt fáum vora ſvølludu tíd! máſké vér varla enn þá egum eptir áttunda part ad lifa mót þeim ſtundum, ſem vér híngad til eyddum; máſké oſs nú ad eins ſé þeſſi ſtund leyfd; æ! látum oſs þá brúka þetta augnablik til þeſs, ad ydraſt vorrar vanbrúkunar umlidnu ſtundanna, og med allri alvørugéfni þenkja til þeirra komandi! því færri, ſem þær vera kunna, því dýrmætari

ari skulu þær oss; med tvofaldri umhyggju viljum vér þær brúka, og ecki láta oss úr minni lída þann tilgáng, sem vort gjørvalla líf hafa á, sem er, ad búa oss sem best undir þá laungu eilífd, svo ad vér í henni ødlast mættum eilífa farsæld. Alltaf viljum vér setja oss Jesú dæmi fyrir sjónir, sem enga eina stund forsómadi af þeim honum géfnar vorn hér á jørdu; ydvir skulum vér vera í því góda, á medan þad heitir enn þá í dag. Daudans nótt dregur yfir þegar minust varir, og þá fær enginn lengur erfidad,, en andveldlega gétur missir einnar stundar gjørt oss eilíflega ófarsæla. Ecki skulum vér gjøra oss áhyggju um þad, þó marga sorgar-stund beri ad høndum oss, því framar reyniſt vor dygd, því hreinni verdur vor ánægja, því stærri verda vor laun; vér munum finna endurgjald allra velbrúkadra stunda á sídan í himninum. En þú, ó Jesú! hvørs gjørvalla líf var svo óstraffanlegt, og enn hreinna, heldur enn sú stund, hvørja hinn heilagasti vor fær best lifad, láttú allann grandvarlegleika, allann verdugleika þíns heilaga lífs, forlíka fyrir allar vorar, til ílls og ónýtis eyddu, æfi-stundir; géfdú oss nád til á þess-

ari stundu og jafnan ad hugleida og gjøra þad eina, sem heyri til vors fridar; og svo þessi stund er vor nádar-stund, gjør þú oss hæfilega til ad lifa þannig, ad þessi stund verdi oss ecki til ótta í daudanum, né til áfellis fyrir þínum dómstóli í eilífdinni! bænheyr þad, ó Jesú! Amen.

# 47. Hugvekja.

Allir vegir Drottins eru einskiær miskun og sannleiki, fyrir þá, sem vardveita hans sáttmála og vitnisburd, Psálm. 25.

Ysrid mørg dømm og sorgleg tilfelli eru samtvinnud í voru lífi hér í heimi, vér vitum enn þá ecki, hvort þeir vegir muni oss leida, á hvørjum Guds forsjón býdur oss ad gánga. Vér sjáum fyrirætlanir enn þá ófranqvæmdar, torfærur, sem bágar sýnast yfirferdar; vér verdum nockurra tilfella varir med framtíd, sem vyrdast gagnstæd nádarríkum tilgángi Guds, og þvílíkrar útbýtíngar hans velgjørnínga, sem vekur opt ad eins sorglegann eptirþánka hjá oss; margir vorra medbrædra í heiminum, sýnast oss nád hafa í ydjuleysi og lostum, girnilegustu luckn, hvørja vér med

med öllu því ómaki, vér til ens sama vordum, aldrei fáum ødlast. Vér sjáum þarna einn heilbrygdann midt í svalli og óhófi, en hér annann beygdann af krom og veikindum med allri hans hóffemi; vér sjáum einn vyrdtann, elskadann, vel metinn, þó med litlum edur engum yfirburdum yfir hvørn óvalinn mann, en þará mót margann rádvandann og dugandis mann, af mørgum hatadann, øfundadann, bakbitinn, lítilsvyrdtann, med allri hans dánumennsku. Þessi og hvílík tilfelli ens mannlega lífs, leida oss tídum til sorglegra eptirþánka og møglunar á móti Gudi. En, þegar vér náqvæmlegar íhugum allt þetta, megum vér prísa Gud eins fyrir þad, ad ver finnum adrar røksemdir til þessarar guddómlegu rádstøfunar, af hvorjum vér þeckt fáum luckunnar umbreytíngar betur ad samsvara vísdómi hans og gædsku. Þau vøld, sem hinn óverdugi keppist svo ákaft ad ná, eru ósjaldan honum falls ollandi; óhófsams sælkéra og svallara svo nefndu gódu dagar, verda, þó seinna sé, ólyfjan hans heilsu; vidhøfn og yfirlæti hins drambsama vard ad heimsku; heimsins hól og hrósanir steyptu þeim vyrdínga-gjarna

 ónyt-

ónytjúngi, og útvortis lucka órádvandra, bjó sjálfum þeim hastarlega biltu þá minst vardi. O þú alvísa forsjón! ecki viljum vér lengur lasta þínar rádstafanir, hvørsu ó-ljósar, sem þær á stundum vyrdast vorum skamsýna skilníngi, því myrkari, því huld-ari sem þin tilgángur er oss, því farsælli mun han oss reynast; ecki skal þad oss ángra, þó oss sýnist þínir vegir á stundum krókóttir, heldur gjøra oss rólega vid yfir-vegun margra þeirra dæma, sem vér á stundum sjáum fyrir augnunum, og þó helst þeirra, sem vér heyrum opinberada í þínu ordi; þau dæmi hefir þú géfid oss til upp-lýsíngar og huggunar um þína nádugu forsjón, til þess vér ætíd skyldum treysta þér einum, hvørsu báglega sem áhorfast kan, og hvørnig sem allt velltist hér. Þú ert sá, sem med sérlegri nád minntist á Nóah í því almenlega og mikla synda-flódi, og sem uppihéldst ørkinni í vøtnum og offa regni. Þín forsjón vardveitti og leiddi Abraham frá ættíngjum sínum til þess fyrirheitna landsins. Þú leiddir Ja-kob á hans ferdum; þú fórst med Jóseph í Egyptaland, og frelsadir han frá allri eymd; þú baudst hrøfnum ad færa þínum Spámonum fædslu; þú hófst Davíd frá hjard-

hjardar geymslu til Köngs-tignar, og vér, erum vér ecki sjálfir vitni til þinar dásamlegu forsjónar? hvørsu margir huldir vegir vors lífs, eru oss nú ecki ljósir ordnir? hvørsu margt héldum vér ecki óluckuefni fyrir oss, sem vér høfum sídan reynt, ad vard medalid til verrar lucku? hvørsu opt hafa ecki þau harma-tár, sem vér úthelltum á sorgar-døgunum umbreytst í føgnud og gledi? hvørsu opt høfum vér ecki byrjad þann dag med harma-kløgunum og qveini, sem vér endudum med fagnadar lofsaung til Guds, og hvørsu augljós mun oss þá ecki í himninum sídarmeir verda vísdómur og gædska allra þinna rádstafana! eilífi Gud! vor trú og traust á þinni Guddóms forsjón verdur æ því meir ad aukast, sem vér óefanlegri røksemdir finnum um þína mildiríku forsjón; vér viljum med trúar øruggu hjarta vænta þess alls af þér, sem naudsynlegt er, til vorrar sønnu lucku og farsældar; alla vora vegu, øll vor efni, viljum vér fela í þitt vald og umsjón, og undir eins stødugleg vona, ad þú munir allt vid oss vel gjøra; vér þeckjum ecki þá vegu, um hvørja þú vilt leida oss, en þetta vitum vér og þad hughreystir

oss, ad hvorniñ sem þeir oss álengdar vyrdast, munu þeir þó, vid náqvæmari yfirvegun, géfa oss ætíd nóga orsök til þeirrar vidurkénníngar: Drottinn! réttlátir og sannir eru þínir vegir! þú ert huliñ Gud, þú Israels Gud, vor Frelsari, lofad veri þitt nafn ad eilífu!

## 48. Hugvekja.

Bidjid óaflátanlega, 1 Thessal. 5.

Bænin er eitthvört dýrmætasta medal til ad gjøra oss hæfa til medtøku Guds velgjørnínga; þvíad ecki er veguriñ nema eiñ til þess, ad vér náð fáum vináttu Guds, sálar-ró og von um fullkomna himinsins sælu; og hvørr mun sá vegur vera? haññ er audmjúk vidurkéñíng vors veikleika og allra vorra misgjørda, og øruggt trúnadar-traust til miskunsemi og gædsku hins allra-hæsta Guds. En til þessarar audmýktar, og þessa trúnadar-trausts, má trúnd bæn leida hiñ beinasta veg. Þegar vér skynsamlega ákøllum Gud, og bidjum haññ einhvørs, hvad helst sem vera kañ, med hvílíkri tilfiñíngu egiñ vanmáttar, hvílíkum ordum ber oss þá fyrir hans auglit fram ad koma? mun þad ské án þess neydin

in bendi oss til, hvorsu vannmegna vér erum henni sjálfir af ad létta, og þess vegna undir eins til ad audmýkja og vidurkénna oss óhæfilega til ad vidhalda, vernda, betra og helga oss sjálfa? vogar þá nockurr af oss ad treysta svo á sinn eginn fánýta mátt og alls eugann verdugleika, ad hann ecki segi med Abraham: Herra! eg hefi dyrfst ad tala vid þig, þó eg sé einúugis dupt og aska? dyrfist þá nockurr af oss annad enn játa med Jakob: eg er allt of óverdugur allrar þeirrar miskunar og trúfesti, sem þú hefir audsýnt mér? einkum þegar vér gátum þess, ad vér frá barnæsku vorri erum af syndinni fleckadar manneskjur; jafnvel þó Gud frá barndómi hafi géfid oss óteljanleg merki og saunfæríngar um sinn kærleika, høfum vér þó svo gálauslega, svo mótþróanlega brotid hans bodord. Þegar vér dyrfumst enn þá ad bidja Gud um fleiri velgjorníuga, megum vér þá ecki andvarpa med audmjúkum anda og segja: Drottinn! høndladu ecki vid mig eptir mínu óþacklæti, endurgjald mér ecki eptir misgjørdum mínum? í þvílíku ástandi fáum vér eckért annad gjort, enn sett allt vort traust til Guds nádar fyrir Jesúm

Krist;

Krist; ecki sáum vér reidt oss uppá egin dygd vora, sem er svo veik, svo ófullkomin, svo blöndud breiskleika, heldur einúngis uppá verdskuldun og fridþægíngu vors guddómlega Frelsara. Í þessari trú megum vér þar um fullvissir vera, ad Gud ecki muni synja oss þess, sem ebla má vora sönnu og varanlegu lucku; med því innilegri hjartans vidqvæmni, sem vér andvorpum til Guds, sem vors mildiríkasta födurs, því öruggara verdur vort sonarlega traust á honum; því náqvæmlegar, sem vér setjum oss fyrir sjónir ad ödru leiti vorn óverdugleika, en ad hinu, fridþægjandi pínu og forþénustu hans Sonar, því óhvíkulli og sigursælli verdur vor trú. Vér verdum þar vid hæfari til ad medtaka Guds ómetanlegu nádar gædi. Þad er í trausti Jesú fullnægju-gjördar fyrir oss, ad vér med gledi og djörfúng vogum ad nálgast, í audmjúkri bæn, vorn himneska Födur; ó hvílík heilög gledi! hvörsu óútmálanlegur fögnudur! hvílíkur forsmeckur hinnar komandi himnesku sælu géfst oss þá ecki í bæninni! ó! ad vér því ecki lengur vanrækja nædum, ecki lengur med gáleysi æfa svo heilaga ydju! ó! ad vér

þó

þó vilöum ydduglegar yfirvega, hvílík lucka þad er fyrir synduga manneskepnu, ad voga ad tala í bæninni vid Gud og kalla hann sinn Fodur!

Upp til himins med hjarta hreint,
Ad horfa' og segja: Gud minn! þú,
Ert æ mitt athvarf ljóst og leynt,
Hvør lucka veitist stærri'enn sú?

Sæl ertú, kristna manneskja! sem grundvallar þína trú á Jesú fridþægingu og fyrirbón! ó! hvílík lucka þér, nú þegar hér í lífi, er géfinn: ad hann vill heyra þína bæn og þitt hróp, sem er þinn godi og almáttugi fadir! hvílíka rósemi finnur þá ecki sála þín, já, fögnud, sem útpressa mætti einber gledi-tár af augum þínum, þegar þú upplyptir þeim til Guds, sem er þér allt, og þín øll von! þessa lucku, þessa rósemi má vor audmjúk og trúarørugg bæn afreka oss, og vér munum reyna, hvørsu kroptugt þetta farsældar medal er, til ad styrkja vorn hug og vora von. Vér framgaungum þá, líknarfulli fadir! hraustir og oqvídnir undir þinni vardveitslu og náð, og styrktir af þínum krapti; gladir tøkum vér á móti sérhvørri sorg, naud og hættu, sem oss kan ad høndum koma; þanninn í vorum bænum ad

mega

mega umgángast þig, ó vor Gud! hér á jørduñi, og vænta enn framar ad vera á sídan eilíflega hjá þér í himninum, þad sé æ vor huggan og vor gledi, vor styrkleiki og vor vegsemd í lífinu!

## 49. Hugvekja.

Vitid, þér ecki, ad þér erud Guds musteri, og ad Guds Andi byggir í ydur? 1 Cor. 3.

Ad vera Guds barn og musteri hans heilaga Anda, þad er sú ædsta lucka, sem veita má ómetanlega mikla sælu sérhvorjum kristnum, sem hana á. Séum vér Guds børn og eilífs lífs erfíngjar, høfum vér þegar ødlast lángtum meira enn heimurinn nockurntíma fær oss géfid ellegar frá oss tekid. Hvad er þad til á jørdunni, sem framar megi auka oss hrygdir, þegar vér med vitnisburdi heilags Anda erum fullvissir um velþócknun Guds! máské oss hryggi missir eda skortur einhvørra jardneskra audæfa! en sérhvørt Guds barn á óendanleg audæfi í væntum. Sé Gud vor fadir, mun hann víst ala fyrir oss ønn í þessu lífi. Máské oss hryggi einhvør ærukrenking eda vyrdínga missir! en fáum vér

vér nockurntíma ædri vyrdîngu náð, enn þeirri að vera sameinadir óendanlegum Gudi? þær sálir, sem af íbúð heilags anda eru hafðar upp yfir allra holdlegra girnda yfirdrottnun, þeckja og gledjast vid adra lángtum ædri vegsemið, lángtum hreinni lystisemdir enn þær, sem hafa sín upptök af skynilegum og hégómlegum hlutum. Vér þeckjum og umgaunguinst þá jafnvel hér þañ Gud, sem er sjálfur kjærleikurinn, sem svo födurlega lét sér um oss hugad vera, ádur enn grúndvøllur veraldarinnar var lagdur, sem er alvís, nádugur og miskunsamur Fadir og Gud, sem stjórnar øllum hlutum til vorrar sønnu farsældar. Vér þeckjum og reynum hann ad vera vorn trúfasta og eilífa vin, sem situr á guddómsins veldis-stóli, sem af kjærleika til vor borid hefir allskonar ørdugleika hins mædusamasta lífs, og sjálfur látid lífid fyrir oss; vér þeckjum og finnum andans verkanir, sem uppfylla oss med fridi og gledi hins eilífa lífsins. Guds vinfengi og sálarinnar rósemi, er því vor ríkdómur, vor heidur, vor huggan og vor sálubjálp hér á jørdunni. Skal þá ecki svo oumrædileg Guds náð vekja oss til

til ad þjóna Gudi med því hreinna framferdi? en, hvad er þó náttúrlegra enn þessi þánki: eg er fyrir trúna ordiñ Guds barn; holdsins gyrndir, heimsins fásinnu sinn eg nú gagnstædar minni ágvørdun og voninni um hid eilífa líf, sem Gud hefir verkad í mínu hjarta; allt ofdýru verdi er eg til þess keyptur, ad eg hér eptir vera skuli heimsins og syndarinnar þræll. Mín kostgæfnasta ástundan skal því framvegis mida til þess, ad hryggja ecki þann anda, af hvørs tilstud eg nýt þeirrar lífsins yndælustu lucku, lífsins ánægju og rósemi, og ad missa ecki aptur þá nád, sem Gud, af óverdskuldudum kjærleika, hefir kallad mig til. O þú gódi guddóms andi! innrættú sjálfur vorri sálu þetta þér þócknanlega hugarfar; stjórna þú og upplífga oss, svo ad vér med þinni vegleidslu mættum fá umflúid þær snørur, sem hold og heimur svo optlega leggja í veginn fyrir vora dygda æfingu; upplýs þú vor augu, svo ad vér þeckjum þær háskasemdir, sem umkríngja oss, og géf oss øruggann hug og dug til ad strída gégn þeim; leid þú oss á réttum vegi, svo ad vér ecki villumst af honum fram á lastanna léttfæra veg, né þar

med

med leidunnst eñ lengra frá voru rétta takmarki. Géf oss nád til ad veita þeim bendíngum eptirtekt, med hvørjum þú vekja vilt vora sálu, og ecki mótþróanlega nidurþagga þær; styrk oss á sorgar- og neydarinnar-degi med þiñi huggun og hjálp, og lát vora fullvissu um þá lucku, sem vér egum í væntdum í eilífdiñi, ætíd sterkari verda, ætíd meir lifandi í vorri sálu; undirbúdú oss þañig, vor Gud! ad vér qvedja kynnum heim þeña med rósemd og gledi, hvønær sem þínum vilja hédanaf velþócknast.

## 50. Hugvekja.

Hvørr vill skilja oss vid Guds elsku? hørmúng edur mótlæti? ofsókn edur húngur? klædleysi edur lífs-háski edur sverd? allt þad fáum vér fullkomlega yfirunnid fyrir hann, sem oss elskadi, Róm. 8.

Vort náttúrlega vanmætti er oss af engu audsjáanlegra, enn þegar vér hugleidum svo margann gódann ásetníng, sem vér høfum oss stødugt í hjarta, en aldrei kémur hjá oss til framqvæmdar. Hvørsu margur ásetníngur liggur ecki hulinn í vorum huga, er aldrei kémst lengra? hvad mørgu lofum vér



ecki Gudi ad morgni hvørjum í vorum daglegu bænum, þegar vér gaungum til altaris, víd viss tilfelli, sem gjøra oss hugsjúka fyrir voru lífi? hvørsu tídum má ecki einberr gódur ásetníngur vera í stad vors gjørvalla kristinndóms? og hvar er þá framqvæmdin? med hvørju sønnum vér þá, ad ásetníngurinn hafi verid vor alvara? þad er einúngis víst, ad Gud hefir ecki hér í heldur látid oss skorta sína þeckjanlegu hjálp; frá honum einum kom oss sá gódi ásetníngur, med hvørjum hann vildi fá oss uppvakta, og leidda til ad æfa þad goda; en ad vér ecki látum þetta Guds verk í vorri sálu ná sínum tilgángi, þad vottar ljóslega vorn óvilja, vora léti, vorn mótþróa og vort gáleysi. Ad sønnu vantar oss ecki afsakanir og hindranir, en voru þá vorar afsakanir æ sannar, og hindranirnar óvinnandi? megum vér afsaka oss med vanmætti vorum, þared vér vitum, ad Gud, eptir velþócknun sinni, verkar bædi viljann og framqvæmdina í oss? ellegar vantadi oss tækifæri til ad framqvæma vorn ásetníng? hvørnig fengjum vér og þetta sagt, án þess ad vort gjørvalla líf vitnadi á móti oss? hvílíkann skada høfum vér ecki

gjort

gjørt sjálfum oss? hvørsu mikid gott er ecki forsomad? og hvørsu mørg tækifæri til hins góda høfum vér ecki þar vid mist? vor samvitska hefir ad sonnu máské nockud hrærst um sinn, en vort hjarta hefir sídan ordid því hardara og þverbrotnara, er þá ecki ad óttast ad vér høfum upptendrad, med þvílíkri adferd, gudlega reidi í gégn oss? o ad vér mættum svo stadfastir vera í vorum ásetníngi, sem hinn fortapadi sonur, er ecki einúngis ásetti sér ad fara heim aptur til fødurhúsanna, heldur og gjørdi sig ad øllu ferdbúinn, já, flýtti sér heim! máské vér byrjum og á þessari stundu helgann ásetníng? ad minnsta kosti ættum vér ad gjøra þad. O! ad hann þó, eins og fyrrum svo margur godur ásetníngur, ecki hvirfi burt samstundis! snúdu því øllum þínum hugreníngum, sála mín! til þessa efnis, og géf þú grándgæfilega gaum ad þeim godu hræríngum, sem í hjarta þínu uppkoma kunna; slá þú ecki á frest ad framqvæma þenna ásetníng, þared þú allt eins lítid rædur yfir hjarta þínu, og komandi tímunum. Endurnýjadu á þessari stundu þann sá tmála, er þu svo tídum brotid hefir, og vertu nú framvegis stødugri í þínum góda ásetníngi. Drottinn Gud! þér er vort gjørvallt

 hug-

hugar-far, þér er allur sá ásetníngur kuñ-
ugur, sem nú qviknar í vorri sálu. Þú
veitst hvörsu umbreytanlegt og hvikult,
hvörsu veikt, hvörsu þverbrotid vort hjar-
ta er, æ! gjör þad stadfast og oruggt og
hlýdid í því ad æfa hid góda; uppvektú
vora sálu sífeldt med gódum og heilögum
hræríngum, sem þiñ andi verkar í oss, og
hjálpa oss til ad framqvæma þañ ásetn-
íng, er vér nú byrjum, ad vér ecki forsóm-
um vora sáluhjálp, né torthýnumst, sökum
þess góda ásetníngs, sem vér aldrei kostud-
um kapps til ad framqvæma.

## 51. Hugvekja.

Allt umbreytist í heimi hér, um harma-kjör mín allt
eins fer; Gud farsæl afdrif géfur þeim, gædsk-
an hans alvöld stjórnar heim; þjáist hér, hold
og þoli hel, þar lídur mér um eilífd vel.

Eckért eitt augnablik er til, sem sé
ödru fullkomlega líkt; vort tilstand
umbreytist sífeldlega, og þad, sem sér-
legast er, vér verdum þess allt eins lítid
varir, hvörsu hastarlegur óstödugleikinn
er, og hins, hvörsu fljótt jördin á sérhvör-
jum degi veltist í hríng. Jafnvel oss þægi-
legustu hlutir, eru hvad mestum óstödug-
leika

leika undirorpnir; nú erum vér heilbrygdir, gladir, ánægdir, en munum vér og sama verda á nærstu stundu? máské vér þá verdum ad strída vid daudañ eda einhvørja sorg og mædu; einnig þetta augnablik, sem vér brúkum til samtals vid Gud, hverfur ódfluga burtu, og hvar er þad nú? hvørr er vottur þess framar? vissulega er þad sorgleg íhugan, þegar vér yfirvegum, allra hluta óstødugleika, og verdum þess á sérhvørjum tíma varir, ad tíminn lídur burt rétt eins og reykur eda fossandi vatnsstraumur. Hvørsu tídum gledjum vér oss ecki af þessum blómlega og heilbrygda líkama, af rjódum kinnum og hraustlegu yfirbragdi, af fjørugum sálar og líkama kroptum? en hastarlega hverfur vor gledi, þegar oss reñur í hug, ad máské nú þegar verdi vor líkami máttlaus, afskræmdur, ørendur, vidbjódslegur. Hvørsu ánægdir erum vér ecki í skauti vorra kjærustu vina, þegar iñvortis kjærleiki sameinar þeirra hjarta vid vort, og sameiginleg sorg, gjørir vora neyd ad þeirra egin? en þegar oss hvarflar þá í hug, hvørsu umbreytanlegt og fallvallt þetta allt er, ellegar vér alvarlega setjum oss fyrir sjónir þañ tíma, þegar vér muñum apturlykja þeirra aug-

 um,



um, edur og þeir vorum, æ! þá megum vér í hvört sinn hryggjast þegar vér lítum þá, og undir eins munum til þessa: og þid ríkdómur, metord, sæl-lífi og von, hvörsu tídum hughreystum vér oss ecki vid ydur í voru lífi! en þegar vér hugleidum ydar óstødugleika, hvörsu beisk og sorgleg verdur oss þá ecki ydar umhugsan! hvörsu gledur sig ecki vort auga vid morgun-solarinnar uppruna, en hvörsu sorgfullir verdum vér þar á mót þegar oss hvarflar í hug, ad sólin og einusinni verdur myrk fyrir vorum augum, og morguninn ecki framar gledur vort hjarta! vid hvílíka ógédfelda reynslu, hlýtur vort hjarta ad hryggjast, en hresstú þig upp, sála mín! og láttú enga sorg yfirbuga þig; ostødugleiki jardneskra hluta má gjøra þig vísa og luckulega; sjálfur þeirra ostøtugleiki fær opinberad þér mikilleik Guds almættis; í hans hendi standa allar þíns lífs og luckuumbreytíngar, og sérhvør þeirra leggur sitt til fullkomnunar þess gjørvalla; hvørsu jafngédja máttú ecki lokssins vera, þegar þú hugleidir náttúru þeirra hluta, sem hjarta þitt er svo fastlega bundid vid; hvørsu léttara mun þér þá ecki falla ad missa

þessa

þessa hluti, þegar þú fyrirfram íhugað hafðir, hvørsu møgulegt og líklegt það sé að þú munir þá missa! þú átt þó einkis að njóta af øllu því, sem þér fellur í skaut, øðruvísi eñ eins og það væri á hlaupum; þú mátt smacka líffins saklausu lystisemdir, en þeirra óstødugleiki á að keña þér að géfa þig ecki alla við þeim. Þú átt að álíta jørðina eins og heñar gæði verðskulda, en við endurmiñíngu þeirra forgengilegleika að dempa þína of-frekn laungun til þeirra; þacklát og undrandi máttú skoða og meðtaka vor-daganna fegurð, þeirra lockandi prýði og heillasømu gladværðir, en læra þó þann vísdóm af sérhvørju blómstri og laufblaði, að hugleiða endir allra hluta; þar við á að vekjast hjá þér laungun eptir betra og fullkomnara lífi, hvar engin umbreytíng eður umskipti, enginn óstødugleiki mun framar finnast. Því optar, sem forgengilegleiki og óstødugleiki mannlegs lífs verður þér fyrir sjónir settur, því vissar sannfærist þú um þá farsæld, sem í betra lífi bíður þín, og að varanlegleiki þessarar farsældar, muni þar umbuna þér allra hluta óstødugleika hér á jørðu, þá verður þú Guðs og hann verður þinn; já, eilíflega verður hann

 þinn,

þinn, og frá honum mun þig eckért fá skil-
id, ecki þreyngíngar, sorg eda missir eda
naud, hvorki helvíti, líf né daudi.

## 52. Hugvekja.

Ef ad Gud er nú minn, er hann minn Frelsari; eg
hyrdi ei um himininn, og hafna jørdunni, og
þó øskrandi ædir, þig, hrædist eg ei, helvíti!

Hvørninn sem vér í huganum vyrdum fyrir oss vort ástigkomulag, og í hvørjum helst lífsins umbreytíngum vér adgætum þad, sjáum vér ætíd og allstadar egin eymd vora, neyd og þarfir, en undireins forsjón Guds því addáanlegri, því vissari. Ef ad vér yfirvegum þad hjálparlausa ástand, í hvørju vér bárumst inn í heim þenna, þá sjáum vér, ad varla er í gjørvøllum heiminum ad finna svo ófæra sképnu til ad bjarga sjálfri sér, sem manneskjuna; jafnvel þá, er vér høfdum nockrum þroska nád, og ødlast meiri krapta, vórum vér þó allt of vanmegna til ad útvega sjálfum oss forsorgun; vér erum undirorpnir óteljanlegum útvortis mótlætíngum, og margvíslegri innvortis orósemi, þúngum høfudsképnanna áføllum, og annara manna ofbeldi, svo ad

ad øll mannleg forsjálni reyniſt nærſta veik til ad fá oſs fyrir því verndada, og allur vor kraptur ónógur til ad afſtýra þeim áføllum, ſem oſs eru búin af øllu þeſſu til ſkada og tjóns. Margar búngar freiſtíngar, margar huldar tálſnørur verda í vegi fyrir oſs, ſem vér hvørki fáum þeckt né hindrad; vér kunnum ad rata í margar og óvæntar háſkaſemdir, ſem engin mannleg greind fær fyrirſjed; vér erum undirorpnir margsháttar veikleika og ſjúkdómum, mørgum órétti, ſvikum og prettum af ødrum, ſvo vér ørvænta mættum ad komaſt af, já, øldúngis vanmegnaſt undir ſynda, ſorga og eymdanna byrdi, ef vernd Guds forſjónar ſkildi vid oſs. Auk allra þeſſara tilfella, ſem ofbjóda vanmætti vorum, þurfum vér enn þá ad ſtrída vid ſkort og ørbyrgd. Vér verdum varir hjá oſs fýſna og tilhnegínga, ſem vilja láta ſér fullnægja, ſem annars ángra og qvelja og gjøra oſs órólega. Ef ad vér hefdum nú enga adra hjálp í þeſſu áſtandi, enn vora egin krapta, hvørſu illa yrdi vid þeſſu rádin bót, hvørninn vorum ſkorti aflétt, hvørſu fáar óſkir vorar fengjum vér þá uppfylltar? ófyrirſjed tilfelli, óvæntar

 hindr-

hindranir megna ad ónýta jafnvel vort forsjálegasta áform og øll þau medøl, af hvørjum vér væntum oss mestra heilla, duga allopt eckért; því yrdi þad med øllu forgéfins, þó vér daglega risum upp árla, gjørdum nætur ad døgum og ætum vort braud med sorg, ef Guds adstod ecki bless-adi vora áſtundun og styrkti vor fyrirtæki. Sérhvørr dagur færir oss heim sañiñ um allt þetta; margvíslega og daglega verd-um vér varir vid veikleika vorn, þørf og eymd vora. En, svo mjøg, sem þessi hug-leidíng mætti svipta oss hug og dug, svo kroptuglega finnum vér oss þó styrkta og hughreysta, þegar vér íhugum þañ sann-leika, ad sá almáttugi himins og jardar Skapari, á hvørn vér trúum, er vor fadir og velgjørari. Undir hans umsjón gaung-um vér med gledi á móti øllum þeim til-fellum, sem kuña ad hitta oss. Med fullu trúnadar-trausti afhendum vér øll vor efni í hans nádarríku stjórnun; af vorum Gudi, sem elskadi oss svo heitt, ad hann útgaf sinn eingétiñ son Jesúm oss til end-urlausnar, megum vér vænta oss alls þess góda, sem vort frelsi og sáluhjálp vidþarf; já, hann, sem gaf oss Soniñ, mun vissu-lega géfa oss allt gott med honum. Sú

von

von og fullvissa mun æ hugbreysta oss í sérhvørri eymd og neyd; hún skal oss jafnan nóg, þó eitthvad af tímanlegum munum bresti, og heimsins blídt atlæti umflýi oss, þvi, sé Gud med oss, hvørr kann þá vera í moti oss?

## 53. Hugvekja.

Æ! vøknum, daudinn ádur enn kallar, oss á óvæntr
hédan stund; aldradir bædi og úngir falla, í
sótt, og hraustir hels í blund. Sín afdrif
fyrir enginn sjer, ætíd vidbúinn sæll því er.

Hvílíkur ásetníngur er oss mønnunum hæfilegur, hvørra líf er svo stutt, og þar hjá einka mikilvægur. Hvørsu skammur tími er þad, sem vér egum enn þá ólifadañ? eru þad hundrad, eda eru þad færri ár? og þó þad væri nú einhvor hin lengsta ára-tala, mundi þó ecki sú eilífd, sem alls enga ára-tølu né enda hefir, krefja øll vor ár til undirbúníngs? eda vitum ver fyrir vort bana-dægur? gétur þad máské runnid oss upp med morgun-deginum? er þá undirbúníngur undir daudann nockurra ára, mánada, fárra daga edur augnablika verk? hlýtur ecki vidurkénníng syndarinnar og ángur af

hénni

heñi á undan ad gánga, eda vort hjarta og gjørvalla hugarfar ádur ad umbreytast, enn vér stígum þad mikilvæga stig, yfirum takmørk tímans og eilífdarinnar? hvørsu mikill eptirþánki, hvørsu miklir kraptar útheimtast ecki ásamt vidvarandi idni og ástundun hér til? hvørsu naudsynlegt er ecki þess vegna, ad vér nógu snemma gjørum oss vidbúna, já, búumst sem best undir þetta mest árídandi stig af øllum. Þad, sem enn er eptir af vorri hérvist, hvort heldur þad eru ár, dagar eda fá augnablik, hverfur ódum á burt, og þessir ókomnu tímar munu þó auka vora fordæmíngu á sídan, ef ad vér ecki brúkum þá forsjállega. Fyrr enn vér verdum þess varir, er vort endadægur upprunnid, og daudinn fyrir vorum dyrum, og þá mundum vér fyrst hryggvir skélfast, ad allur vor gódi ásetníngur í svo lánga tíma vard ad engu. Hvørsu skammann tíma eigum vér enn ólifadann, spyrjum vér aptur? vér vitum þad ecki, og þessi óvissa, ætti ad gjøra oss forsjála og umhyggjusama um brúkun vors lífs. Vér ættum ætíd þannig ad lifa, eins og sérhvørr dagurinn værí sídastur vors lífs; vér ættum ætíd svo

ad

ad breyta, sem vér mundum óska oss ad hafa breytt vid endir vorra daga. Vér ættum ecki ad mæta voru enda-dægri, sem vitstola menn og gárungar, heldur med yfirvegun og godum undirbúníngi; opt ættum vér ad spyrja oss sjálfa: munu þessar lystisemdir, þessar gladværdir, þessi ríkdómur, þessi metord verda mér sem í daudanum, og eg álít þau nú, á medan eg lifi heilbrygdur? mun eg þá med ánægju minnast géta þeirra athafna, sem eg nú hefi fyrir stafni, þegar eg á bana-sænginni renni augunum tilbaka til míns lidna lífs, og hugleidi øll míns lífs fyrirtæki? þegar vér høldum sífellt áfram þessari eptirgrenslun, í øllum lífsins athøfnum, med réttri hjartans einlægni og stødugleika, mætti hún ad minnsta kosti hafa þá heilsusamlegu verkun fyrir oss, ad vér forsjálli yrdum í brúkun jardneskra hluta og vorum fyrirtækjum. Æ! tøkum nú á þessari stundu fyrir oss nýtt og betra sinnislag; í dag erum vér einum degi eldri ordnir, ellegar, sem er hid sama, vér erum komnir einum degi nær grøfinni enn í gjær. Líf vort kann máské enn þá ad vara nockra, en þó til vissu mjøg stutta stund, ef

vér metum þad eptir augnablikum, og jøfnum svo saman vid eilífdina; en uppá þessa svo stuttu, svo ódsluga og svo hverfula stundu, á þó ad koma vor eilífa lucka edur ólucka; hvørsu dárlegt má þad þá ecki vyrdast, ad láta sér øldúngis úr miñi lída, vegna þessa nálæga og þegar útrunna lífs, vora eilífu áqvørdun? ellegar skulum vér, skynsemi gæddir, og af Jesú endurleystir, vér, sem erum himinsins borgarar, lifa allteins og dýrin, sem enga skynsemi ødluðust, og þess vegna hafa engar skyldur ad vardveita né sektir fyrir þeirra vanrækt ad óttast? skulum vér þánkalaust eyda þeim stundum, sem ecki eru vor eign heldur enn annad! skyldum vér hafa lifad svo marga daga, sem allur vor aldur innibindur, og þó ecki géta sagt um einn þeirra: eg hefi verduglega lifad þann dag? skulum vér undandraga vora yfirbót, uns hin lánga og ógnarlega eilífd yfirfellur oss midt í andvaraleysinu? ónej! ónej! veri nú sá ásetníngur hjá oss stødugur, kristnir menn! á sérhvørjum tíma, sem Gud unnir oss lífsins, ad hugleida og verka vora sáluhjálp!

# 54. Hugvekja.

Kénn mér þá vitsku, vel soo telja, vegferdar minnar daga hér, ad þinn eg stundi veg ad velja, vakni til sælu' og lífs hjá þér. O Gud! þá daudans dregst ad nótt, deyja géf þú mér vel og rótt!

Sá tími mun einusinni adkoma, sem svipti oss øllu því, sem vér nú álítum ávinníng vorn. Vort líf, vor heilsa, vor tímanleg velgengni, metord og lystisemdir, allt hvad vér kjært høfum í þessum heimi, varir þó ecki lengur eñ til vors dauda-dags, og þegar ad þessum degi er komid, eru øll vor fyritæki, sem vér áset høfdum ad framqvæma, tøpud, vér hljótum þá ad snúa bakinu vid því øllu, sem vér nú álítum ad vera oss ávinníng á jørdunni; hvorsu umþenkíngarverdur og þó oþægilegur, má ecki sá tími vera sérhvorrar mañeskju náttúrufari, því daudinn er náttúrunnar óvinur! þad er því ónáttúrlegt ad bera engañ qvídboga fyrir því, sem líñ voru er skadvænt; hvorsu þúngt er ecki vorri mannlegu náttúru, ad yfirgéfa sambúdir hinna lifendu, vorra kunníngja, vorra ástvina, og sjá þann tíma nálægjast, sem leidi oss í hid ókunna

kunna land enna daudu, hvar vér eillf-
lega hindrumst frá þeim athøfnum, sem
vér álitum oss hér naudsynlegar! ad ryck-
jast burt frá vorum allra bestu vinum,
sem elskudu oss eins og sinn auga-stein,
já, héldu oss ad vera þad tré, undir hvørs
skugga þeim var øll ánægja ad mega
hvílast! ad fá alls eckért med oss tekid af
allri vorri útvortis vegsemd og yfirlæti,
nema lélegann moldar-hjúp, sem þó ecki
fær líkamann verndad fyrir rotnun og
ormanna nøgun! hvørsu fátæka gjørir
oss ecki þessi tími? fátækari enn vér vór-
um allt frá vorum fædíngar degi; uns
vor dauda-stund adkom, vórum vér máské
virdtir og heidradir af hvørjum manni;
vor rád voru sókt, vorum bodum var fylgt,
þángad ad og ecki lengra nádi vor eign-
ar-réttur á því, sem vér undir høndum
høfdum. En, daudinn sviptir oss øll-
um eignar-rétti og allri eign, og hvørki
má framar heita um líkama vorn og
lík-kistu, né um grøf vora, ad þetta, auk
heldur annad, sé þadan af vor eign; lík-
ama og kistu eignast ormar og rotnan, og
sømu grøfina allopt adrir medbrædur
vorir; mun ecki þessi tími mega óttaleg-
ur vyrdast vorri, vid þennann heim svo
fast

fast bundnu náttúru? efalaust má hann þad vera, þegar vér álítum daudann eins og náttúrlegar manneskjur. En, sem kristnir, ødlumst vér þá undir eins annad hugar-far; allt þetta óttalega fær annad útlit í vorum augum, og missirinn verdur vor ávinníngur, þegar vér álítum daudann eins og sann-kristnum ber; því þegar vér náqvæmlega adgætum endir vorra náttúrlegu afdrifa, géfst oss næg og fullkomin orsök til gledi. En, ó þú lífsins og daudans Herra! þad er þessi hættusami tími, sem vér hugsum svo lítid, en skélfumst þó svo mjøg fyrir, því vid hans umþenkíngu hverfur øll vor lystisemd; æ! vyrdstú ad gjøra oss daudans þánka gédþecka og óttalausa, og leida oss fyrir sjónir vora réttlætíngu í daudanum frá syndinni, vort fullkomnada frelsi, vora eilífu sáluhjálp; þad hnossid, eptir hvørju vér képpumst, og þá lífsins og vegsemdarinnar óforgengilegu korónu, sem umbuna mun alla vora mædu! gjør þú oss vitra, og kénn oss því optar og hjartarlegar ad þenkja eptir því, sem vorar æfi stundir framlída, þanninn: lof sé Gudi, nú er aptur eitt stig til eilífdarinnar áfram komid! og þegar lokf-

ins þar ad kénnir, ad allar vorar lífsstundir eru útrunnar, lát oss þá sofna útaf med ánægju í hjartanu, svo vér aptur megum uppvakna í eilífri glebi. Aldrei fáum vér hér í heimi meiri blessun odlast, aldrei fáum vér farsælla og rólegar lifad, en þegar vér vitum og fulltreystum því, ad þessi vor ósk muni verda af þér bænheyrd! já, þú munt bænheyra oss, mildasti Fadir! vér reidum oss uppá þína miskun og nád í Jesú nafni, og fulltreystum því, ad sökum hans pínu og dauda, viljir þú einnig farsæla vorn sídasta vidskilnad, þegar vér ástundum ad búa oss verduglega undir hann, med því ad hlýdnast þínum bodordum, og á medan vér lifum, ástunda ad þóknast þér, æ! vertú jafnan í vorum breiskleika máttugur! Amen.

## 55. Hugvekja.

Hvad villtú svo qveina og klaga, kjör útskipt þér, sála mín! því med sorgum svo þig naga? sjá! þinn Gud vill heillir þín; eg í Gudi gladur er, Gud! mín sál fulltreystir þér, öllu er reyni eg viltú venda, til vegsamlegs og farsæls enda.

Ad öll vor sorg og mæda í heiminum er svo ostödug, gefur oss huggun í sér-

sérhvørri eymd; enginn er frí frá sorgum og andstreymi á jördunni um alla æfi sína; lofadur veri Gud, ad allar vorar mótlætingar, allir vorir hrigdar-tímar eru umbreytíngum undirorpnir! værí allt annad undir sólunni forgengilegt og óstødugt, en eymdirnar einar óumbreytanlegar, þá hefdum vér fyrst efni til ad andvarpa og qveina yfir voru lífi; en oss til heilla og huggunar eru þeir útvortis hlutir allt eins umbreytanlegir, sem mega hryggja oss. Opt þerrast vor tár í sama vetfángi og vér grátum, og þegar vér byrjudum eina stund med umqvørtunum, endudum vér hana allopt med gledi, og høfum vér ecki einatt um æfi vora fundid marga þesshattar gledirika reynslu? hvørsu tídum veinudum vér ecki ad morgni dags: Drottinn hefir mér gleymt, en ádur enn qvøldid kom máttum vér vidurkénna: Drottinn minntist mín og blessadi mig; jafnvel undir sjálfri mótlætingarinnar byrdi, hefir Gud opt rétt oss þá endurnæríngu, sem lét oss gleyma allri vorri sorg; hvørsu óviðurqvæmileg var þá tídum vor umqvartan yfir varanlegleika eymda vorra! hvørsu grundvallarlaus vor vantrú, og ótilhlýdileg vor møglan á móti Guds for-

 sjón!

sjón! ef ad vér vildum leitast vid, ad útvega sjálfum oss rósemi, gésum þá gætur ad þeirri náqvæmu og mildu forsjón med hvørri Gud leidir sín børn; Jósephs líf, Jobs forløg, Davíds tilfelli, já, sjálfs vors Jesú nidurlæging, má þá sannfæra oss um, hvørsu vísdómslega, hvørsu nádarsamlega Gud hagar umbreytingum þess mannlega lífs. Og því skyldum vér þá vanvyrda svo þann alvísa og náduga stjórnara allra mannlegra tilfella, ad vér ecki tækjum oss af þessum, og óteljandi ødrum dæmum, huggun og gledi í vorum ókomnu lífs-stundum? hvørnig fengjum vér verdskuldad ad lifa nockra glada stund, ef vér ecki viljum med þolinmædi umbera hinar ógédfeldu? þessar nálægu stundir kunna einnig ad vera oss á einhvørn hátt mótdrægar; því sífellt er nóg tilefnid ad finna, sem gjøri oss hugsjúka og hryggva; látum þá þessa stund vera oss til reynslu og æfingar í þolinmædi, og í því ad leggja oss ánægda undir Guds vilja! vér skulum enga ángist bera fyrir komandi tímanum, heldur dæma um hann eptir hinum umlidna, en einsetja oss ad lifa þennann og sérhvørn dag vel. Ecki skulum vér festa vora þánka

ein-

einúngis á mótlætíngum þeim, sem oss þykja nú máské bitrar, heldur minnast hinna tímanna, á hvörjum vor neyd muni umbreytast til hagsælda og vor hrygd snúast í fögnud. Sé nú þessa tíma svo lángt ad bída, sem vill, hann kémur samt efalaust, þó ecki yrdi fyrr enn vid umskipti tímans og eilífdarinnar. Þá mun allt þad fyrir oss upplýsast, sem oss er nú of myrkt og hulid, um tilgáng Guds med hans reynslu bendíngar hér á jördunni; þá mun þad einnig heita mega um oss: byrjanin var undrunarverd, en endirinn vegsamlegur. En máské vér á þessari stundu egum vid engar mótlætíngar ad berjast, né þurfum ad stynja undir nockrum þjáníngum, en munu þá ecki heldur neinir aumir finnast í kríngum oss, sem nú andvarpa megi? í vorri breytni vid þá skulum vér leitast vid ad verda Gudi líkir, og, svo framt vér megnum, lina og létta þeirra eymdum. Þad kjærleiks verk mun einhvörntíma hugbreysta oss, þegar vér erum í eymdum staddir, og þar ad auki áfýsa adra ad létta undir vora byrdi, þegar mótlætid heimsækir oss eins og þá, og þó þad yrdi ecki, mun samt Gud sjálfur verda vor

trúfasti hjálpari, sem stjórnar öllum vorum mótlætingum til farsællegs enda. O! hvörsu gladir megum vér ecki vera þá, þegar Gud stjórnar öllum efnum vorum! hann mun og, vegna Jesú pínu og dauda, af oss létta allri naud.

# 56. Hugvekja.

Eg vil þacka Drottni í mínu hjarta; eg vil segja frá öllum þínum dásamlegu hlutum; eg vil gledja mig og fagna í þér; eg vil syngja þínu nafni lof, þú allra hæsti! Psálm. 9.

Þó ad velgjörníngar hins miskunsama Guds, væru ecki svo óteljanlegir, þó ad þeir vörudu ecki nema um vissa tíd, þó ad hans gódgirni hefdi med þessum degi enda, gætum vér þó ecki ord fundid, til ad prísa med kjærleika Guds verduglega. Þó nálæg stund gæfi oss ecki orsök til ad prísa hañ, mættum vér þó færa honum óendanlega lofgjörd, fyrir allar umlidnar. Svo lángt, sem vér lítum til baka, og til hins umlidna vors lífs, fiñum vér allstadar óræckar röksemdir og merki uppá hans nád og velgjörnínga. Ef vér telja vildum hans velgjördir, mættum vér framtelja sérhvört vort ædar-slag,

sér-

sérhvørn andar-drátt, sérhvørn hánka. Því þegar vér ad eins reikna vildum saman þá velgjorninga, er sérhvørr dagurinn, sem vér lifum, sjálfkrafa færir oss, svo sem: ljósid, loptid, fæduna, krapta til erfidis og vort líf, hvørsu margir yrdu þá ecki allir Guds velgjorníngar vid oss ad lokunum? hvørsu margir þá þeir, er hann árid um kríng, hvort árid eptir annad, já, allann vorn aldur, lætur falla í vor skaut? og hvørsu ber oss ecki ad þacka alla Guds velgjorninga vid oss á barnsaldrinum, og hinum efra aldri? svefnsins velgjorninga? hina huldu og nádarríku forsjón. hvørrar vér urdum ecki var-ir, endurlausnarinnar velgjorninga? O Drottinn! óteljanleg og ómrædileg er þín nád, ad framtelja alla þína velgjorninga, er oss syndugum og fáfródum ecki unnt, ad íhuga verduglega fjølda þinna dásemdar verka, er engum daudlegum géfid, þared jafnvel englarnir mega furda sig vid þeirra hugleidíngu, dást ad og prísa þína gædsku. Vorkénnatú því, líknarfulli fadir! veikleika og vanmætti vorrar sálar, og fyrirgéf þú oss þad tilfinníngarleysi, ad vér ecki létum íhugun þinna velgjorda upplífga oss, sem bar, ecki leida

oss til hjartanlegasta þackætis og fúsrar hlýðni vid þín bodord! Þó ad vér gétum ecki upptalid alla þína margføldu náð, viljum vér þó leitast vid ad igrunda hana, ad láta hana æ vera oss hugfasta, ad auglýsa hana ødrum. Þó vér ecki, neina ad nockru leiti, þeckt fáum stærd þinnar miskunar, viljum vér þó því meira ómaki verja til ad þeckja, hvørsu ónógir sjálfum oss vér erum, hvørsu óverdugir, hvørsu vanmegna; já, þó vér gétum aldrei verduglega prísad Gud med ordunum, viljum vér því kappsamlegar leitast vid ad t⸗ýrka hann med voru framferdi. Þó ad vér ecki fullkomlega fáum skynjad hans miskunar-ríka kjærleika í þessum heimi, skal oss samt því innilegar lánga eptir himninum, hvar lángtum meira af hans nádar-verkum mun oss kunnugt verda, þar mun vor túnga og fá honum súngid verdugri lofgjørd. Fáum vér ecki vegsamad hann í voru lísi, munum vér þó gjøra þad í daudanum; og útgánga af heiminum med þeim lofsaung: Drottinn! hvørsu mikid hefir þú gjørt vid mig! og þegar vér loksins upphafdir erum til þinnar dýrdar, eilísi Gud! munum vér ad fullu þeckt fá, hvørsu mikid

þú

þú hefir vid oss gjort; þá mun vor sála prísa þig, og vor andi gledjast í þér, vor Gud og vor Frelsari!

## 57. Hugvekja.

Kénn mér, ó Gud! sem gætir mín, gánga fram eptir bodum þín, ørdugar lífsins leidir! sam-vitskunnar þá frid eg finn, og fognud eilífann, Drottinn minn! er þú útvøldum greidir.

Ad lifa heilaglega og í sannri trú og gudhrædslu, leitast vid ad verda Gudi þócknanlegur og honum æ líkari, þad er vor kallan, tilgángur vors lífs, vort mark og mid, og vor lucka. Stundadú því, kristinn madur! ad ná skírri, sannfær-andi og fullkominni þeckíngu um skyldur þínar, hvørsu sérhvør þeirra sé naudsynleg þér, og þar hjá ad sínu leiti dýrmæt. End-urnýjadú og styrktú þessa þína þeckíngu tídum, og brúkadú hana og æfdu í daglegu líferni; lærdú ad skilja, ad skylda þín, jafn-vel sérhvør hin ordugasta, er þín lucka; vaktú því yfir þínum girndum og sinnis-hræríngum, svo þær leidi þig ecki afvega; trúdú sjálfum þér aldrei ofvel, og prófadú daglega hjarta þitt og framferdi grand-gæsilega, því sérhvørr dagur, sem þú lifir,

 er

er dýrmætur partur þiña lífstunda. Hugsadú opt og med trúudu hjarta til Guds og Jesú, og leitadú í yfirvegun hans fullkomlegleika og verka, í hans velgjørníngum, en þó einkanlega í þeirri endurlausn, sem hañ þér afrekadi, helgustu upphvatníngar og kroptugustu medala til ad lifa rádvøndu og dygdugu líferni. Fiñir þú vanmætti þitt, láttú þad því framar knýja þig til heitrar bænar um hjálp hans og nád, sem lofad hefir ad láta sinn krapt verda í breiskum máttugann. Lærdú æ betur og betur ad þeckja sjálfann þig og heiminn, sem þú lifir í, og hugsadú tídum til þess, hvørs vegna Gud lét þig fædast og lifa á jørdunni; þenktú þar um opt, hvørsu líf þitt er stutt; um tign og mætti þiñar sálar og heñar ódaudlegleika. Hugsadú um dygdaña umbun og lastaña straff, sem framkoma mun, ecki einúngis í þessu lífi, heldur og hinni ókomnu eilífd; niðurþagga þú aldrei rádleggíngar samvitsku þiñar, né þína iñvortis blygdun yfir hinu vonda, því sú tilfiñíng er verndari og vaktari hins góda hjá þér; ástundadú strax frá barndómi ad hlýda rádum gódrar samvitsku, ádur eñ hjarta þitt skémist og forherdist af lastaña vana gégn því góda; sjádú

til

til ad hafa ætíd eitthvad nytsamlegt fyrir stafni, og lærdú ad takast ómak og ordugleika á hendur, því án ómaks er engin dygda framför, engin verdskuldan, engin lucka; nejtadú sjálfum þér opt leyfilegra lystisemda, svo ad þú þar vid venjist á ad drottna yfir tilhnegíngum þínum; fordastú umgengni vondra, en sæktú samqvæmi rádvandra; lærdú forsjálni af þeirra dæmum, og vísdóm af undirvísun heilagrar ritníngar. Gjør þetta og haldtú áfram í því, þá muntú vaxa í dygdum, vaxa ad farsæld med vaxandi innvortis ánægju; hafum vér þessar reglur oss ydduglega fyrir augum, munum vér smámsaman leidast og venjast á ad breyta eptir þeim, og hvørsu dýrmæt er þá ecki vor lucka? fáum vér henni ad eins nád, er allt fengid, sem vor ágvardan útkrefur, allt sem vér fáum hér nockurntíma óskad oss; þá gétum vér lifad í rósemi og ánægju, og á sídustu stundum vors lífs, mun þessi rósemd og ánægja, sem vér nú smøckum, þegar vér gjørum trúar ørugga bæn til Guds, ecki vid oss skilja. Med því stærri laungun, sem vér nú óskum oss í lífi og dauda, ad vardveita þetta hugar-far, því inni-



innilegar qvøkum vér til þín, heilagi og gódi Gud og Fadir! ad þú vyrdist ad géfa oss krapt til ad elska og ydka sanna gud-hrædslu, sem veitir oss svo mikinn og heilsu-samann áviníng. Endurnýja þú vor hjortu med þínum góda anda, og géf oss þad hug-ar-far, sem gjøri oss í raun og veru dygd-uga og sann-kristna. Géf ad vér sífeldt mættum verda þér sjálfum líkari, sífeldt taka framførum í vísdómi og dygd, sífeldt verda þér enn náqvæmlegar sameinadir, svo ad vér finna mættum sífeldt vaxandi rósemi og ánægju af því ad gjøra hid góda; og séum vér enn þá lángt frá þessari lucku, æ! géf oss þá nád til ad ødlast hana, og svo ad eblast í dygdunum, ad vér þar med ná-lægjumst vora sonnu lucku; þegar vér byr-jad høfum ad feta þennann farsældar veg, styrki og leidi þá oss veika og óstøduga, þín volduga hønd, svo ad vér aldrei þad-an í frá af honum villumst.

# 58. Hugvekja.

Gud! þín stærd er ómælanlig; umkríngir guddóms ljósid þig, daudlegum ofskjært øllum; þó er þinn kraptur øllu nær, alheima'er skynsemd mælt ei fær, geim rædur þú gjørvøllum; eins

smærst

ſmærſt og ſtærſt, allt ber vottinn um þig, Drottinn! er vér ſjáum, í þínum verkum og fundid fáum.

Aldrei fáum vér nógſamlega yfirvegad, verk vors Skapara, ſem byrtaſt fyrir augum vorum, og á degi hvørjum krefja vora náqvæmu athugaſemd, og dýrkun hans, ſem þau ſvo dáſamlega gjørdi. Hvad má framar hræra vort hjarta, framar fylla vora ſálu heilagri undrun, enn ſkodun Guds dáſemdar-verka, ſem eru ſvo vegſamleg og verdug elſku? Hvad framar minna oſs á hans ſpeki og gædſku, enn ſkodan ſvo margra ſkapadra ſképna, vid hvørja Skaparans almætti, vísdómur og gædſka auglýſiſt oſs jafn-addáanlegt? hvad framar hjá oſs ſtyrkja trauſtid á Guds alvoldugu ſtjórnun, enn þegar vér hugleidum og vyrdum fyrir oſs þá almennilegu forſjón, ſem allt eins náqvæma umhyggju ber fyrir lífi jurtanna og dýranna? hvad ſegir oſs ſérhvørt gras-ſtrá, ſérhvørt blómſtur, ſérhvør uppvaxandi jurt? hvad gjørvøll náttúran? mikil, addáanlega mikil eru verkin Drottins. Hvørninn má nockurt, jafnvel prýdilegaſt meiſtara-verk manna, koma í ſam-

samjøfnud vid heimsins dásømu bygg-íngu? mun snoturt málverk einhvørs lands mikils metandi á móti sjálfu land-inu, í hvørju øll náttúrunnar prýdi og gædi eru sameinud? en hvad veldur því, ad vér svo mikils metum mannlegar í-þróttir og verk, en erum þó svo kaldir og tilfinníngarlausir vid Guds dásemdar verk í náttúrunni! sannarlega, ef vér hug-leida vildum þess gjørvalla skøpunar-verks undrunarverdu stærd, og hvørsu ó-mælilega vídt þad nær; náttúrunnar ó-umbreyttu reglu og reglulegu umbreyt-íngu; fjølda hinna skøpudu sképnanna, og margfeldu kyn-breytíngar; sérhvørs prýdi, ordu, reglu og sambønd, fengjum vér ecki haldid oss frá, fullir undrunar ad upphrópa: mikil eru verkin **Drott-ins!** Stóri, ómælilega stóri Skapari! vér undirtøkum med øllum þínum skøpud-um sképnum, og játum: vér erum einúng-is dupt og aska, eintómur skuggi, en fáum aldrei framar þeckt og undrast og furdad þína stærd og mikilleika, enn vid samburd vors audvyrdilegleika vid þína hátign; vér fáum ad sønnu ecki skygnst inn í náttúrunnar innstu fylsni, en hitt, sem vér sjáum útvortis fyrir augunum, er fullt og til

ad

að inntaka vort hjarta og fylla það undrun og lotníngu; vorir vitsmunir eru hálf-verk, og vér fáum þig hér að eins þeckt, eins og í speigli og rádgátu, en á síðan, þegar hálf-verkið tekur enda og vér loksins náum fullkomnari þeckíngu, þá munum vér enn betur skilja og sanna mega: að mikil eru verkin Drottins, þá munum vér og lengra leiddir í þeckíngunni, verduglegar fá prísað Gud. En á medan vér dveljum hér á jørdunni og skodum hans verk, skal vor ydja sú vor, vísdómur og vort augna-mid, ad læra ad þeckja og prísa Skaparans mikilleik. Svo opt, sem vér rennum augunum upp til himins, svo opt, sem vér skodum jørdina, svo opt, sem vér lítum til sjálfra vor, svo opt skal tilfinníng hans mikilleika verda oss innrætt og vor audmyrdilegleiki því kunnari. Fyrir þér nidurkrýpur vor andi, og fullur undrunar tilbidur þig, mikli, óendanlegi Gud! ef ad þú tækir frá oss þína nádar-hønd, og þitt almætti leiddi oss ecki, þá mundum vér undir eins tortýnast. Lofud veri jafnan þín miskun, sem svo nádarsamlega lítur ofan til vor, sem þó erum eingúngis dupt og aska, og vill leida oss um

allar

allar eillfdir, hvar vér med heilagri undrun og himneskum fögnudi fá skulum ad skoda og prísa þig óaflátanlega.

## 59. Hugvekja.

Bænin má aldrei bresta þig, búin er freisting hmislig; þá líf og sál er lúid og þjád, lykill er hún ad Drottins nád.

Þegar vér lesum Bibliuna med eptirtekt, finnum vér í henni svo yfrid mörg og óræk merkileg dæmi þess, hvörsu kröptug sé trúud og alvarleg bæn, ad þad mætti fásinna heita, ad vilja med vantrú og efasemd neita sannleika þvílíkra dæma. Fyrir safnadarins bæn í Jerúsalem var Pétur útleiddur af sínu fángelsi. Móses gjördi bæn sína til Guds, og Israel géck þurrum fótum yfirum hafid rauda. Elías bad til Guds, og Gud vökvadi jördina med regni; hann bad, og eckjunnar daudi sonur í Zarepta, kom aptur til lífsins; hann bad, og eldur féll af himni og eyddi brenni-fórninni. Ezechiel bad til Drottins, og 15 ár lögdust til hans aldurs; já, Jesús sjálfur, þegar hann, á sínum holdsvistar dögum, offradi bænum, var bænheyrdur af sínum himneska födur.

Hvorn-

Hvornig fáum vér þar um efast, ad vorar bænir muni líkann krapt hafa, og svo margra heilagra manna bænir á fyrri tímunum, ef vér bidjum med trúndu hjarta! er Gud ecki ómmbreytanlegur í sínu almætti, og í sinni gædsku? er hans miskunsemi ecki óendanleg? mun hañ þá hætta ad elska og miskuna oss? oss, sem kalladir erum eptir hans sonar nafni, endurleystir af honum og styrktir af hans fyrirbón? ónei! þín gædska, Drottiñ! varir eilíflegá. Þín eyru eru aldrei apturbirgd, svo ad þú ecki viljir heyra oss, þegar vér framberum vora qveinstafi fyrir þig; þín hönd er aldrei offstutt til ad hjálpa, þegar oss liggur á, þú munt allteins bænheyra oss, og þú bænheyrt hefir önnur þín börn, þegar vér einúngis bidjum þig med audmjúkri og helgadri sálu. Í þessari fullvissu komum vér nú til þín, nádugi Gud! og útausum voru hjarta í trúar-öruggri qvöld-bæn fyrir þínu augliti; en, um hvad bidjum vér þá? máské um krapta til ad gjöra hid góda, og gánga á þínum vegum? o! hvörsu ljúft væri þér ecki ad heyra þá bæn? hvörsu ríkuglega mundir þú ecki vilja géfa oss allt þetta? máské vér bidjum einúngis um tímanleg og forgengileg



gædi? o! ad vér þó ecki képptumst svo ákast eptir þessa heims fallvallta munadi, heldur miklu framar eptir himinsins farsæld! o! ad vér leggja vildum vorn vilja og allar vorar tilhneigíngar undir þinnar vísu forsjónar vilja, og eins og kristnum sómir, kappkosta ad girnast æ meir og framar hid góda! o Gud! stjórna þú voru hjarta med þínum anda, ad vér einnig í vorri bæn, fáum hagad oss eptir þessum óskum og ásetníngi vorum. Géf oss þad vísa, gudhrædda hjartalag, sem þú gæddir Salómon med; ef ad þín rödd kjæmi til sérhvörs vors í sinn stad, og segdi: **bid þess, er þig girnir af mér!** ef ad vér mættum velja egin luckukjør vor, géf oss þá nád ad velja eins viturlega og hann, og andsvara þér: Drottinn! Drottinn! géf þínum þénara skynsamt hjarta, svo hañ skilja megi hvad gott og illt er, og um þessa blessun bidjum vér ad eins á þessari stundu. O Gud allrar miskunar! géf oss rádvandt og skynsamt hjarta; ef ad oss audnast þessi gædi, þá mun oss allt annad gott tilfalla, þá muntú uppfylla allar vorar óskir og eptirlánganir. Og þó ad vér færum varhluta af audlegd, metordum og ødrum tímanlegum ávinníngi,

ingi, skal þó vísdómur og dygd vera hér vor óvidjafnandi audæfi og ávinníngur, og þá er einkis framar ad óska, þegar vér einúngis eignumst þína nád og þína vel-þócknun.

## 60. Hugvekja.

Guds ótti med ánægju, er mikill ávinníngur, 1 Tim. 6.

Ad miklu leiti koma margar vorar hrellíngar af því, ad vér erum illa ánægdir med vor luckukjør, einatt jøfnum vér saman ástandi voru vid annara manna; því erum vér ecki, segjum vér opt vid sjálfa oss, svo ríkir, svo heidradir, svo luckulegir, svo ánægdir, sem hinir, er sídur sýnast verdskulda þad enn vér? vid þvílíkar hugleidíngar gleymum vér optastinær því góda, sem Gud hefir géfid oss, og þacklæti því, er vér egum honum ad lúka. Lítid munum vér til, med hvørsu margføldum velgjørníngum Gud hefir blessad oss; lítid hugleidum vér allann þann kjærleika, nád og lucku, sem vér mundum í vorú gjørvøllu lífi jafnan hafa þeckt, ef vér med eptir-þánka hefdum gaumgæfa viljad vort ásigkomu-

 

lag; lítid gætum vér medala þeirra, sem Gud brúkad hefir til ad géfa oss allt þad, sem vér vidþurfum, svo vér mættum á-nægdir lifa, já, enn framar: vér kunn-umst lítid vid þann mismun, sem er á oss og svo mørgum þúsundum annara, sem mættu lángtum midur ánægdir lifa, heldur enn oss géfst orsök til; vér lifum í landi þessu fríir og frjálsir, en, hvørsu margir medbrædra vorra eru ecki inni-byrgdir í þraung fángelsi og óhollt lopt, liggja á hørdum bálkum og fá ecki sól, og sumir enga dags skímu ad sjá; vér sof-um optast vært á nóttum, og rísum flest-ir heilbrygdir upp ad morgni dags, en hvørsu margir medbrædra vorra eyda ecki nóttum med qveini og veini, og døg-um í sorg og sjúkdómum; vér høfum þad, sem vér þurfum á ad halda til lífs nær-íngar vorrar, en hvørsu mørg þúsund manna leita þar á mót á stundum vída og forgéfins ad braudi og lífsnæríngu; vér njótum heilsu og heilla, en hvørsu marga beygir ecki krøm og karar-sæng djúpt í eymdir og vanvyrdu, og þó øfundum vér adra af þeirra lucku, þar sem enn þá fleiri hefdu orsök til ad øfunda oss? skyld-um vér vera ílla ánægdir med þad hlut-

fall,

fall, sem Gud hefir oss veitt, og sem efalaust er oss hid besta eptir voru ástandi! sannfær oss, ó Gud! æ betur og betur um þad, ad hlutdeild sú, sem þú skamtad og útdeilt hefir sérhvørjum af oss, sé hvørjum og einum hin hollasta og gagnlegasta. Og þared ánægt hjarta er hin dýrmætasta lucka í lífinu, svo géfdú oss nád til ad ødlast hana, ad vér ecki lengur vanvyrdum þig med møgli og unqvortunum. Minntú oss sífellt á voru óverdugleika, sem ecki verdskuldar neitt af þeirri gædsku, sem þú í voru umlidna lífi hefir oss audsýnt; láttú þetta leida oss til ad prísa þig fyrir sérhvørn velgjørníng, hvørsu lítilsjørlegur, sem hann oss vyrdast kynni, og styrkja vort trúnadar-traust á þér; og hvornig skyldum vér vantreysta þinni nádugu stjórnun, þar vér sannfærdir erum um þína nád og þinn vísdóm! nej, eilíflega skal sú vera ástundan vor, ad setja vora von til þín, ad óttast og elska þig; þessar dygdir munu leida oss til sífellt ad vidurkénna þá lucku, ad vér standa megum undir þinni stjórnun. Þinn ótti skal vardveita oss frá syndum, og þinn kjærleiki hugga oss í hvørju, sem ad høndum kém-

ur, og med hvílíku sínnislagi fáum vér med glødu gédi tekid sérhvorju, sem adbera kann, já, gengid med djørfúng á móti sjálfum daudanum; því hvørnig megum vér í daudanum vænta annars enn góds af þeim Gudi, sem í lífinu lét oss einskjæra gædsku í tje.

## 61. Hugvekja.

Hvad, sem þú giørir, hugsa ber, hvørt þvílík ydjan hæfdi þér, ef í því verki ættir þú, andast þá strax og dæmast nú.

Hin besta regla, eptir hvørri vér lagaegum allar vorar athafnir, er sú: ad vér tídum samanberum þann dóm, sem vér sídarmeir fella munum yfir athafnir vorar, vid þad álit, sem vér nú hofum á þeim; vér ættum á stundum ad íminda oss, ad vér lægjum sótt-veikir, vér ættum einatt ad renna þaunkunum til þess óttalega augnabliks, þegar þessi nálæga tíd skal enda taka, og eilífdin byrja. Opt ættum vér ad spyrja sjálfa oss: hvad mun eg líklega segja um þann lífernis-hátt, sem eg nú færi; þegar þúngur sjúkdómur yfirfellur mig, medølin fá ecki líknad lengur, og Læknirinn stendur úrrædalaus, en grátandi ættíngjar og vin-

vinir umkríngja sæng mína, og allt þetta segir mér: að eg standi á ytstu lífs- ins tröppu og á sjálfum grafar barmin- um? hvað munum vér þá dæma um það andvaralausa framferdi, í hvorju vér nú daglega framgaungum og eydum mestum hluta æfi vorrar, og um lasta-fullar lysti- semdir, sem gledja oss svo mjög og svalla vorri tíd? hvörn dóm munum vér um allt þetta fella á hinum skélfilega degi, þá himnanna kraptar munu hræra sig, jardarinnar grundvollur tekur til að skjálfa, og hofud-sképnurnar brádna af hita, en dómstóllinn verdur reistur upp og bækurnar opnast, í hvorjum allar vorar gjördir, ord og þánkar, uppteikn- adir eru? ef að vér athuga vildum ádur- nefnda reglu, mundum vér alla hluti álíta med meira jafnadar-gédi; skélfast mundum vér þá vid þvílíkar athafnir, sem vér nú í andvaraleysi leikum oss að; óttalegar háskasemdir mundum vér á þeim vegum finna, hvar vér hyggjum nú hættulaust. Ef að vér lifdum sam- qvæmt þvílíku hugar-fari, mundum vér á sérhvörjum degi verda varfærnari, og engar dagsins athafnir byrja, fyrr enn vér yfirvegad hefdum allt, sem vér tæk-

 jum

jum oss fyrir hendur; fyrr enn vér útgengjum mundum vér spyrja sjálfa oss: hvört gengur þú? hvaða freistíngar munu þér mæta? hvaða tækifæri munu þér bjóðast til að gjøra gott? þegar vér þannig berum tíðum oss saman við sjálfa oss, mundum vér bráðum framførum ná á dygðanna vegi, hvørsu sem vér áður hefðum afvega geng'd. O Guð! vort athvarf er því til aðstoðar þinnar; kénn oss að leggja stund á þessa yðju, er vér sjáum oss svo nytsama, svo heilsusamlega, og fyrst þú gafst oss skynsemdarfulla sálu, svo géfðu oss náð til svo að lifa, sem skynsømum manneskjum vel sómir. Já, þú, sem hefir oss leidt fram á þessa vegferð í heiminum, við hvørrar endir vér finna munum annaðhvørt líf eða dauða, eilífa lucku ellegar eilífa ólucku, vyrðstú svo að stjórna øllum vorrar vegferðar fót-stigum, að vér hreppa mættum þá sælu, sem á að vera tilgángurinn allra vorra óska og athafna! géf oss enn þá tíma til að hugleiða vora vegu, og snúa oss til þinna réttinda, og svo að vér innifelum það allt, sem vér umbiðja þurfum í einu einustu ósk, biðjum vér nú, að þú, ó Guð! vyrðist að

géfa

géfa oss þañ vísdóm, náqvæmlega ad hugleida vora endalykt, og dómiñ, sem á eptir fylgja mun, og svo ad lifa, ad vér vid þessar mikilvægu umbreytíngar, enga orsok fáum til ad gráta þá dagana, sem vér lifdum hér, heldur eilíflega fagna og glediast hjá sjálfum þér í dýrdinni.

## 62. Hugvekja.

Sannlega, sannlega segi eg ydur: hvørs þér bidjid Fødurinn í mínu nafni, þad mun hann veita ydur, Jóh. 16.

Jesús hefir þad afrekad oss, ad vér nú bidja þorum almáttugañ Gud; hins skammarlegasta óþacklætis gjørdum vér oss seka, ef vér vanvyrda vildum þeñañ vorn Herra í vorri Guds-þjónustu, voru þacklæti og bænum vorum; aldrei vilium vér gleyma því, ad Jesús er sá, hvørjum vér þacka egum allt þad hjálpræði, sem oss er géfid í tíma og eilífd; einúngis fyrir hans verdskuldun erum vér Gudi þócknanlegir, og megum vænta oss bænheyrslu. Fyrir hañ fáum vér fullvissu þá, ad Gud, sem máttugur er ad blessa oss, vilji þad einnig gjøra. Ó! ad vér ætíd, þegar vér frambérum naud vora og þarfir fyrir Gud, miñt-

umſt þeſs dýrmœta ſam̃leika: ad ſá Gud, ſem vér ákøllum, er fadir vors Drottins Jeſú Kriſts! med því trúar-øruggara trauſti, og med því meiri djorfúng munnum vér þá voga ad ſnúa oſs til hans, og fela honum á vald vorar egin og vórra medbrœdra naudſynjar; þar vid mun og hjarta vort endurlífgaſt, ad vér, fyrir krapt heilags anda, kalla megum Jeſúm Kriſt vorn Drottin̄, og med trúudu hjarta eigna oſs þad allt, ſem þeſſi vor Endurlauſnari hefir afrekad oſs; þá mun vor trú vaxa, og vort trauſt á honum aukaſt. Til þín, eilífi ſonur Guds! nálœgjum vér oſs á þeſſari qvold-ſtundu; bid þú eiñig med og fyrir oſs, vér viljum áſamt frambera fyrir þig vort þacklœti, fyrir ſvo margfalda nád og trúfeſti, er vér þegid hofum fyri þína fyribón og forþénuſtu; þiñi fyribón er þad ad þacka, ad vér eñ þá lifum, og ad vor nádar-tíd er ecki eñ á enda; géfdú oſs framvegis þína lífkroptugu nád, og lát oſs brúka hana til vors frelſis og ſáluhjálpar vorrar. Láttú oll vor fyritœki bleſſaſt, og ſakir þiñar heilogu pínu, allar vorar ſyndir bœttar og gleymdar vera; yfirgéfi oſs aldrei þín náduga hjálp, Því hvad vœrum vér án þiñar nádar añad eñ aumar útſkúf-

adar

adar sképnur? kasta oss ecki burt, þó vér vanvyrdt høfum vora útvegndu endurlausn og þína náð, med gálausu lífferni, og verdskuldad þína réttlátu reidi og hegníngu; hafdú eñ þá umburdarlyndi og þolinmædi vid oss, fyrir sakir þiñar miskunar; láttú þad ávøxtarlausa tréd enn þá standa óupprætt, eñ þá óupphøggvid, þó þad enga nema skadlega ávøxtu færi; auglýstú þína vegsamlegu náð, á þínum endurleystu; lát tølu þiña trúu tilbidjenda sífeldt aukast, og styrk þá æ meir og meir í trú og þínum kjærleika. Vér bidjum ásamt fyrir smánarum þíns nafns, sem setja sig upp á móti þér, og þiñar nádar-lodunum, fyrir þeim hardsvírudu, hvørja þiñ andi hefir híngad til forgéfins leida viljad til yfirbótar. Vér bidjum fyrir øllum heiminum, láttú þitt dýrdlega nafn æ meir og meir útbreidast og tignast, og loksins þá tíd koma, ad gjørvallur heimuriñ vidurkéñi þitt nafn, og lúti þínu veldi, Amen.

## 63. Hugvekja.

Leggid hug á þad himneska, en ecki á þad jardneska, Col. 3.

Allir hlutir sannfæra oss um þad, ad vor mikilvægasta tíd er fyrir hønd-

um, þá lífið er á enda. Gjørvallur heimurinn með øllum sínum umbreytíngum og óstødugleika sannar það, vort egið ásigkomulag, óskir vorrar sálar, veikleiki vors líkama, sú stutta tíð, sem vér dveljum hér á jørdunni, lífsins viðstødulausi hraði, í einu orði að segja: allir hlutir prédika oss þann sannleika, að vér séum áqvarðaðir til að lifa eilíflega. Þó fáum vér hér um enn sterkari fullvissu, þegar vér aðgætum sjálfa oss, sem þá, er af Jesú Kristi erum endurleystir. Allar þær qvalir og þjáníngar, sem Jesús þolað hefir, allir þeir velgjørníngar, sem hann hefir oss afrekað með sinni verðskuldun, eru jafn-margar røksemdir fyrir því, að sála vor sé áqvørðuð til eilífðarinnar. Ðúmálanlega gleði-orsøk høfum vér af þessari yfirvegun; en aumkunarverðir eru margir vorir meðbræður, sem framgánga eptir sínum tilhneigíngum, og gleyma þeirri eilífð, sem Guð hefir þeim fyrirhugað. Samt sem áður, þó þessir ólukkulegu villist af sønnum lucku vegi, og gleymi sinni farsæld, gleymdú þó ecki, sála mín! að þú lifir hér í heimi til þess, að þú megir eilíflega lifa; þitt blindaða hjarta gjørir þér

synd-

syndina girnilega, en gleymdú ecki ad lastanna háskasama ánægja, ætti ad vera þeim viðbjódsleg, sem þeckir eilífdarinnar yndisfullu gledi. Þegar þú stendur vid, þreytist ellegar ætlar ad hørfa tilbaka á gudhrædslunnar vegi, æ! gleymdú þá ecki, ad dygdanna vegur hefir luckusæl afdrif í eilífdinni; þegar þessa lífs þreyngíngar ætla ad gjøra þig huglausa og magnþrota, gleymdú þá ecki, ad þad er hin stærsta vanvyrda og ólucka, ad géfa eilífdarinnar farsæld vid þessa heims lucku, og þegar þú lœksins skilur vid þetta jardneska hreysi, gleymdú þá ecki ad eilífdin, til hvorrar daudinn færir þig, mun fullkomlega umbuna þenna lítilsjørlega missir, sem þó ecki má nefnast svo, heldur ávinníngur. Eilífdin, til hvorrar vér erum áqvardadir, veri því vort stoduga mark og mid, og tilhugsan hennar gjøri oss hæfilega til ad brúka vel þá stuttu tíd, undir hvorri komin er vor gjørvøll lucka eda ólucka í eilífdinni. Vér skulum því med varúd og gætni brúka vorar fáu lífs-stundir á jordunni. Vér skulum ýtarlega athuga allar vorar gjørdir og dæma um þær, eptir því endurgjaldi þeirra, sem vér á sídan vænt-

um í eilífdinni. Lángt sé frá oss ad láta vorar óskir og ástundun einúngis mida til þessa stutta og fallvallta lífs luku og ánægju. O! eilífdarinnar Fadir! kénn oss þennann vísdom, og innrættú djúpt í vorum sálum, ad vér skapadir séum og endurleýstir til þess ad lifa eilíflega. Hvad værum vér, ef þetta væri oss hulid? hvad væri vort líf og vor daudi, ef vér ecki trýdum þessu? og þó gjöra þessa heims stundleg gædi svo opt ad engu hjá oss þennann gudlega þánka, æ! vyrdstú því sjálfur, ó Gud! ad vekja þenna þánka hjá oss og vidhalda honum í vorri sálu, og sjálfur ad géfa oss nád til þess, ad vér ecki einúngis høfum eilífdarinnar umtal á vorunum, heldur ad hennar tilhúgsun megi vera stoduglega innrætt voru hjarta; um þessa nád bidjum vér þig, ástkjæri eilífi Fadir! kénndú oss ad hugleida þad á þessari stundu, ad vér egum kost á ad verda innbyggendur annars betra heims, og þín børn í eilífdinni. Og svo þessi dagur og sérhvørr hans tími er vor undirbúníngs-tíd undir þá sídustu umbreytíngu; þegar þú stjórnar oss, munum vér brúka sérhvørja stund til eblíngar vorri sønnu velferd, og vid sér-

sérhvorja tillockun til ens vonda, sem qvíknar í hjartanu, vid sérhvörja þjáníngu, sem vér líðum, vid sérhvörja freistíngu, sem oss mæta kann, sífeldt hughreystast vid þá íhugun med þeim, ad vér lifum hér til þess, ad lifa sídarmeir hjá sjálfum þér eilífléga.

## 64. Hugvekja.

Vissu lífs eilífs ljer, Lausnarans sigur mér, megnar ei mig ad fæla, myrkur grafar né kjæla, um jørd all-litid gef eg, í Jesú lífs-von hef'eg.

Svo myrk og hulin, sem oss er sú ókomna tíd, og þau tilfelli, sem fyrir oss liggja, er þad þó efalaust, ad ókomna tídin er oss mikilvæg, og ad vér egum fyrir høndum endalausa eilífd. Enganneginn kann veröld þessi ad vera sá stadur, hvar allt, sem mann-edli voru er ætlad, kynni ad mæta oss; væri hún vors sídasta takmarks og farsældar-land, mundi hún ecki, hvørsu girnileg, sem hún vyrdist, vera svo eymda- og armædu-full, sem hún opt er í raun og veru; þessi líkami hefdi þá ecki heldur svo margar umbreytíngar og veikleika vid ad strída, þá ætti og vorrar sálar ósedjanlega farsæld-

sældar laungun hér, kunna ad mettast, en í voru hérvistar ástandi, verdur tilgángur alls þess nálæga veraldarinnar, lífs vors og sálar og vorra gjørvallra tilfella vera oss óskiljandi, ef vor sídasti samastadur ætti ad vera hér í heimi; nei, Guds forsjónar fyrirætlan med oss hlýtur ad ná miklu lengra enn til þessa stutta og mædusama lífs; vér erum víst áqvardadir til lángtum ædri hluta enn einúngis ad gráta hér í lífi og gledjast, enn ad lifa stutta stund, og deyja svo aptur, og þó ad ekkért í heiminum, gæfi oss hér um nockra upplýsíngu, þá mætti þad þó vera daudi vors Jesú. Mun Sonur Guds hafa dáid einúngis til þess, ad vér yfrid stutta stund kynnum ad njóta fárra ánægjufullra augnablika og lystisemda þessa skammvinna lífs? mun hann hafa nidur af himnum stígid einúngis til ad gjøra oss svo skammvinna stundar-dvøl á jørdunni léttbæra og yndæla, og hvørsu þúng og sorgleg er hún þó ecki allmørgum vorra medbrædra! mun hann hafa úthellt sínu blodi, til ad endurleysa oss, og vér þó varla varir verda vid nád og not þessarar endurlausnar, ellegar strax og vér hefdum þessa varir ordid, missa alla

hem-

hennar nádar ávøxtu og not og hugg-un í daudanum, væri vort líf þá eilíf-lega þrotid! nej, víssulega sannfærir oss verdskuldan vors Frelsara þar um, ad vér áqvardadir og ætladir séum til lángtum ædri og lángvinnari farsældar. Efa-laust mun annar og betri heimur oss geymdur, hvar vér njóta munum þeirr-ar lucku, ad vera á medal Jesú endur-leystu, gæddir lángtum ædri fullkomun enn hér í heimi er møguleg, med ødrum ordum: vér munum verda ódaudlegir; þegar vér þannig vyrdum fyrir oss vort líf í heimi þessum, fær þad í vorum aug-um allt annad útlit. Hvørr einn part-ur þess, hvørsu lítilsjørlegur, sem hann er, verdur oss þá mikilvægur, svo sem náqvæmlega samtengdur oss fyrirbún-um ódaudlegleika; vér megum því ecki reikna þetta nálæga líf eptir þeim fáu døgum, sem þad vara kann, heldur ept-ir þeim tilgángi, hvørs vegna þad er oss géfid, og hvar til þad midar; þess vegna verdum vér ad lifa þannig, sem vér óska mættum best ad búa oss undir þá óendanlegu ára tølu, sem vér eigum fyr-ir høndum ad lifa, og samqvæmt þeim á-setníngi og þessu hugar-fari, viljum vér

med náð Guds leitast við að laga vort líf þann tíma æfinnar, sem enn þá eptir eginn; veri sá þánki sífeldt vakandi í vorri sálu, að vér ecki séum áqvarðaðir fyrir heiminn, heldur himininn; því stöðugri, sem hann verður í voru hjarta, því framar á vort líferni á jörðunni að líkjast voru komanda lífi í himninum; þá skal himnesk ánægja fylla vort hjarta, þá skulum vér keppast eptir að ná eilífum gæðum; þá ber oss nú að elska þá hér, sem síðarmeir eins munu verða vorir lagsbræður í himninum. Innrættu oss þetta hugar-far, góði Guð! með kroptugri náðar-verkun þíns anda; hvörsu blessuð verður oss þá ecki sú nálæga tíð, hvörsu mikil vor gleði, vor sálar rósemi, vor lucka, bæði í lífi og dauða!

## 65. Hugvekja.

Það forsjónar þinnar skugga, þeckjum vér að sorga frí, megum lifa utan ugga, eyrð og friði góðum í. Guð! þín miskun eilíf er, en framvegis gef oss hér, allt hvað þurfum og til þinnar, þénandi er dýrðarinnar.

Viðhald vors lífs, er eitthvört mesta dásemdar verk Guds, á hvörju vér á sérhvörju augnabliki þreifa megum; þegar

þegar vér yfirvegum vors líkama veiku bygggingu, og skodum þær óteljandi háskasemdir, sem honum eru búnar; þegar vér adgætum vora vangætslu og hyrduleysi um vidhald vors lífs, megum vér undrast, ad vér, fyrir laungu sídan, ecki urdum daudanum ad herfángi; efalaust hlýtur einn Gud til ad vera, sem beri allteins mikla umhyggju fyrir hvørrar og einar manneskju lífi, og vidhaldi allrar náttúrunnar; væri hann ecki til, mætti vaggan verda vor grof, ómálga aldurinn vort enda-dægur, svefninn vor daudi, og sérhvørr dagur ólucku-dagur. Vér lifum þó enn, getum enn þá hrært limi vora, og erum velflestir heilir heilsu; allir þessir velgjørníngar mega ábreifanlegar sannfæra oss, enn jafnvel skírustu roksemdir skynseminnar um þad, ad einn Gud sé til, og ad þessi Gud sé vor Gud, vor Fadir og vidhaldari vors lífs. Værum vér ecki hér um sannfærdir, mættum vér vid upprunna sérhvørrar morgunsólar, vid sérhvørrar nætur adkomu, óttafullir renna þaunkum til hvørs eins komandi tíma vors lífs, og ósjaldan segja vid sjálfa oss: þar sje eg fyrir háskasemdir þær, sem munu torthýna mér;

þar munu mér óvinir mæta, sem fram-
qvæma munu á mér vondann áſetníng
ſinn; þar ſje eg einn ógudlegann, ſem
mér ſteypa mun í þá ólucku, ſem hann
hefir mér fyrirbúna; þar ſje eg vøtnin,
ſem munu dreckja mér, eldsvodann, ſem
mun mig uppbrenna; þar ſje eg fyrir
þad tilfelli, ſem mun kollvarpa mér; med
þvílíkum ørvýlnunar þaunkum mættum
vér vænta ſérhvørs ókomins tíma, ef
vér ecki hefdum þá øruggustu fullviſſu um
vors Guds nádugu og víſu forſjon og
ſtjorn yfir voru lífi. Af øllu hjarta príſum
vér þig, miſkunſami nádugi fadir! ad þú á-
ſamt trúñi um þína forſjón géfur oſs ſvo
dýrmæta huggun og róſemi. O! hvørſu
vanvyrdum vér ecki þína gædſku, ef vér eñ
þá erum vantrúadir, ſem høfum ſvo mikl-
ar røkſemdir um þína forſjón. Géf ad vér
aldrei séum óþacklátir, heldur ſífellt þack-
látlega miñumſt, hvørſu vér reynt høfum
þína trúføſtu gædſku, og ætíd meir og
meir upphvetjumſt til ad ſetja allt vort
trauſt á þig, og þetta ſkal nú vort fyr-
irtæki og áſetníngur á þeſſari ſtundu. Í
trúnni til þinnar almáttugu gædſku tøk-
um vér óqvídnir komandi tímunum. Svo
veikur og vanmegna, ſem vor líkami er,
treyſt-

treystum vér þó þínum krapti, sem vidheldur oss og styrkir. Svo skammsýnir sem vér erum til ad fyrirsjá þær háskasemdir, sem oss kynnu mæta, treystum vér þó á mátt þinn og vísdóm, sem sjer þær allar og ert máttugur ad afvenda þeim. Vér vitum ecki sjálfir hvørs vér egum ad óska oss, eda fyrir hvørju vér egum ad óttast; vyrdstú sjálfur ad uppfylla allar vorar óskir, sem nytsamlegar eru, og frelsa oss frá øllu vondu, sem kynni ad tortýna oss. Unn oss ætíd ad lifa undir þinni umsjón, undir Jesú nád, og undir stjórnun þess heilaga Anda, og njóta þeirrar sælu, ad elskast og blessast af þér, þá gaungum vér óskélfdir á móti sérhvørju lífsins hættulegasta tilfelli, sem oss mæta kann, þared vér høfum þann ad reida oss uppá, sem er almáttugur og øllu vill og kann ad snúa oss til besta.

## 66. Hugvekja.

Betri er einn þurr biti, láti madur sér nægja, enn fullt hús matar med þrætu, Ordsqv. b. 17.

Þau eru efalaust best og heilladrjúgust luckukjør, fyrir hvørn einn af oss, sem sérhvørjum í sinn stad eru úthlutud; hvørsu gjøfu, og þar hjá undar-

leg, sem oss allopt vyrdist útdeiling þess-
arar jardnesku heims lucku, yfir hvørri
vort óánægda hjarta óssjaldan heimuglega
møglar, mun þad þó reynast efunarlaus
sañleiki, ad sá alvaldi stjórnari allra hluta
útbýti þessa lífs gædum, med vísdómi og
gædsku þañig, sem hans alvitska sjer ad
hvørjum einum best hentar. Ad vera um
þetta í hjarta sinn sañfærdur, er ecki lítil
lucka, því þessi fullvissa viðheldur sannri
sálar rósemi, vardveitir hjartad frá nag-
andi ofund, og eydir mátalausum um-
qvørtunum; hvørsu ánægdir byrjum vér
ecki sérhvørn dag, og endum hañ eins ró-
lega, þegar vér erum, hvørr í siñ stad, full-
trúa þar um, ad sú lucka, sem Gud útbýt-
ir oss, þad ástand, er hañ hefir sett oss í, og
þau tilfelli, sem hann áqvardar oss, séu
besta hlutskiptid, er í vort skaut gat fallid,
og ad sjálfir vér aldrei hefdum gétad valid
eda óskad oss annars betra; en, máské
þessi finnis ánægja sé á þessari stundu
fjarlæg voru hjarta; máské ad óskir þær
hvarfli oss í hug: o! ad eg væri svo ríkur,
svo luckusæll, sem margir adrir med-
brædra minna, og máské þessi ósk og
laungun verdi hjá oss enn sterkari, þegar
vér náqvæmar gaumgæfum útbýtíngu
þess-

þessara luckugæda, og vér þykjumst varir verda, hvörsu misjafnt þeim útbýtt er medal þeirra, sem oss finnst midur enn vér hafa til þeirra unnid. En vitum vér þá sjálfir hvörs vér óskum oss? máské vér verdum annars hugar þegar vér samjøfnum því vér hofum, vid hitt, sem oss vantar. Séu vor kjør ad nockru lakari enn annara, eru þau ad morgu aptur miklu betri. Vér egum máské engann kost á ad njóta þessa heims gæda og hans lystisemda, med frjálsu og hindrunarlaust, en undir eins erum vér fríir frá svo morgu íllu; fyrir svo margfoldum freistíngum til þess vonda erum vér óhultir; oss mæta þá lángtum færri tækifæri og ginníngar til ad styggja Gud, til ad meida samvitsku vora og lída skip-brot á vorri trú. Færri óvini egum vér þá vid ad strída, sem sækist eptir vorum fátækdóm. Margir medbrædra vorra, lifa máské í lystisemdum, og gledja sig á margann hátt, en munum vér fyrir þad ógæfulegri, ef vér finnum því stærri laungun hjá oss eptir því himneska, og því meiri frid í vorri sálu? máské þad ásigkomulag, sem vér øfundum svo mjøg adra af, megi gjøra lífid yndælt og gédfellt, en þá vér fáum

 nú



nú ecki lifad sældar-lífi, kunnum vér þó
med því meiri hjartans gledi og rósemi,
ad þenkja til daudans og lokfins skilja
vid þetta líf, sem þeim luckulega fellur
opt svo þúngt ad yfirgéfa; þann jardn-
eska ríkdóminn, er þeir einúngis leitudu
sér ánægju í, vildu þeir aldrei þurfa
ad missa. Þad ástand, sem vér óskum
oss, er máské eptir vorri meiníngu og
heimsins áliti betra og gédfeldara, en
hitt, sem Guds áqvardan hefir sett oss
í, er þó efalaust eptir hans vísustu og bestu
rádstøfun oss lángtum betra. Géfdú oss
ó Gud! ad þessar hugleidíngar um vor
luckukjör og ásigkomulag í lífi þessu, hafi
þá kroptugu verkun í hjarta voru, ad
rosemi vorrar sálar megi þar vid rótfest-
ast og aukast; géfdú oss nád til ad efla
vora sáluhjálp í því ástandi, sem þér hef-
ir þócknast ad setja oss, án nockurs vøls,
óánægju og opolinmædi. Vardveittú oss
frá drambsemi, þó þér þóckniſt ad géfa
oss þessa lífs lucku, og frá ørvølnun og
efasemi, þó þú létir ólucku tilfelli bera
oss ad høndum; géfdú oss þar á mót nád
til ad auka vid upplýsíngu vorrar skyn-
semi, og ætíd ad líta í huganum fram yf-
ir takmørk þessa nærveranda lífs til ann-
ars

ars betra heims, og vid þá skodun upphvetjast til ad afneita þessum heimi, og því, sem í honum villa kann fyrir oss sjónir á því himneska, en lifa gudrækilega, réttilega og hóflega á medan vér lifum á jørduñi, ánægdir med hvad helst þín mildi úthlutar oss.

## 67. Hugvekja.

Réttlæti góds manns gjørir hans veg sléttann, Ordsqv. b. 11.

Sú ætti ad vera vor kappsamleg ástundan, á medan vér lifum í mannlegri sambúd í heimi þessum, ad vér ávinum oss svo elsku og gédþocka vorra medbrædra, ad vér gjøra kynum oss vissa von um, þegar vor hérvistar tíd er á enda, vinir vorir og kunníngjar hefdu orsøk til ad sakna vor og syrgja vorn missir, og sérhvørr rádvandur ad harma vorn vidskilnad; takist oss þañig ad hegda oss á medan vér lifum, megum vér þegar álíta vort líf luckulegt á jørduñi, því aldrei verdur loflegra lík-vers súngid yfir moldum vorum, heldur eñ þegar gudhræddir og rádvandir úthella vid lík-kistur vorar þeirri hjartans ósk: Gud gæfi hans líki kæmi nú í hans stad, úr því ecki vard lengur audid ad njóta hans samvista!

 

en þar á móti fær þad lítla huggun og ánægju veitt, þegar vér høgum þannig voru lífi, ad vér vitum oss hafa til einsk. is lofstýrs eda sakuadar unnid ad oss endudum, og ekkért liggur lofsverdt eptir oss, því hvad eru: audur, yfirlæti eda lystisemdir? lofstýrs fyrir þvílíkt viljum vér eptirtalualaust unna þeim fávísu, sem ákafast sækja eptir þessu, en þanninn viljum vér lifa, ad rádvandir sakni vor, og vinir syrgi vorn missir. Vér skulum ástunda ad gefa þeim oss þeckja-örsök til ad blessa vora minningu, og ad álíta oss verduga lofstýrs fyrir vort líferni, og einlægrar sorgar yfir vorum missir. Ef vér leggjum kapp á ad lifa dygdugu lífi, ástundum vér gudrækni, miskunsemi, rádvendni, hófsemi, svo munu jafnvel óvinir vorir verda leidast til ad lofa vorar dygdir, og hvorsu freklega, sem þeir øfunda oss, þó láta oss á stundum njóta sannmæla. En auk þessa má þad huggunar-ríkt vera ættíngjum vorum og vinum, ad njóta gladværrar fullvissu, af voru dygduga líferni, um vorrar sálar eilífa fognud og sælu, þar vér lifad høfum í Guds ótta, og deyjandi afhendt honum med øruggri trú sálu vora, sem hana

gaf.

gaf. Eckért fær betur aflétt þeirra sorg, eckért betur afþurkad þeirra harma-tár, og eckért framar gladt þá, eñ eptirlánganin ad ná oss iñan skaũs í somu sælu-hofn og vér sigldum inní rétt á undan þeim. Nú þegar viljum vér taka fyrir oss ad lifa þañig, ad þo vér brádlega deyja ættum, verdi vor daudi samt bædi-loflegur og sálu-hjálplegur. Til ad ødlast þvílíka endalykt, þurfum vér ecki ad óska oss gráhærds gamalmenna alldurs; þó vér skilia egum vid þetta líf midt í vorum blómstrandi aldri, hofum vér samt ýfrid lengi lifad, þegar vér ad eins lifdum dygdugu og rádvondu líferni; því margur leggst sá gamáll í grof, hvors dygdugu athafnir í lífinu fundust færri teljandi eñ árin, sem hañ lifad hafdi, en þeim vísa fundust dagar sínir aldrei offáir, því allir vóru þeir prýddir loflegum dygdum. Þvílíkrar hrósunar skulum vér leita oss, þañig ber oss ad lifa, ad englũ sá rádvandur fylgi oss til ens sídasta legstadar, sem ecki blessi vor bein í grøfiñi, og fiñi vort líferni verid hafa uppbyggilegt og gott. En margur mætti sá vera, sem, ókeñdur af almeñíngi, gángi út frá þessu lífi, og verdi því fáum harmdaudur; en þad skal oss liggja í léttu rúmi, þegar vér

ad eins gétum áunid ofs vors dómara vel-þócknun, og njótum útvaldra vegsemdar. O! þegar vér einúngis ødlumst ad vera í þeirra sæla hóp, er ofs þad fyrir minnstu, þó engin grafskrift hrósi minníngu vorri, né vor vidskilnadur verdi af morgum harmadur. Eptir þessari hrósun fyrir Gudi, viljum vér einkanlega keppast; hans vel-þóknan mun endurnæra vora sálu, þegar vér eptir vorn dauda, máske enga hlut-deild fáum í manna lofstýr.

## 68. Hugvekja.

Snú þér nú til Guds þíns, vertú miskunsamur og réttlátur og treystú ætíd á þinn Gud, Hós. 12.

Þessi skal þá vera sú stund, á hvørri vér viljum snúa ofs til Guds, yfir-géfa vora syndsamlegu vegu, og keppast eptir sønnum Guds ótta. Einhvørn-tíma hlýtur þó ad því ad koma, ad vér tokum ofs fyrir hendur þad verk, hvørs-framqvæmd vér svo opt ad undanførnu høfum á frest slegid. Líf vort er stutt og daudans tími óvifs; hvørt augnablikid er dýrmætt, sønn ydran svo sjaldgæf, en þess dæmi svo morg, ad manneskjum verdur í skyndíngu burtu kippt. Hvørn-

ig

ig mættum vér draga yfirbót vora undan til ókominna tíma? vitum vér þá, nema daudinn svipti oss lífinu midt á þeim árum, sem vér brúkum til þjónustu heiminum og syndinni? audveldlega gétur þad adborid, ad Herrann, sem vér væntum ecki koma mundi fyrr enn ad qvøldi dags, koma kunni ad morgni, eda um midjan dag, og krefja oss til reiknings; en jafnvel þó þetta yrdi ecki, þó ad daudinn yfirféili oss ecki voveiflega, þó ad vér lifdum til elli-ára og yrdum saddir lífdaga, munum vér þá hafa fúsari tilhneigingu og meiri krapta til betrunar og yfirbótar vorrar, heldur enn nú? nej, fjærri fer því; því lengur, sem vér lifum í andvaraleysi og syndum, því framar forherdist vort hjarta, því heldur upprætist hjá oss øll tilfinníng til ílls og góds, og því hugsunarlausari gjørumst vér um frelsi vorrar sálar, Drottinn á ráð á sérhvørjum aldri, og sérhvørri stundu vors lífs, ecki er þad oflángt til þess, ad vér brúkum þad allt, hvørt heldur þad verdur lángt eda stutt, til dýrdar honum, sem gaf oss þad og hét oss í umbun ódaudlegu lífi. Nú skulum vér því afhenda oss øldúngis þér á vald, almáttugi

ugi Fadír vors lífs! nú skulum vér hlydnast þinni røddu, sem vér svo tídt høfum þverskallast vid! vér viljum nú velja oss þann veg, sem híngad til hefir verid oss svo qvidvænlegur; vér viljum nú afnejta þeim lystíngum, sem verid hafa oss svo kjærar, og slíta oss frá heiminum, sem híngad til hefir haldid oss fanngudum. En, ó vor Gud! hvørsu opt høfum vér ecki haft jama áſetníng! optlega høfum vér svarid þér eiliflega ad elska þig, og eins opt brotid þetta særi aptur. Fá eru þau augnablik, sem vér fengum stødugri stjórnnn haldid yfir hjarta voru; þúsúndsinnum høfum vér gjørst þér óhlýdnir, eptir þad vér þó ad øllu leiti gáfum oss þér til þjónustu; hvørsu opt høfum vér ecki mátt sanna sjálfir, hvørsu breiskir vid erum og otrúir, þegar vér samstundis drýgdum þær syndirnar umhugsunarlaust, sem vér á næsta augnabliki ádur létumst hafa andstygd á! hvørsu marklaus eru þá øll vor heit, godi Gud! fyrst allur vor áſetníngur, allt vort hjarta er svo hvikult og umbreytanlegt. O Drottinn! kom þú oss til hjálpar med þinni nád! vér høfum nú nockud hrærst vid þessa íhugun, æ! láttú

láttú þessa hræríngu vidhaldast í vorri sálu. Vér høfum nú tekid fyrir oss góðann ásetníng; æ! styrktú oss til ad vidhalda og framfylgja honum! vér heitum þér enn á ný hollustu og trú um alla eilífd, æ! styrk oss til ad halda þetta heit, svo vér ecki med ótrygd brjótum af oss þína nád, og køllum yfir oss þína reidi, né tøkum, midt í heimsins solli, aptur þad offur, sem vér nú færum þér, á medan vér enn þá hugsum um þig og sálu-hjálp vora. Láttú þá hlýdni, sem vér nú sverjum þér, þá elsku, sem vér nú lofum þér ad auðsýna, þann ótta, í hværjum vér heitum ad framgánga, ecki verda eins skammvinnt og þessa bæn vora. Styrk oss, svo vér mættum æ stødugri verda í þinni þjónustu, minna meta heimsins glis, og styrkjast gégn øllum freistíngum. Vardveittú oss frá óstødugleyndi og þeim svikrádum, sem heimur þessi hefir oss búid. Undir þinni varatekt og adstod vonum vér ad fá framgengid þér þóknanlegar hér eptir enn híngad til, og vogum ad vænta oss þeirra verdlauna, sem þú hefir fyrirheitid þeim, sem eru þér trúir allt til daudans.

# 69. Hugvekja.

Komid til mín allir þér, sem mæddir erud og þreytt-ir, eg vil gefa ydur endurnæríngu, Matth. 11.

Vórt gjørvalla líf á jørdunni er fullt af mædu og sorgum; eitt andstreymid fylgir, svo ad segja, hinu á eptir; hvørsu marga glada og luckulega tíma fáum vér talid á móti hinum sorglegu? færri eru þeir dagar oss hugfastir, á hvørjum vér nutum hreinnar gledi án sorga, þegar allt var þó samfara, sem gledja mátti vort hjarta, svo sem heilbrygdi vor og velgengni, og vina og frænda vorra hugar rósemd og andans fridur. Sjaldreynt mun, ad allar vorar óskir veitist oss í einu; séum vér ríkir, vantar oss á stundum heilbrygdi; séum vér heilbrygdir, vantar opt ríkdóm; høfum vér þetta hvørttveggja, vantar opt trúrra vina adstod og yndi, já, opt hid allra markverdasta, vantar samvitsku rósemi. Hvørt vér høfum mikid eda lítid, høfum vér þó aldrei allt, sem vér óskum oss, stundum hrellir oss eitthvørt nálægt mótlæti, stundum koma oss aumar og vesælar manneskjur fyrir sjónir, hvørra eymdir uppvekja vora medaumkun. Stundum gagntekur oss

skélf-

skélfandi ángist, annadhvort út af vaknadrar samvitsku ákløgunum, ellegar allt of hastri blódsins hræríngu. Stundum fyllumst vér óróa út af óvæntum skada, sem oss ber ad høndum, eda ad eitthvad þad brást oss, sem vér gjørdum oss vissa von um, ellegar huld hønd Guds forsjónar typtadi og audmýkti oss. Þegar vér íhugum þá daga, á hvørjum oss mætt hafa einhvør þesshattar óblíd tilfelli, þá daga, sem vér eydt høfum í sællífi eda svefni, ellegar í syndsamlegri dægra styttíngu; þegar vér miñumst þeirra dagaña, sem vér brúkudum til framqvæmdar einhvørju ósæmilegu áformi voru; þegar vér loksins íhugum þá daga, sem vér vorum sjúkir, edur og midur ánægdir, þegar vér, segi eg, yfirvegum nú alla þessa daga vors umlidna lífs, hvørja vér hart nær álíta megum eins og þeir aldrei hefdu til verid, og berum þá saman vid hina, á hvørjum vér í raun og veru høfum nockru gódu af stad komid, ellegar vid þá daga, á hvørjum vér í raun réttri lucku-sælir vórum, þá munum vér fá ad finna, ad mjøg lítid edur eckért verdur lífdaga vorra, um hvørja ecki megi med fullum rétti adqveda med Jobs ordum: madurinn af qvinnunni fæddur, lifir

P stutta

stutta stund og er fullur órósemi. Hvörsu mundi oss þá farnast, ef vér lifa ættum þeissu óròsama og sorglega lífi, án þess ad ega þan ad, sem med vísdómi og gædsku vidheldur lífi voru? æ! þá hefdum vér med réttu nóg efni og orsök til ad vera óþolinmódir og óska oss daudans. En þared allt þetta mætir oss undir stjórnun og umsjón þess miskunsama og almáttuga Guds, megum vér rólegir og ánægdir vera, med hvad helst, sem ad höndum ber; og þetta er sú mikilvæga huggan, sem gledur oss, þegar vér á sérhvörjum degi ingaungum svo ad segja nýtt líf; trúnadar-traustid á almáttugum himins og jardar stjórnara, blandar huggun og gledi í allar vorar sorgir, í þessu nærveranda lífi. Þær röksemdir, sem vér ad undanförnu fundum um hans nádar ríku stjórnun, gjörir vort sinni rósamt og ánægt. Han mun stýra voru gjörvalla lífi eptir sinni alvísu gædsku þannig, ad oss jafnvel í mótlætinu géfast nun nóg orsök til ad vegsama han, og vér munum, á nærverandi tíma, finna nóg efni til þess; jafnvel naudir þær, undir hvörjum margir medbrædra vorra verda ad andvarpa og qveina, fá oss þar um sannfært, ad Gud höndlar nádarsamlega

lega vid oss, þared hañ gjørt hefir eymdir vorar oss lángtum þolanlegri eñ margra añara. Já, í øllum tilfellum munum vér þar um ad raun komast, ef ad vér añars nákvæmlega adgætum Guds undrunarlegu vegu, ad hann leggur oss manneskjum ad sønnu byrdi á herdar, en undir eins hjálpar oss til ad þola og bera hana.

## 70. Hugvekja.

Mín sála gledur sig í Gudi, heilsugjafara mínum, Lúc. 1.

Hvørsu mædufullt, sem þetta líf er á stundum ad álíta, vantar oss þó ecki, á medan vér lifum, gledi og siñis ánægju, ef vér sann-kristnir erum, þegar vér lyptum vorum augum í hædirnar til Guds, sem hefir oss skapad; þegar vér vyrdum fyrir oss hans óendanlegu og þar hjá svo gædsku- og gódgjørda-sømu hátign; þegar vér sétjum oss lifandi fyrir sjónir hans dýrdlegu og elskuverdu eginlegleika, med hvørsu yndælli gledi má þá ecki vor sála verda uppfyld? og þessarar ánægju og gledi megum vér daglega adnjóta, ef ad vér taka vildum oss fyrir hendur ad skoda og hugleida dásemdar-verk Guds bædi í

náttúrunnar og náðarinnar ríki; dagloga höfum vér það fyrir augunum; ætíð er oss því umnt að skémta oss við þeirra prýði; aldrei ættum vér að letjast í því að upphvefa sjálfa oss til elskunnar við Gud, með náqvæmri aðgætslu hans undrunarverðu dásemda, því að vanrækja það, er að gleyma Gudi, sem með svo augljósum, svo aðdáanlegum hætti, hefir auðsýnt oss svo mikinn kjærleika, og látið oss reyna sína undrunarlegu og gæðskuríku vegleiðslu þannig, að vér að minnsta kosti við endalok lífdaganna munum viðurkenna mega: að hann hafi alla hluti vel við oss gjört. Já, þegar vér með rólegri aðgætslu skoðum þann veg, um hvörn hann hefir leidt oss, finnum vér yfrið stóra orsök til rósemi og ánægju. Þegar vér skoðum vort egið ásigkomulag, og minnumst þar hjá þess innilega kjærleika, sem Gud hefir auðsýnt oss, fáum vér nog efni til að gledja oss af gjörvöllu hjarta. Gud géfur oss lucku og blessun til alls, sem vér tökum oss fyrir hendur; hann géfur oss heilbrygði, gladt sinni, krapta og lyst til að erfida, hann snýr frá oss háskasemdum og ólucku tilfellum, útbýtir oss þvílíkum lucku-kjörum, að vér enga orsök höfum til að óska oss annara

betri;

betri; hvad má oss upporfa til gledi og ánægju, ef ecki þetta? og þad því heldur, þegar vér adgætum hvørsu mikid Gud hefir oss gott gjørt framyfir marga adra af medbrædrum vorum; en þegar vér rennum nú augunum til þeirra sælu-fullu himinsins hýbýla, og thugum þann yfirgnæfanda fögnud, sem vér egum þar í vændum, hvad má þá af jardneskum heillum og lucku jafnast vid þvílíka gledi vorrar sálu? þad er því undir vorum vilja komid, hvørt vér lifa munum framvegis í lucku og rósemi edur ecki; séum vér midur ánægdir, þá er vautrú vors egin óstødugа hjarta orsøkin, sem ecki velur þau medöl, er ebli vora sønnu ánægju. Skyldum vér þá vera miskunarlausir vid siálfa oss, og gjøra oss siálfum lífid þúngt og mædusamt, þar sem vér gætum adnotid annars betra? enganvegin; þad skal æ gledja og hughreysta oss, ad vér egum Gud ad, og ad hann er vor trúfasti vinur og hjálpari í allri neyd; af hans mildirícu nádar-hønd, viljum vér med þacklátu hjarta medtaka þá ánægjufullu tíma, med hvørjum hann gledur oss í þessu lífi, og hrynda burt allri sorg og qvída, þanninn prísum vér Gud med vorri gledi, og med vorri

sinnis ánægju, en gjørum oss sjálfir lífid þægilegt og yndælt.

# 71. Hugvekja.

Glèdjid ydur og fagnid, þvíad ydar verdkaup er mikid á himnum, Lúc. 6.

Ad vísu má þad undrum sæta, ef vèr á engann hátt látum oss leida til yfirbótar og sinnis umbreytíngar, hvørsu margar og mikilvægar upphvatníngar og ladanir, sem Gud þar til frambýdur oss; ørdugleikinn, sem vèr meinum oss mæti í voru ydrunar-verki, fær því þó aldrei valdid, því sjálfur Gud, enn ecki vèr, framqvæmir í oss bædi viljann og verkid, en þarámót vekur máské íhugan stærdar og fjølda vorra synda efasemd hjá oss. Sá qvídi ætti frá oss burtu ad hverfa, eda hvørt mundi betra, ad særast af vidvarandi samvitsku ángist og ótta, vegna drýgdra mót-þróa synda, og daglega vakna upp vid þessa innvortis qvøl, ellegar ad hafa góda samvitsku, sem fridud og róleg er ordin med sannri yfirbót? ellegar, hvad kann ad olla því, ad vèr erum svo tregir til ad snúa oss af alvøru til Guds? máské syndir þær, sem vèr, til egin ólucku vorrar, alid høfum í

voru

vorn brjósti, séu oss svo gédþeckar, og oss falli ordugt ad hata þær eins og óvini. En hvorsu lengi á þetta hættulega tál, sem svo optlega hefir oss blindad og stofnad til vorrar ólucku, ad hafa yfirrád yfir vorum besta ásetníngi, framar enn bestu og heilsusamlegustu áminníngar, viðvaranir og upphvatníngar til egin lucku vorrar? viljum vér þá einskis meta vors elskurika Frelsara náð og ástsemi þá, med hvorri hann á hérvistardøgum sínum tók svo ástudlega ad sér ydrandi syndara, og tekur enn med somu elsku þeim á móti? viljum vér þá gjøra ad engu med vorum mótþróa allt þad ómak, alla þá umhyggju, sem vor gódi Gud ber fyrir því, ad fá oss leidda til apturhvarfs, og þarmed frelsa oss frá vorri egin fordjørfun? ó! ad vér hugleida vildum hvornig vér frelsast mættum úr hættu þeirri, sem vér stofnum oss í! efalaust er þad, ad sá sami miskunsami Gud, sem lætur sér svo annt vera um ad frelsa oss, og med sínum Anda verkar hid góda í vorum hjørtum, hann, sem útbreidir sinn nádar-fadm á móti oss allann daginn, ad þessi sami Gud mun þó eins efalaust álíta oss fyrir sína óvini, ef hans

náqvæma umhyggja fyrir oss verdur af oss forsmád og þanninn ad engu, ef ad vér ecki viljum láta oss leida til apturhvarfs vid hans mildirîku nád; loksins gaungum vér þá sjálfrádir út í þá ólucku, sem vér kepptumst eptir, og þá hlýtur straffid, sem vér sjálfir bökudum oss, ad verda því miklu þýngra. Í þeim sama himni, sem gledi er yfir sérhvorjum syndugum, sem ydrun gjörir, eru hinna nöfn, sem áfram ana í syndunum vidurstygd fyrir Gudi, englunum og hans heilögu, því med syndum og ydrunarleysi styggja menn Gud og hrelli hans gódu Anda; og hvört vildi sá ad lokunum flýja, fyrir hvörn eckért athvarf edur hæli var lengur á jördunni? þegar ydrunarlaus sála med ótta og ángist hlýtur loks ad skilja vid þetta jardneska, og himininn, inn í hvörn eckért óhreint eda almennilegt, eckért, sem elskad hefir ógudlegleika og lýgi, koma kann, er henni apturluktur, hvörr verdur þá hennar samastadur, hvílík hennar kjör, önnur enn eilíft spott og vanvyrda og hrellíng? vegna egin velferdar vorrar, skal vor einlægasti ásetníngur sá, á medan vér enn þá höfum tíma til yfirbotar, ad leita af alvöru nádar hjá Gudi,

Gudi, og láta oss leida af hans kiærleiks-fullu vidvørnunum til ad forda oss háska þeim, sem hinum óhlutvøndu búinn er, sem uppegna sér á móti Guds réttlætis reidi; því hvørnig fengjum vér afborid hana? o Herra Gud! vyrdstú ad leida oss á þeim vegum, um eydimørku þessa lífs, sem leida til þíns sælufulla himins. Vert þú æ vor leidtogi í lífinu, svo ad vér fyrir þína nádar-ríku adstod ad lokunum lenda fáum í þeim farsældar heimkynnunum, hvar útvaldir gledjast af þeim sælufullu verdlaunum, sem þar eru fyribúin þeim, er þig elska. O! Herra Jesú! leid þú oss jafnan med ordi þínu og anda, til þessarar farsældar. O Jesú! un̄ oss þan̄ sóma!

## 72. Hugvekja.

Þú, hinn mikli og voldugi Gud! Drottinn Zebaoth er þitt nafn, þú ert mikill í rádum og máttugur í athøfnum, Jer. 32.

Þared vér erum svo óframsýnir til ad sjá vískega fyrir høgum vorum, og kraptar vorir reynast svo veikir til ad efla vora lucku, er þad eckí litilvæg huggan fyrir oss, ad Gud, undir hvørs stjórnun vér støndum, og í hvørs valdi er ad

 bæta

bæta allar vorar þarfir, er svo mikill í rádum og máttugur í athøfnum. Vér vitum ecki hvad oss mæta mun á nærsta degi, jafnvel ecki á nærsta tíma; en hañ, sem nidurradad hefir og áqvardad fyrirfram sérhvørrar mañeskju tilfelli, og fyrirhugad þeirra lucku-kjør, hann sjer ecki einúngis fyrir, hvad á nærsta tíma og morgundegi muni adbera, heldur er eiñig augljóst og nakid fyrir hans alskygna auga, allt, sem í voru gjørvalla lífi mun oss mæta; og svo rádþrota, sem vér einatt verdum, þegar vér viljum forsjálega sjá fyrir lucku vorri, svo krøptug eru hans ráð, sem hjálpa oss eins opt í vandrædum þeim, sem abla oss áhyggju og ángistar qvída. Pared vér erum nú svo fullkomlega sañfærdir hér um, því erum vér þá svo fásiña, ad láta vort blindada hugskot og hjartans tilhnegíngar ráda vorum fyrirtækjum? því felum vér þá ecki allt vort ráð og áform á vald Guds óendanlega vísdómi og stjórnun, þared álycktanir hans ráðs einar eru vísar og sáluhjálplegar fyrir oss; ef ad vér ætíð breyttum þañig og vendum oss á, ad vera ánægdir med þessa Fødurs vors vísa og náduga vilja, mundum vér sídur orsøk hafa til ad ángrast eptir-

á yfir

á yfir vorum fyrirtækjum. Qvídalausir mundum vér renna augunum fram til hinna ókomnu tímanna, ef vér med gaumgæfni íhugudum ad sá Gud, sem áqvardad hefir oss til handa allt þad, sem framkoma mun á komandi tímanum, er mikill í rádum og máttugur í athøfnum. Þessi fullvissa leidi oss frá þeirri fásinnu, ad trúa betur vanvitsku vorri, enn Guds óendanlega vísdómi, frá því ad treysta framar vanmætti voru, enn almætti hans, sem øllu megnar. Óteljandi røksemdir sannfæra oss um þad, hvørsu vís, hvørsu máttugur og gædskuríkur Gud er, sem vidheldur lífi voru. Síst skal vor fávitska gjøra lítid úr vísdómi hans, né treysta vanmegni voru jafnt og hans almætti, med verdugu þakklæti skulum vér vidurkénna hans gódgirni; fyrir Guds alvísa augliti, viljum vér lítilæcka oss, og géfa honum dýrdina, fyrir allt þad góda, sem hann audsýnir oss. Þegar vér þannig førum ad rádi voru, vogum vér ad vænta oss blessunar Guds og lífsins ánægju og farsældar; ó Gud! géf þú oss þessa lucku, og kénn oss æ betur og betur ad þeckja vanmætti vort og fáfrædi. Láttú oss aldrei dyrfast ad framkoma

koma fyrir þitt alsjáandi auga med drambsømu og stærilátu hjarta, sem í nockru stóli uppá sig, heldur þeckja og vidurkénna, ad vér æ séum veikar og hjálparlausar sképnur, sem í øllu komnar erum uppá þína miskun og náð. Hvorgi, nema frá þér, voldugi Gud! væntum vér adstodar og hjálpar, þegar oss liggur á, en þegar vér þannig felum oss á þitt vald med audmjúku og einlægu hiarta, láttú oss þá ætíd finna hjá þér ráð og krapt. Andsýn þig gjørvallri kristni þinni, sem hennar trúfasta ráðgjafa og hjálparmann, og frelsadú øll þín børn af þeim vandrædum, sem nú eda hédan af kynnu ad mæta þeim. Gjør ad engu ráða-brugg hinna ógudlegu, en heyrdú óskir rádvandra; þegar vér erum efablandnir og ráðþrota í vorn áformi og fyrirtækjum, géf oss þá vísdóm til ad þeckja og velja það besta, og krapta til ad framqvæma það. Lát oss í øllu, sem vér gjørum, tølum eda hugsum, hafa þinn vilja oss fyrir augum og breyta eptir honum í øllu; þitt undarlega og dýrdlega ráð, leidi oss farsællega ígégnum alla mædu þessa lífs og mótlætíngar, og ad lokunum inn í annars betra heims vist-

ar-

ar-veru, hvar vér med gledisaung munum vegsama þig, og syngja: mikli og sterki Gud! Drottiñ Zebaoth er þitt nafn, þú ert mikill í rádum og mektugur í athøfnum!

## 73. Hugvekja.

Þad port er þraungt og sa vegur er mjór, sem til lífsins leidir, og þeir eru fáir, sem rata hann, Matth. 7.

Ecki verdur því neitad, ad mørg er mædan og margfaldur ordugleikiñ, sem oss mætir á fyrirsettum vegi í gégnum heim þeña til himinsins; vegurinn, sem vér gánga skulum, er ysrid mjór og portid þraungt, sem vér egum um ad fara, en hvorsu ordug og mædusom, sem gánga þessi mætti sinnast oss, er þad þó skylda vor ad velja þenna veginn, og ecki láta þær þrautir, sem á honum kynnu mæta, fæla oss af honum. Þad er ad soñu satt, værn þessar þrautir óysirvinnanlegar, og ef vér búast hlytum vid óteljandi þjáníngum og endalausri mædu, mætti þad verda efni til ørvæñunar fyrir oss, en vér høfum, eptir nærverandi ástandi voru, nóg medøl í høndum til þess, ad veguriñ verdi oss greidfarnari, strídid gédfeldara,

sem

sem vér á honum heja hljótum, og heillafull von þess, er vidtekur, þegar veginn þrýtur, gjørir allt léttbærara. Satt er þad, ad vegur þessi er mjøg ógreidur, en endir vegarins, ef vér til hans lítum, er því vegsamlegri. Øblugir eru óvinir þeir, sem vér egum hér vid ad strída, en hinn, sem med oss er, er lángtum øblugri; veikir eru vorir kraptar, en Jesú máttur yfirgnæfir vort vanmegni. Pared vér høfum nú þvílíka upphvatníngu og hugar-styrkíngu, væri þad eckért afsøkunar-mál fyrir oss, ad klaga yfir kristinndómsins ørdugleika; vér viljum því á oss taka þetta heilnæma ok, og bera þessa léttu byrdi. Allra Jesú soñu strídsmaña dæmi skulu hér til upphvetja oss; þeir hafa margir mátt reyna alla þá mædu, sem kristiñdómuriñ olla kañ, og þegar vér samanberum vorar léttu þjáníngar vid þrautir þær, sem þeir lída hlutu, hvørsu lítid eru þá ecki vorar ad reikna á móti þeirra? hvørki píslir né píntíngar høfum vér lidid fyrir Jesú sakir; hvørki høfum vér hans vegna þurft ad afneita ríkdómi, metordum né velgengni; en allt þetta og þadan af meira hlutu þeir fyrstu evangelii játendur ad lída, skyldum vér þá ecki þola vilja litla mædu eda stutt

og

og léttbært stríð, já, hvað enn þá er meira, hlaut ecki Jesús sjálfur að þola svo mikið, áður enn hann inngánga féck í sína dýrð! allt frá fæðíngu hans til dauðans, var hans líf fullt mæðu, fullt erfiðis og sorgar; ættum vér þá ecki að vilja líkjast honum einnig í þessu! fjærri sé það oss að skora oss undan að bergja á líkum kaleik og hann! vér höfum nú fyrir augsýn Guðs tekið fyrir oss þann ásetníng að umbera allann mótlæti, sem kristið líferni útheimta kann, að krossfesta vort hold með þess girndum og lystíngum, í öllu að eptirfylgja Jesú, án möglunar, og fúsir að taka þeim mótlætíngum, sem hann vill á oss leggja; ecki skal neitt ójafnt eða óþægilegt á vorri Pílagríms-reisu hræða oss frá að framgánga á þeim vegi, sem oss er fyrirsettur; nóga endurnæríngu munum vér finna, þegar vér með ráðvendni kostum kapps um að varðveita skyldur vorar; vér felum oss því á hendur þinni styrkjandi og helgandi náð, miskunsami Guð! án hvörrar vort áform mun að engu verða; efl þú oss í stríðinu við syndina, að vér ecki látum oss locka af dæmum og aðferð hinna ogudlegu: géf oss þann vís-

Dóm

dóm, ad vér ecki látum oss gina af lastana útvortis skini né vellystinganna tillockunum. Hjálpa oss ad gánga hugudum framá gudhrædslunar vegi, og loksins ad ná því takmarki, sem endar alla vora mædu, umbunar alla vora fyrirhøfn. Hvørsu rósamir munum vér þá ecki renna augunum til hins umlidna, og skoda allann þann ørdugleika, sem vér høfum yfirunnid! hvørsu kroptuglega munum vér þá ecki sannfærast þar um, ad mjói stigurinn, sem vér framgaungum á, var sá besti og beinasti fyrir oss til ens eilífa lífsins! hvørsu ástúdlega munum vér þá ecki þacka þér, ad þú leiddir oss um hann til vorrar eilífu farsældar!

## 74. Hugvekja.

### Hvørr er eg?

Þad er sú spurníng, sem vér, hvørr í sinn stad, daglega gjøra ættum sjálfum oss; því hvørr, sem aldrei gaumgæfir sitt ástand, eda hvørt hann taki framførum nockrum á dygdanna vegi, ellegar forherdist í løstum, er nærsta illa farinn. En ef vér stíngum nú hendinni í vorn eiginn barm, og rennum haunkunum til sjálfra vor, má efalaust margur af oss játa: ad allt til þessa

dags

þessa dags, høfum vér aldrei med verdugri eptirtekt hugleidt þetta efni, eda sønnu svarad uppá spurníngu þessa; vér høfum svo lengi eydt lífstundum vorum í heimi þessum, án þess ad hafa lagt alúd nockra á, ad lifa eins og vor ágvardan, Guds ord og skynsemin baud oss; en látum þad nú nóg vera, ad vér híngad til eydt høfum svo mørgum degi í vanvitsku þvílíkri, rétt eins og draumi; þessa stund skulum vér þó til þess taka, ad yfirvega med athygli tilveru vora, hvad vér séum, og til hvørs skapadir. Af sjálfum oss urdum vér ecki til, Guds almætti mindadi oss í upphafi, og gaf oss þá veru, sem vér høfum. Frá honum komu allir þeir fullkomlegleikar, sem vorri sálu og líkama veittust, og í hans valdi er ad taka þá aptur þegar hañ vill. Vor líkami er af jørdu mindadur, af jørdunni nærist hann, og verdur loksins rotnadur ad jørdu aptur. Nem því hér um eitt augnablik stadar, kristinn madur! og hugleid, hvørt þú hafir orsøk til ad stæra þig af líkama útliti þínu, ellegar upphrokast yfir adra. Sú smeckbetri fæda, sem þú máské nýtur, og þau státslegri klædi, sem þú máské bera kañt framyfir adra, gjøra þig engu dýrmætari, eñ þú í

rann réttri ert; vér erum allir áþeckir því, sem vér undir fotum trodum daglega, dupt af dupti, og jørd af jørdu, en vér erum þaradauk andi, og þó þeim óendanlega anda, hvørs eptirmind vér vera áttum, næsta ólíkir ordnir; yfrid lítid hefir skynsemi vor til ad bera af vísdómi þeim, sem honum var í øndverdu meddeildur; viljiñ hefir heldur eckért eptir af sakleysi því og heilagleika, sem hann var prýddur med; og tilhneigíngarnar gánga hjá oss svo frekt út yfir tilhlýdileg takmørk, ad þar vid eydist sálarinnar rósemi. Sá alvaldi Yfirherra, sem skapadi manneskjurnar, setti oss til þess í heiminn ad framqvæma þad verk, sem hann áqvardad hafdi einum og sérhvørjum af oss; þetta fyrisetta verk verdur, því midur! af ofmørgum forsómad, edur ad minnsta kosti gjørt verr enn vera ætti. Þad mun loksins sérhvørr af oss sanna mega, þegar ad reikníngskapar tímanum kémur, en Herrañ á óvæntri stundu kallar oss burtu hédan, og sá alvísi dómari útbýtir einum og sérhvørjum umbun eda straff, eptir því, sem einn og sérhvørr, á medan hann lifdi hér í heimi, hafdi tilunnid, þá mun þad ad lokunum auglýsast, ad vér eng-

ann-

enganuveginn gjørdum þad, sem oss bar. Svo órólega, sem þessar hugleidíngar mættu nú gjøra oss, svo rólega og fridstillta gjørir oss aptur sú yfirvegan, ad vér séum kristnir, sem egum von á ad verda ecki dæmdir, eptir strángasta rétti, fyrst vér af Jesú erum endurleystir, sem ecki einúngis bætti fyrir vorn ófullkomlegleika og afbrot, heldur útvegadi oss hylli Guds og rétt til ad heita hans børn, sem mega gledja sig hér í tímanum vid þá sælu-von, ad ødlast á sídan hlutdelld í eilífri farsæld, þegar vér áslundum ad lifa hér sem kristnir. Veri þar fyrir sú alvarlegasta ástundan vor, ad lifa svo sem kristnum sómir, efla Guds dýrd og farsæld vorra medbrædra undir eins og vora egin, ad svo miklu leiti oss er møgulegt; med hvílíkum lífernis og þenkíngar hætti, mun sérhvørr af oss efalaust smacka þá lífs luckn og ánægju, sem hann aldrei ádur þeckti. Med rósamri gledi skiljum vér þá vid lífid, þegar ad lífsins enda-dægri kémur, því samvitskan ber oss þá vitni, ad vér af alvøru høfum lagt stund á ad framqvæma í lífinu vort fyrirsetta verk, og Guds Andi mun þá sálina gledja med von dýrmætustu umbuna.

 J

I blessadri endurmiñíngu verdur þá vort nafn og miñíng á jørduñi, en vor føgnudur í eilífdinni óútmálanlegri enn nockrum hér hafdi í hug komid.

# 75. Hugvekja.

Dragdú ecki undan ad snúa þér til Drottins, og slá því ecki á frest frá einum degi til annars, því reidi Drottins mun hastarlega koma og yfirfalla þig á hefudarinnar degi, Syr. 5.

Engu efni er undandráttur hættulegri enn voru ydrunar-verki; margføld hofum vér dæmi haft, sem sannfæra um þad, og eilífdin mun á sídan sýna oss eñ fleiri óttaleg þeirra, sem burtrycktust ádur enn byrja vildu yfirbót, þared þeir táldrógu sjálfa sig; ad þeir enn mundu fyrir hondum ega lánga lífdaga, en nádu þó ecki þeim tíma, sem brúka skyldi til betrunar; sjáum vér þá ecki í huganum vora ímind á þessum óluckulegu; því er midur, vér megum vidurkénna: ad vér híngad til hofum verid allteins hyrdulausir um vora yfirbót. Guds lánglundar gédi megum vér þacka, ad oss þegar ecki er burtu kippt midt í voru andvaralausa og dofna ástandi; vér sjáum þá

háska-

háskasemd, sem vér stofnum oss í, med því ad draga undan vora yfirbót. Vidurkénna megum vér sásinnu vora í því, ad gjøra vss vissa von um ár og daga, þar sem vér varla megum reida oss uppá ad lifa næsta augnablik. Vid svo margar upphvatníngar til umvendunar, hugsudum vér ósjaldan líkt Felix: í annad sinn, þegar eg fæ tóm, vil eg snúa mér; en af hvørju vitum vér, ad oss í annad sinn muni betur farnast? festa ecki lestirnir þess meir rætur, því lengur, sem þeir æfdir eru? forherdumst vér ecki æ meir og meir vid syndsamlegann vana í löstunum, og verdum um leid því meir frábitnir því góda, og hvørr hefir sagt oss, ad vér lifad fáum þann tíma, ad vér tekid fáum sinna-skipti? mun ecki daudinn géta ryckt oss óvørum í einu vetfángi burtu? máské og ádur enn nockurr sjúkdómur bodi hans nálægd? hvad fullvissar oss um, ad Gud enn vilji láta oss heyra sína nádar-rødd, hvørja vér svo opt høfum forsmád? og hvørnig megum vér vænta þess, ad heilagur Andi enn þá hér eptir vilji klappa á dyr vors hjarta, eptir þad vér svo þráfaldlega høfum neitad honum inngaungu? nej, aldrei skulum

vér framar vera svo fásinna, ad treysta á svo óvíst; þetta augnablik, um hvørt vér med vissu sagt gétum: ad þad sé vort, skulum vér endurkaupa; á qvøldstundu þessari viljum vér nú heyra þá røddu vors Guds, sem kallar oss til apturhvarfs; hvørr veit, nema vér í nótt eda med morgundeginum fáum þá skélfandi røddu ad heyra: manneskja! þú skalt deyja og ecki lifa! æ! látum oss þá álíta oss svo sem þegar deyjandi, er vænta megum daudans á hvørri stundu, og þad nú framqvæma, sem vér vildum láta oss hugfastast, þegar vér í banasænginni liggjum fyrir daudanum; látum oss audmýkja oss fyrir Gudi, undir eins og vér vogum ad tileinka oss Jesú réttlæti, sem í daudanum verda skal vor einka huggan og styrkur! látum oss fela vora sálu þeim Gudi á vald, í hvørs høndum vér oskum henni ad hvíla, þegar hún skilst vid líkamañ! látum oss strída á móti þeim girndum, sem gjora mundu oss samvitskuñar áklaganir þúngbærar í helsottiñi, ef vér létum sigrast af þeim. O Gud! þú, sem nú vekur þessa þánka í hjarta voru, þú, sem nu minnir oss á þessa svo naudsynlegu forsjálni, géfdú oss krapta og stødugglyndi til ad framqvæma þetta, sem vér

áset-

ásetjum nú; kéñ oss að endurkaupa tíðina, og sífeldt að miñast þess, hvörsu dýrmætt, en þar hjá fallvallt og ódfluga vort líf er, svo að vér verða mættum eilíflega sáluhólpnir.

## 76. Hugvekja.

Gángið í elskunni, eins og Jesús Kristur hefir oss elskað, og sig sjálfann útgefið fyrir oss, til fórnfæríngar og offurs Guði, Eph. 5.

Ef vér hugleiða vildum, hvörsu ómmræðileg sú elska var, með hvörri Jesús, Guðs eingétinn sonur, elskaði oss syndugа menn, þá mundum vér fiña það, að um eckért ætti oss fremur annt að vera, enn að hjá oss mætti aptur á mót vekjast sá heitasti og hreinasti kjærleiki til hans, því heldur, sem það er ecki einúngis vor skylda, að elska Jesúm af gjörvøllu hjarta, heldur og vor sanna lucka undir því komin, bædi í tíma og eilífð, að vér lifum og deyjum í Jesú kjærleika; og hvörsu mikið er það ecki, sem Jesús, bædi með sínu lífi og dauda, hefir gjørt fyrir oss, svo að vér skyldum elska hann; eða hvað gétum vér ímyndað oss, að hann frekar gjøra mætti fyrir vorar sakir, enn hann gjørt hefir til

 þess

þess. ad lada til sín vora hjartans ást? gat hann lidid meira enn þann smánarlegasta og qvalafyllsta dauda, til þess ad afreka oss eilífa sáluhjálp? hvørja órækari sannfæríngu mátti hann géfa oss um þad, hvørsu heitt hann oss elskadi, heldur enn þá, ad hann oss til góda tók á sig forsmán í stad sinnar eilífu dýrdar; eymd og volædi, í stad guddómlegrar sælu, órbyrgd fyrir ì íkdom, dauda fyrir líf? hvørsu hardt, grimmt og tilfinníngarlaust er þá ecki þess hjarta, sem ecki vill elska þenna vorn Jesúm aptur á móti fyrir þvílíkañ kjærleika! ó! vor elskurìki Jesú! styrk oss sjálfur í elskunni til þín, ad hún mætti verda svo sterk, ad enginn hlutur megni ad skilja oss vid þinn kjærleika. O! vér hljótum, vér viljum elska þig, svo ad bædi líf vort og daudi vitni um vorn kjærleika til þín, þér viljum vér lifa, ó Jesú! án þess ad elska þig, er alls enga saña ánægju ad finna í þessu lífi; hvørgi er oss audid huggun edur hæli ad fá í þreyngíngum, mædu og mótlæti þessa lífs, ef ad oss ecki audnast ad vera í nád hjá þér, og vita oss undir þiñi mildiríku stjórnun. Sannfær oss æ betur og betur um þá sælu, sem sérhvørr þiñ trúr þjón og barn á í vændum. Þegar vort

vort hjarta vill leida oss afvega til að
hlýdnast heimsins tælandi girndum, lát
oss þá hugleida hvorsu viljugur þú hafir
synjad sjálfum þér jardneskrar gledi, og þar
med skuldbundid oss til ad afneita heimin-
um og eptirfylgja þér! ef ad vér rata skyld-
um í þá villu og ólucku, ad lifa í syndun-
um, minnú oss þá á þær píslir, sem syndir
vorar bökudu þér, svo þar vid leidast mætt-
um til ad fordast syndina. Ef ad vér tel-
jumst undan ad bera þann litla mótlætis
skérf, sem þú hefir oss útmælt, set þá hjarta
voru kroptuglega fyrir sjónir, þá pínu og
sjálfs afneitun, þann kross og dauda, sem þú
undirgéckst fyrir vorar sakir! þinn kjærleiki
uppfylli allt vort hjarta, stjórni voru lif-
erni og veri loksins vor huggun í daudan-
um! því hvørr daud-dagi er sáluhjálplegri
enn sá, þegar oss audnast mætti ad deyja í
þínum kjærleika, ó! Jesú? í honum og
þinni sameiningu, finnum vér óumrædileg-
ann sætleika, sem lángt yfirgengur allann
daudans biturleika. Það skal þar fyrir
vera vor stadfasti ásetningur svo ad lifa, ad
vér í daudanum mættum vera þínir; vér
viljum því slíta oss frá öllu, sem taka má
vort hjarta til fánga. Alla mátalausa elsku
til ens jardneska, viljum vér úr hjarta voru

uppræta, og eckért nema þig, kroſsfeſti og upp aptur riſni Jeſú! af gjørvallri ſálu elſka; einig þá, þegar vér ecki lengur í dauðanum gétum um nockurn hlut framar þenkt, ſkulu allar vórar hugreníngar hjá þér ſídaſt ſtadar nema, en þegar vér gaungum út frá heimi þeſſum med þeirri hugg un, ad vér deyjum í þér, munum vér efalauſt ingánga í betri heim, med þeirri ørugguvon, ad mega eilíflega med þér lifa. O! hvílíkur þánki er þetta: eilíflega ad lifa þér, Herra Jeſú! hér í heimi fáum vér øldúngis ecki ſkilid, hvørſu mikils þetta er verdt, en þegar vér inſluttir erum í vort eptirþreyda føđurland, munum vér ad fullu reyna og ſkilja, hvørſu ſæl ſú ſál er, ſem lifir þér.

# 77. Hugvekja.

Náð ſé med øllum þeim, ſem elſka Drottinn vorn Jeſúm Kriſt einlæglega, Eph. 6.

Yfirvega þú, ſála mín! med gaumgæfni og undrun kjærleika Frelſara þíns. Gáctú til Bethlehem, ſkodadú hañ, ſem er ljómi Guds dýrdar, í þénara mind, í eymdum og þreyngíngum. Fylgdú honum fet fyrir fet í gégnum hans lærdóms-

rtka

ríka líf hér á jørdunni. Sjádú hans góð-gjarna kjærleika, med hvørjum hañ læknadi sjúka, styrkti veika, hughreysti auma, og tók syndarana til nádar. Sjádú hvørnig hañ, sem þó anglýsti svo mikiñ mañkjærleika, var af mønnum offóktur, smádur, hæddur, og hvørsu saklaust og heilagt hans framferdi var, þó qvaliñ og píndur. Gack þú á eptir honum iñí Gethsemane aldingard, og horfdú á stríðid, er hañ þar hlaut ad útstanda, sjádú erfidid, sem hañ þoldi, sjádú tárin, sem hañ felldi, teldú andvørpin, sem hañ stundi fram, skodadú blódsveitañ, sem hañ úthellti, yfirvegadú þá bæn, sem hañ þar gjørdi til síns himneska fødurs, og hugleiddú, med heilagri fardun, þá hlýdni, med hvørri hañ leggur sig undir vilja síns fødurs. Haldtú eñ lengra áfram og far med honum uppá fjallid Golgata, stattú kyrr þar, á skodunar plátsi alls þess mesta, er guddómuriñ nockurntíma gjørt hefir, og sjádú þad undrunarverdasta, sem kjærleiki nockurntíma hefir framqvæmt; sjádú þeña Jesúm, síns fødurs soñ ímind, sjádú hvar hañ héck nakiñ á einu tré, á medal tveggja mordíngja, í gégnumstúnginn med nøglum, og af bødlum umkríngdur; en sjádú hvørnig hañ styrkist af kjærleik-

an-

anum í svo mørgum píslum, hvørnig elsk-
an þrýsti honum til ad leggja sig undir þess-
ar qvalir og hrærdi hañ til ad umbera þær
þolinmódlega. Siádú hvørnig hañ tæmdi
qvalaña bitrasta kaleik, og var eins fús ad
deyja fyrir sína óvini, og fyrir þá, ad taka
á sig mañdóm. Hvørnig er þad møgulegt,
ad þú, sála mín! hrærist ecki vid sjón þessa?
hvørnig er þad møgulegt, þér falli þad ørd
ugt ad taka þañ ásetníng fyrir þig, ad elska
þiñ Jesúm aptur á móti, þegar þú hug-
leidir þvílíkañ kjærleika, og þad er þó allt,
sem þiñ píndi velgjørari krefur af þér, ad
þú aptur á mót elskir sig. En hvørr kjær-
leiki getur ordid nógu sterkur, nógu brenn-
andi til þess, ad þú med honum fáir endur-
goldid þad óútmálanlega góda, sem hann
hefir gjort þér? ad sønnu er þad þér ecki
møgulegt ad elska hañ eins heitt, og hann
hefir þig elskad, en hañ krefur einúngis af
þér einlægañ kjærleika, jafnvel þó hann
veikur sé. Kom þá, sála mín! og offra
honum allri þinni eptirlaungun, allri
þinni von og øllum þínum óskum! ad
elska hann æ meir og meir med sífellt
vaxandi øruggu trausti, ad trúa á hann,
og med einlægu rádvøndu og audsveipu
hjartalagi, ad leggja þig æ viljugri og
vil-

vilјugri á hans vald. Þetta skal vera þín innileg ósk, sem þú leitist við að uppfylla. Sýndu því í daglegu framferði þínu verkanir þess kjærleika, sem þú ber til Lausnara þíns. Hugsaðu opt um það, hvörsu heit sú elska var, er hann til þín bar; spyr sjálfa þig: hvört eitt edur annað fyritæki, sem þú áformar, ellegar synd, er þér kémur í hug að drýgja, standast megi með kjærleika þeim, sem þú ert þínum Frelsara skyldug að sýna. Gleym því aldrei, að öll sú lucka og blessan, sem þú nýtur á sérhvörjum degi þíns lífs, helgast af því dýrmæta offri, sem þinn endurlausnari frambar þann dag, er hann fyrir þig píndur var; og þetta uppveki og þrýsti þér til á sérhvörju augnabliki þíns lífs, að renna augunum til Jésú kjærleika, og þacklátlega að minnast hans pínu og dauða.

# 78. Hugvekja.

Allt mitt ráð til Guðs eg set, á mér sinn vilja verða lét, mér bið eg hans miskun hlífi, heilsa, vit, líf, sál, heiður, fé, hans vernd jafnan befalað sé, nú og í eilífu lífi.

Á meðan vér erum á vegferðar-reisunni, sem oss er áqvörðuð í gégnum líf

líf þetta, er vissulega enginn lucka meiri enn sú, ad vera þess fullvíss, ad vér sífellt framgaungum undir umsjón og nágvæmri varatekt þess Guds, sem er óendanlega máttugur og miskunsamur; þad skal þvi vera vor eilíf gledi ad halda oss til hans og setja á hann vort gjørvallt trúnadar-traust; eda því skyldum vér hata svo egin velferd vora ad treysta á sképnurnar, sem eru eins vanmáttugar og vanvita og vér sjálfir erum; nej, Drottinn er vor frelsari, hann er vor leidtogi, hañ er vor verndari; hans óendanlegi vísdómur sjer og þeckir allar þær háskasemdir, sem lífi voru eru búnar, hans almætti gétur verndad oss í allri neyd og sérhvørri jafnvel mestu hættu. Gædska hans er sífellt reidubúin til adstodar, og synjar oss aldrei hjálpar í nockurri naud. Þetta høfum vér sjálfir svo margopt reynt á vorum umlídnu lífsstundum, þegar enginn madur né nockur mannleg hjálp gat oss minnstu bjørg veitt, var hans hjálp oss nálæg, og þegar enginn heyrdi þær sáru klaganir, sem vér í einrúmi leynilega frambárum af sorgbitnu hjarta, stod hans miskunar-eyra opid fyrir vorum qveinstøfum, hann

taldi

kalldi vor tár, heyrdi vora grátbeidni; og því skyldum vér þá ecki trúa á hann, og vona til hans miskunar á vorum ókomnu æfi-døgum? sífellt ámedan vér lifum í heimi þessum, erum vér umkringdir af háskasemdum, og hvørr veit hvad oss í nótt eda á næsta degi mæta muni. Vér viljum engu qvída, en afhenda oss á vald vors Guds vísu og almáttugu forsjón, hann mun fyrirsjá hættu þá, sem yfirvofir, og útryckja oss af neydinni med sínum volduga armi. Í vanvitsku vorri er vor huggan sú, ad Gud sjálfur er vor frædari, sem kénnir oss þann mikilvægasta lærdóm, sem er ad óttast hann. Miskunar-ríki Gud! vér felum vort hjarta þér á vald, gjør þad sjálfum þér þocknanlegt, upplýs vorn skilning, helga vorn vilja, og vardveit vora gjørvalla sálu óstraffanlega til þíns opinberunar-dags; en vér veik og hrasandi børn þín sjáum svo marga afvegu fyrir oss, sem leida kunna oss frá þér, margar villu-gøtur, á hvørjar vér ráfa kunnum af réttum vegi; kénn oss því ad þeckja alla afvegu, allar tálsnorur, sem gjøra kunna oss óluckulega, og vardveittú vora fótstigu ad vér ecki hrösum; kom vorum veikleika til

hjálp-

hjálpar og viðhaldtú oss á þeim sáluhjálp-
lega vegi, sem leiðir til himinsins. Þitt
auga, o Guð allrar gæðsku! líti í náð nið-
ur til vor aumra, á þessari stundu; þú hef-
ir leidt oss inn í heim þenna, þín náðar-rík
forsjon leiði oss því á réttum vegi um heim
inn. Snú ecki augliti þínu frá oss, þeg-
ar vér biðjum þig, en géf oss, fyrir vors
Frelsara Jesú sakir, allt það, sem þú sjer
oss nytsamlegt; jafnvel motlætíngum
viljum vér glaðir vel taka frá þinni hendi.
Styrk oss með þinni hjálp, og gleð vort
hjarta með þinni huggun. Þinni náðugu
stjórnun felum vér hendur, o vor Guð!
vort gjörvalla líf; yfirgéfðú oss ecki, og
tak ecki þína náðar hønd frá oss, vor Guð
og vor heilsugjafari!

## 79. Hugvekja.

Ecki að eg hafi það þegar høndlað, eður sé þegar fullkominn, eg stunda þar eptir, hvørt að eg gæti það einnig høndlað, líka svo sem eg er af Kristi høndlaður, Philipp. 3.

Þegar vér, eptir erfiði daganna, hvíl-
umst á nóttum, og njótum svefnsins
endurnæríngar, erum vér eins og dauð-
ir, án tilfinníngar og aðgætslu þeirra
háska-

háſkaſemda, ſem þá audveldlega kynnu nálægjáſt og yfirfalla oſs. Þetta áſtand vort, er næríta ſorgleg afmálan þeſs tilfinníngar- og adgjørda-leyſis, í hvørju ſála vor eydir tíd ſinni. Tilfinníngarlauſir erum vér vid ſvo marga velgjørnínga, ſem vor gódi Gud lætur oſs njóta, ſvo ad hvørki hans typtanir né bendíngar fá oſs vakid, af vorum andvaraleyſis ſvefni; dofnir erum vér til ad gjøra þad góda, og afſkiptálauſir um þær háſkaſemdir og hindranir, ſem tálma oſs í gudhrædſlunnar og dygdanna framførum. Vér gaungum fram líkt og hálfſofandi og í draumi, umhyggjulauſir fyrir því, ſem oſs mæta kann, án þeſs ad géfa þeſs gætur, hvad um vorar ódaudlegu ſálar velferd lída muni. Í þvílíku áſtandi hefir máſké margur af oſs nú lengi lifad um æfi ſkeid, og þannig ſvo ad ſegja ſofid mørg ár burt. Mál er því fyrir oſs ordid ad vakna lokſins af þeſſum hættulega værdar-dúr, og láta Guds ord og ſkynſemi vora leida oſs til ad gégna þeſſum gudlegu upphvatníngum, til adgætſlu velferdar vorrar. Láttú því, ſála mín! Guds roddu, ſem til þín talar í hjarta þínu, hafa þá verkun, ad þú ecki

 ein-

einúngis heyrir, heldur og framfylgir þeim hræríngum, sem þú finnur Guds anda hjá þér verka. Vaknadú því ecki ad eins um stund, heldur varastú ad falla aptur í sama andvaraleysis svefn, láttú þér nægja, ad þú híngad til hefir sofid burt þín bestu ár. Verkú nú árvokur, og tak vara á sérhvørri skyldu þeirri, sem Gud af þér krefur. Svo opt hefir Gud ad undanförnu til þín hrópad: vakna þú, sem sefur, og rís upp af dauda! heyr nú á þessari stundu þessa roddu, sem krefur af þér, ad géfa gjætur ad þinni velferd. Gjættú ad, hvørsu margar háskasemdir þig umkríngja, í hvørjar leti þín og svefn kañ audveldlega ad varpa þér. Sérhvørr dagur þíñar æfi, sérhvørr tími þíns lífs, bjóda þér út í nýja orustu; vak því og stríd, svo þú missir ecki þá kórónu, sem þér er heitin ad strídslokunum eptir uñiñ sigur; eda meinar þú ecki, ad endurmiñíng þiña, í andvaraleysis svefni, eyddu lífstunda, muni loksins sárlega qvelja þig, ef þú lætur þig ecki vekja ádur enn sídasti daudans svefn apturlykur þín augu? hugsa æ til þessa á hvørju qvøldi ádur eñ útaf sofnar, og lát þá tilhugsun þrýsta þér til ad bera umhyggju fyrir þiñi eilífu velferd, ádur eñ þú

lykur

lykur þínum augum. En hvørnig fáum vér þetta megnad, nema þú, vor Gud! hjálpir og styrkir oss? eins og vor líkami ad morgni dags verdur ad njóta þín ad, til þess ad géta borid sig og vidhaldist á hvørjum degi, allteins, og ecki midur, þarf sála vor þinnar hjálpar, bædi til ad uppvakna af syndanna svefni, og til ad haldast sífeldt vakandi. Æ! miskunna þig því yfir oss, miskunnarríki Gud! þú þeckir og sjer hvørsu daudir, latir, kaldsinna og óduglegir vér erum til alls góds. Upplífga því med þínum anda vort hjarta, og upphvet vora sálu, til ad brúka forsjálega sérhvørn þann tíma, sem þú unnir oss. Gjør oss adgætna um háskasemdir þær, sem sálu vorri eru búnar, og eptirtektasama um miskun þína vid oss, fúsa til ad gjøra þad góda, og áhyggjusama ad forsóma engin þau tækifæri, sem þú géfur oss til ad taka vara á frelsi vorrar sálar. Leidi þá, o vor gódi fadir! sálu vora til yfirbótar, þitt ord, þínir velgjørníngar, þínar typtanir, þín þolinmædi og þín vægd vid oss! aldrei viljum vér hédanaf strída gégn þvílíkum upphvatníngum, aldrei hédanaf láta þína nád til forgéfins vid oss framkoma; og ef ad vér skyldum

rata í þá ógæfu, að andvaraleysi og synd-
anna svefn sígi að oss á ný, veki oss þá af
honum þín máttuga föður-hönd, að vér
ekki útaf sofnum til hins eilífa dauða,
heldur ödlast mættum það eilífa líf, sem
er þín náðar-gjöf fyrir Jesúm Krist
vorn Frelsara, Amen.

# 80. Hugvekja.

Þegar þú kallar, mun Drottinn svara þér, þegar
þú hrópar, mun hann segja: sjá! hér em
eg, Esaj. 58.

Vér værum vissulega hinir óþakklát-
ustu af öllum skepnum Guðs, ef
vér framar þjóna vildum syndinni, þar
ed Jesús er fyrir hana dáinn; með því-
líkri aðferð forsmáðum vér Guðs náð,
afneitudum Guði, og vanvyrdtum voru
Frelsara, já, vér egndum þar með á ný
yfir oss Guðs straungu reiði; eilíflega
skal lángt frá oss þvílíkt óþakklæti, því-
lík skélfileg vondska! á móti vors Jesú
þægilegu upphvatníngum og ástúðlegu
löðunum, skulum vér ecki leingur forherda
vort hjarta. Af allri sálu, og með kjær-
leiksfullu hjarta skulum vér þakklátlega
viðurkénna allt það góða, hann hefir oss
gjört;

gjørt; med sífeldri æfíngu í dygdunum skulum vér leitast vid ad feta í hans fótspor, sem sitt dygdá-dæmi hefir oss til eptirbreytingar eptirlátid. Sína bitru pínu hefir hann ad sönnu fyrir oss lidid, svo sem straff vorra synda, en med heñi hefir hann jafnframt géfid oss þvílíkt dæmi uppá þær ædstu dygdir, ad þess líki aldrei fyrr né sídar fundist hefir, og þetta Jesú dygda-dæmi í hans píslum, skal æ vera oss munstur í voru líferni. Ad kappkosta ad líkjast honum æ meir og meir, er því eins fullkomin skylda vor, og hitt er vor huggan og sáluhjálp, ad hann med því, sem hann leid vor vegna, keypti oss med svo dýru verdi. Frá því ad eptirfylgja þessu vors Frelsara dæmi, ættum vér eckért ad láta oss fæla, hvørki heimsins óþacklæti, hád né forsmán; allt eins og hann, egum vér hógværd ad sýna vorum offóknar-mönnum, þøgn og medaumkun þeim, sem hæda oss, þolinmædi þeim, sem gjøra oss órétt til; ástunda sakleysi þegar vér erum baktaladir, og bidja: fadir, fyrirgéf þeim, því þeir vita ecki hvad þeir gjøra; eins og hann egum vér viljugir ad leggja oss undir þad, sem vor himneski Fadir vill vera láta, og leit-

 ast



ast vid ad verda brædrum vorum til uppbvatníngar, gagns og nota; eins og hañ, med ljúfu gédi lída hvad medþarf til almenníngs gagnsemdar, og sjái vor himneski fadir þørf á ad brúka sórar typtanir til undirbúníngs sálu vorri til hins eilífa lífsins, egum vér sjálfum oss ad afnejta, taka krossinn á oss og fylgja vorum Frelsara á eptir, eptir því, sem oss er fremst mogulegt. Ef ad vér eins og hann yrdum svo staddir, ad offra hlytum bænum og tárafollum, egum vér eins og hann, ad géfa Gudi dýrdina, og vissulega vænta þess, ad hann bænheyri oss og hjálpi til síns himneska ríkis, þó ad vér þola mættum óvina vorra baktal og ofsóknir, fyrir vor bestu verk og hreinasta tilgáng, þá látum oss ecki þarvid hindra frá ad gjøra gott. Þó ad ástvinir vorir yfirgéfi oss þegar vér erum í naudum staddir, þá umberum þann missir med gódu gédi, en styrkjum oss því framar í trúnadar-trausti á lifanda Gudi. Ef ad því koma skyldi, ad sála vor yrdi yfirgéfin, svo vér sæum eckért ljós, enga gledi né huggun, þá látum oss í þvílíkri vorri stærstu neyd hugsa til vors medalgángara qvala-hróps fyrir vora skuld:

Gud

Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig? og ecki sleppa traustinu til Guds, sem mun miskunasig yfir oss á haggværni tíd, og kroptuglega halda oss vid sinn kjærleika, þó vér í þann svipinn yrdum hans ecki varir. Og þegar loksins kémur ad vorum burtferdar tíma, látum oss þá afhenda í hans hendur vorn anda, sem hann hefir endurleyst, þá munum vér, í trúnni til hans, sigra vorn sídasta óvin. Sælir erum vér, þegar vér þannig færum oss Jesú endurlausn í nyt, þá munum vér, midt í øllum þessa lífs umbreytingum, finna rósemi, og í siálfum daudanum líf og krapt. O Jesú! þú, sem fyrir oss ert dáinn, géfdú oss nád til ad hafa þessi not af þínum dauda. Gjørdú oss alltaf þér æ líkari, og styrk oss til ad fylgja þér eins;;fúslega eptir, hvørt sem þú leidir oss á þeim vegum, sem þyrnifullir eru, eda hinum, hvar blómstrum er strád á gøtuna. Þér vid hønd framgangandi vér óhultir, því þegar vér njótum þinnar leidsøgu, mun enginn afvegur fá oss leidda af rétta veginum. Leid oss, elskulegasti Jesú! eptir þínu rádi, og medtaktú oss loksins til þinnar dýrdar, Amen.

# 81. Hugvekja.

Þér elskanlegir! hafi Gud elskad oss þannig, þá erum vér og skyldugir ad elska hvørr annann, 1 Jóh. 4.

Vér erum skyldugir ad bera bródurlegann kjærleika hvørr til annars, svo sem þeir, er Jesús hefir endurleyst, og hvørjir vera vilja hans lærisveinar og eptirfylgendur. Hvørsu hjartanlega hefir hann ecki elskad oss, og miskunad sig yfir oss? skyldum vér þá ecki miskun audsýna medbrædrum vorum? fyrir vorar sakir fórnfærdi hann sínu lífi, fyrir oss úthellti hañ sínu blódi; hvørnig fáum vér þá endurgoldid þessum vorum sálar vin alla hans trúfesti, sem hann hefir oss audsýnt? o! eckért høfum vér, sjálfir allsþurfandi, þad, sem vér fáum endurgoldid honum med. En þó vér af elsku til hans, mettum vorn húngrada bródur, dryckjum þann þyrsta, klædum þann nakta, komum þeim undirokada til adstodar, vill hann þó meta þad, eins og vid sjálfann hann gjørt væri. Med fúsu hjørta skulum vér láta í ljósi vid hann þetta merki, og þeña vott, vors þackláta hjartalags. Hann gjørdist forlíkari fyrir vor-

vorar syndir, þó ecki einúngis fyrir vorar, heldur og fyrir allra manna syndir; munu þeir þá ecki allir, hvørjum hann þvílíkann kjærleika audsýnt hefir, vera eins dýrmætir, eins mikils metnir af vorum Endurlausnara, og sérhvørr af oss, og því skyldum vér þá forsmá nockurn einn af þessum, sem hann hefir svo ástkjæra, og vyrdir svo mikils? eda skulum vér skammast vor ad kalla þá vora brædur, sem Jesús ecki blygdast ad kalla svo? nei, fjærri sé því; hvornig kynnum vér ad tilheyra Kristi, ef ad oss skortir þau kénniteikn, af hvørjum hans lærisveinar þeckjast ega? ef ad vér ecki sífellt høfum oss fyrir augum hans dæmi til eptirbreytni? vér viljum því ástunda ad verda svo sinnadir, sem hann, og kappkosta ad láta hans kjærleika verda í oss kroptugann; svo ad vér, ef Guds vilji krefur af oss þetta offur, fúsir láta kynnum lífid fyrir brædur vora. En vér grátbænum þig, ó þú eilífi kjærleiki! ad þú sjálfur viljir gefa oss og innræta hjarta voru þetta hugar-far; án þinnar nádar yrdum vér sífellt allt eins kjærleikslausir, vanþacklátir og óstødugir, og vér hingad til verid høfum; en þegar

þinn kjærleiki drottnar í voru hjarta, og þinn Andi stjórnar oss, þá leidumst vér framvegis til þvílíks sinnislags, sem hvörjum kristnum vel sómir. Géf oss náð ad ebla þad, sem vídfrægja megi þína dýrd, og gjör hvörn af oss í sinn stad þér líkann í hógværd og mannelsku, ad vér ad þínu dæmi mættum þá leida á réttann veg, sem villir fara, vidrétta fallna, hughreysta auma, og snúa syndurum aptur til þín. Hvörsu mørg tækifæri frambýdur oss ecki sérhvørr dagur vors lífs til ad vera þad í raun og veru, sem vér heitum: gódir kristnir menn! mørgum veikum mundum vér hjálpad fá, marga villuráfandi leidrétt, marga hrasandi studt, og marga óluckulega gjørt luckusæla, ef vér legdum ástundun á þvílík kristileg gódverk. Mørgum mundum vér med bænum vorum géta ordid ad notum, þó vér ecki med ødru fengjum þeim hjálpad. Æ! láttú, gódi Jesú! skyldu þessa verda vors lífs mikilvægasta fyrirtæki, sem vér øllu framar kappkosta mættum ad uppfylla! vér upplyptum til þín vorum hjørtum, og bidjum þig ad álíta allra þinna endurleystu naudþurftir. Þegar vér framgaunguni med rádvendni fyrir þínu

aug-

angliti, vyrdstú þá ad líta nidur til vor í nád, og géfa oss þá blessun, sem þú hefir afrekad og lofad ad veita oss; og þegar vér, í naudum og vandrædum staddir, felum þér á hendur vor efni, og bidjum þig um vorar naudþurftir, vyrdstú þá nádarsamlega ad bænheyra oss af himnum ofan, og veita eptirþreyda hjálp, þá mun þitt dýrdarfulla nafn dýrkad og tilbedid verda, af ollum þínum trúudu børnum, nú og til eilífdar.

## 82. Hugvekja.

Gud vill, ad allir menn verdi sáluhólpnir, og komist til sannleikssins vidurkénníngar, 1 Tim. 2.

Svo eru þau hjálpar-medøl mørg og krøptug, sem nádarríkur Gud hefir oss í tje látid, til frelsis sálum vorum, ad vor er eintóm skuldin, ef vér ecki færum oss þessi medøl verduglegá í nyt, og sjálfa mættum vér sáriega naga oss og ásaka, ef vér færum þeirrar farsældar á mis, sem oss er géfid ad ega vissa von um ad ná; allt hefir Gud þad gjørt, sem verda mætti til hjálpar oss, en sjálfir høfum vér ecki þyggja viljad hjálpina. Allir hans velgjørníngar og rádstafanir

um oss hafa til þess midad, ad gjøra oss sáluholpna, enn sjálfir høfum vér unnid svo, ad vor fordæming aukast mátti. Allt hvad Jesus leid, hefir hann lidid til ad frelsa oss frá løgmálsins bølvun, en hvørsu opt forsmádum vér ecki, friviljuglega þá blessun, sem hann afrékadi oss! hann lét eckért ógjort, er oss leida kynni til betrunar, en vér forherdtumst því framar; hann vildi vora sáluhjálp, en vér sjálfir fordæmíngu vora; hann vildi géfa oss himininn, en vér fávísir dárar, vér voldum þann veg, er oss leida mátti í hinn olucklegasta samastad; um þetta munu á sídan alltofmargir eilíflega ófarsælir brixla mega sjálfum sér, þad mun þá naga þá, og þad mun óaflátanlega þeirra píslir auka. Med þvílíkum ákløgunum mun þeirra egin samvitska fordæma þá, og þeir sjálfir vidurkénna þann Guds dóm réttvísann, sem yfir þeim gengur. Jesú blód, sem þeirra vegna einnig úthellt var, mun yfir þeim hefnd hrópa. Sá ødrum huggunar-ríki þánki, ad þeir séu endurleystir, fær ad eins aukid á sorg þeirra, og eilíf en of sein ydran mun þá sífellt qvelja. En vér, vér lifum enn, og enn þá má yfir-

bót

þót vor og ydran verda oss nytsamleg, og þó allsvaldanda Gudi þócknadist nú ad burtryckja oss úr heimi þessum, mættum vér þó játá, ad hann allt hefir til þess gjort, ad vér verda mættum sáluhólpnir, en þar hjá vidurkénna þverúd vora og forakt vid hans nád; vér mættum sanna dóminn réttvísann, sem hann yfir oss uppsegir. En þú, þolinmódi miskunnar-ríki Gud! þyrmdú oss enn, já, géfdú oss enn þá tíma til ad ydrast vors óþacklætis og þverúdar! vorar syndir, med hvørjum vér vanvyrdt hofum Jesú forþénastu, ógna oss; æ! lát vora særdu samvitsku, finna rósemi, finna huggun vegna þeirra písla, sem vor Jesús þolad hefir. Lát oss ecki leidast til ørvæntingar af áklogunum samvitsku vorrar, heldur finna hugar-hægd í því forlíkunar blódi, sem vor Endurlausnari hefir úthellt; og hafi sú qvøl, sem hann vor vegna þoldi, híngad til verid ávaxtarlaus á sálum vorum, æ! lát hana þó ecki verda þad hédan af; allrasíst þegar ad því kémur, ad vér yfirgéfa skulum heim þennann. Láttú þér ecki leidast, med þinnar nádar sáluhjálplegu verkunum, ad hræra vort hjarta, og géf ad þad hlýdid,

vil-

viljuglega fylgi þinni roddu; en þú, vor dýrmætasti Endurlausnari! vyrdstú óaflátanlega ad bidja fyrir oss, og med þínum guddóms krapti ad beygja vor hjørtu. Þó oss synjad verdi allra heims heilla og gledi, viljum vér med rólegu gédi umbera þad, þegar ad eins þín pína ecki verdur á oss ávaxtarlaus; lát hana æ vera vora einustu huggun í lífinu, vorn styrk í lífsins þreyngíngum og mótlæti, og loksins vora endurnæríngu í daudanum, einkum þá, þegar umlidnar syndir hrella oss, þegar vor vaknada samvitska ógnar oss, þegar grafarinnar og dómsins nálægd gjørir oss óttafulla. Æ! vertú oss þá nádugur, o Jesú! og styrk oss med krapti þíns dauda, ad fá sigradann allann ótta, hrædslu, efasemd og ógnanir, Amen.

## 83. Hugvekja.

Eg held alla hluti skada ad vera, á móti ágæti þeckíngarinnar vors Drottins Jesú Krists, Philipp 3.

Híngad til höfum vér svo lengi hugsunarlaust lifad um syndir vorar og straffid, sem vér höfum fyrir þær verdskuldad, ad fáum sinnum hefir oss þad í

hug

hug hvarflad, er vekti hjá oss minnkagu vorra misgjörda, en hvörsu mjög mætt-um vér þó ecki óska oss, ad fram-ana ecki alltaf í svo strøffunar-verdu þánka leysi, þar þó einhvörntíma mun ad því koma, ad margfjøldi synda vorra verdi oss ber-lega settur fyrir sjónir; þegar samvitsk-an loksins vaknar af andvaraleysisins svefni, mun vort tilfinníngarlausa hjarta þó loks finna til sinnar eymdar, og guð-dómlegrar reidi-þúngi leggjast svo sem óbærileg byrdi á sálu vora; og þó ad þetta beri nú ecki svo brádlega ad, mun-um vér þó síst verda eins rólegir og um-hyggjulausir og nú, um afdrif vor, þegar daudinn nálægist. O! þá mun allt þad ógnarlega, sem flýtur af andvaraleysinu, sameinast, og sú byrdi samvitskunnar, sem vér nú finnum svo lítid til, verda oss tvøfaldt þýngri; þegar vér þá sjá-um óteljandi fjølda synda, sem vér drýgt høfum, þegar all-nálægur daudi, og dóm-ur ogna oss, þegar engin rósemi er fram-ar í vorum beinum, né huggun í hjarta voru, hvada vægdar, hvada hælis er þá ad leita eda vænta fyrir oss, nema í þinni dýrmætu pínu, o Jesú! med hvörri þú forlíkad hefir fyrir vorar syndir. Eink-is-



isverdt munum vér þá finna þad, sem vér ádur brúkad høfdum til ad frida og svæfa med samvitsku vora; forgéfins munum vér þá leita allra medala til rósemdar sálu vorri; eckért, øldúngis eckért, munum vér þá reyna ad géti styrkt eda gladt oss deyjandi, nema daudi og pína vors Drottins Jesú Krists. Allt þetta vitum og þeckjum vér nú fyrirfram, en því leitum vér nú ecki þegar, fyrr enn sótt og daudi ad kémur, þessarar kroptugu huggunar? því látum vér hann ecki í lífinu vera vort einasta athvarf, sem í daudanum má einn vera vor einasta sáluhjálp, ef vér viljum klaklaust afkomast; því leitum vér oss ecki nú þegar á heilbrygdu døgunum rósemi fyrir sálu vora, ádur enn ángistarinnar tími ad kémur? nema þú sjálfur, gódi Gud! hrærir og tilreidir vor hjørtu, munum vér til endaloka fram-ana í vorn andvaraleysi; settú oss því skírlega fyrir sjónir syndir vorar, svo ad vér skélfast megum fyrir þeirri bølvun, sem þitt løgmál hótar oss, og þeirri reidi, sem vér bøkum oss med sømu yfirtrodslum; en hugga þar hjá vort hjarta med því, ad afmála fyrir oss þá fridþægíngu, sem skén er fyrir þinn Son Jes-

Jesúm; láttú oss í honum finna hreinsun vorra synda, og frelsun frá fordæmíngu. Þú hefir, o Gud! útgéfid hañ til frelsis øllum syndurum, svo ad í engum ødrum er sáluhjálp ad finna nema honum einum; veri því hann, sem endurleysti oss af syndum og eymdum vorum, øll vor huggan og von; allt vort traust setjum vér til hans miskunar, sem forlíkadi fyrir allar þær misgjørdir, er vér drýgt høfum og drýgja munum! þitt alskygna auga sjer fyrir þær syndir, sem vér í qvøld eda á morgun munum styggja þig med; en þyrm oss vegna vors Frelsara Jesú Krists! med hans adstod viljum vér fordast allar syndir, og ástunda ad framgánga med rádvendni fyrir þér. Styrk oss í þessum ásetníngi, svo ad vér lifa mættum þér til dýrdar, þér, sem ert daudur og upprisinn fyrir oss, þá mun hvad helst, sem ad høndum ber, verda oss ad lokunum heillasamt og gott, þegar vér fullvissir erum um þína vernd og þiñ kjærleika bædi í tíma og eilífd.

## 84. Hugvekja.

En þér erud komnir til fjallsins Zion, og til borgar Guds lifanda, til hinnar himnesku Jerúsa-

 lem,

lem, til englanna mørgu þúsunda, og til safnadar og samkundu frumgétinna, hværra nøfn skrifud eru á himnum, og til Guds, sem er allra dómari, og til medalgaungu-manns hins nýja Testamentis, Jesúm, Ebr. 12.

Vér, sem egum ecki hér í tímanum nema stutta stundar-dvøl, gétum engaunveginn gjørt oss ljósa þánka um eilífdarinnar varanlegleika, þó vér margfalda vildum þá stærstu tølu, sem vér fáum nefnt; ó! þó vér reikna vildum hvørt sandkornid í sjónum á móti þúsund árum, og mæla þar eptir eilífdina, gétum vér fyrir þad enga greinilega ímindun gjørt oss um hana, hví eilífdarinnar ára-tala hefir engann enda; þessi oss óskiljanlegi varanlegleiki eilífdarinnar, skal vera oss kroptug upphvatníng, ad haga þannig øllum vorum fyrirtækjum og athøfnum á medan vér lifum í heimi þessum, ad vér gódri hlutdeild námn í eilífdinni, og lifa mættum þennann ókomna ára-fjølda fullsælir. Jafnvel þó vér fáum ecki med þessum líkamans augum sjed sælu þá, sem hinir réttlátu hlotid hafa í bústødum útvaldra, viljum vér því optar yfirvega þad, sem helløg ritníng hefir oss um þeirra

þeirra áſigkomulag opinberad, og þar af leita oſs fullkomnari viſſu um þeirra ſælu. Þó himinin ſé oſs en þá ſem okéndt land, viljum vér þvíyduglegar vyrda fyrir oſs vors Guds og Frelſara kjærleika, ſem hefir heitid oſs í honum eilífri ſælu-viſt. Vér viljum yfirvega þær mikilvægu útréttíngar, ſem han hefir gjørt til þeſs ad áviña oſs í himninum eignar-rétt; þá oútmálanlegu mædu, ſem Jeſús undirgéckſt til þeſs, ad fá oſs verduglega tilreidt undir viſtarveru þeſſa ſama-ſtadar, ſem þó koſtadi hañ ſvo margar andvarpanir, ſvo mørg tár og ſvo bitrañ dauda, ſkulum vér ſetja oſs fyrir ſjónir. Þar af fáum vér gétid nærri, hvørſu mikil ſú ſæla vera megi, ſem vér njóta munum í eilífdinni. Fiñiſt tídin oſs laung, þángad til vér náum iñgaungu í þeña ſælu-ſtad, rennum á medan augunum þángad á undan oſs, og íhugum, hvørſu lítill og ómerkilegur tíma-púnktur oſs vyrdaſt muni, jafnvel hinn leugſti manns-aldur á jørdunni, þegar vér lifad høfum í þeſſari ſælu þúſundſinnum þúſundir ára; en vér þurfum ecki ad renna þaunkunum ſvo lángt til ókomnu tímaña, til ad ſañfæraſt um, hvørſu ſtutt líf þetta er; látum oſs ad

eins ſhuga, hvorſu ódum þau ár eru út-
runnin, ſem vér lifad høfum híngad til;
hvorſu margir medbrædra vorra líf ſitt
enda munu á þeſſari nóttu, og máſké ein-
hvorr af oſs, þegar vér minnſt ætlum,
verdi í þeirra tølu, ſem daudinn á henni
yfirfalla kann. Vor heilbrygdi líkami
géfur oſs enga fullviſſu um þad, ad vér
aflifad fáum þeſſa nóttu; margir af þeim,
ſem eins heilbrygdir og vér, løgdu ſig til
hvílu ad qvøldi, láu kaldur nár, ádur enn
morgun-ſólin yfir þeim upprann; eda
má ecki margur af oſs, ſem erum til ára
komnir, einatt finna til umbreytíngar og
veikleika í líkama ſínum, ſem þegjandi
mætti vekja oſs grun um þad, ad vér
høfum ecki ad ſtola uppá lánga lífdaga?
og hvørnig fáum vér vidurkénnt þenna
ſannleika, og þó undir eins framgengid
í ſinnuleyſi, og þó undir eins bundid vorn
huga vid þad jardneſka, og þó undir eins
verid umhyggjulauſir fyrir eilífdinni?
en ſvo er þó varid voru blindada hjarta;
ſérhvør ſannfæríng um daudans ná-
lægd, gjørir ad eins mjøg litla verkun í
ſálu vorri. Vér framgaungum á med-
al enna deyjandi; vér finnum ſjálfir, ad
vér daudlegir erum, og þó lifum vér eins
'og

og vér alls engann missir hefdum ad ótt-ast; vér metum vora stuttu tíd svo lítils, eins og vér vænta mættum, ad gjørvöll eilífd væri hér vid jørdu bundin; inprenta þú, o Gud! þan sanleika djúpt í vorar sálir, ad vor hérvistar tíd er stutt, svo vér mættum vitrir verda; kén oss ad hugleida, ad líf þetta er eckért, en eilífdin allt. Styrk vora trú, svo ad vér æ hlýdum þér, en ecki heimsins flárádu ginníngum; láttú vor hjørtu æ vera hjá þér, hvar vor fjársjódur er, og bera ad eins møguleguslu umhyggju og ástundun fyrir því, ad oss eilíflega megi vel vegna.

# 85. Hugvekja.

— Auga þitt, Drottinn! á mig sjer, allstadar ertú nærri mér.

Efalaust hlýtúr sú íhugan ad vera þeim ógnarleg, sem elska lestina, ad Gud er alvís og allstadar nálægur; hvørsu óttafullur má han ecki verda, þegar han hugleidir, ad Guds alskygna auga sjer þær andstyggilegu syndir, sem í leyndum drýgjast, og ad allar ránglætíngar eru honum augljósar, sem huldar vera kynnu fyrir manna-sjónum; hvørsu mætti hon-

um ecki bregda vid, þegar hann hugsar um þad, ad þessi Gud þeckir alla þá ránglátu vegu, sem hann gengid hefir, øll þau smánarlegu medøl, sem hann brúkad hefir til framqvæmdar sínum fyrirtækjum, ad hann sjer hans leynilega hatur, hans girnda bruna, hans hulduslu lystíngar og alla hans hjartans þánka? og þegar hann þá yfirvegar, ad þessi Gud, fyrir hvorjum øll vidurstygd hans lastafulla hjarta er opinber, hefir endalaust og otakmarkad vald til ad gjora sáluhølpinn og til ad fordæma, og ad engin manneskja fær umflúid hans straff, hvørsu má hann ecki syndarinn skélfast vid þessa umþeanku? en svo ottalegt, sem þad hlýtur ad vera fyrir þann motviljuga syndara, ad vyrda fyrir sér Guds allstadar nálægd og alvitsku, svo huggunar-ríkt er þad fyrir þig, sála mín! þegar þú med ótta og forsjálni framgengur rádvandlega fyrir augsýn Guds; hvørsu hughraust ertú þá ecki, þegar þau tilfelli bera ad høndum þér, sem gjora kunna þig orólega, þó menn baktali þig eda dæmi med kjærleiksleysi, hvørsu gledilegt er þá ecki ad géta sagt med **Job: mitt vitni er á himnum;** þegar þú kémst í vandrædi

þau,

þau, sem þú ecki treystist ad ráda fram úr, en allir þínir vinir yfirgéfa þig, og þú finnur hvørgi hjálp, hvílík huggun er þá ecki ad hugleida þad, ad Gud er þinn trúfasti ástvinur, sem aldrei mun yfirgéfa þig? þó ólucku tilfelli flycktust ad þér á allar sídur, hvørsu huggunar-ríkt er þad ecki fyrir þig, fáir þú þig hughreysta med því, ad hann sé hjá þér, í hvørs hendum ad standur þín lucka og ólucka, og ad hann stjornar øllum tilfellum sinna barna þeim til velferdar? þegar þú í leyndum ákallar Gud þinn, hvørsu styrkist þá ecki þín trú, þegar þú hugleidir, ad hann géfur gætur ad bænum þínum og skilur þíns hjarta heimuglegasta andvarp? þegar þú tekst á hendur umhyggju þeirra yfirgéfnu, fátæku og naudstoddu, án þess þú gjørir þad odrum opinbert, hvørsu má þad ecki gledja þig, ad Gud adgjætir þitt gódgjørdasama hjartalag, og telur allá þá velgjorníngа, hvørjum þú í leyndum útbýtir? þegar eittsinn ad því kémur, ad þú leggst í þína sottar-sæng, yfirgéfinn af allri mannlegri hjálp; ó! hvørsu audveldt mun þér þá ecki veita vid ad skilja, þegar þú hugleidir, ad Gud og Jesús er þér nálægur, og

 sier

sjer þína daudans ángist, og er reidubúinn ad frelsa þig frá øllu vondu? O Drottinn vor Gud! géf þína nád til þess, ad þessar hugleidíngar aldrei hvarfli oss úr hjarta, géf ad heilagur ótti fyrir þinni allstadar nálægd megi þreyngja sér inn í vora sálu, svo opt, sem syndarinnar táldragandi freistíngar vilja locka oss afvega, en þar hjá veri íhugan þinnar nálægdar, vor huggan og traust í ølluum þessa lífs mótlætíngum. Sértú med oss, hvørr kann þá ad vera á móti oss? standir þú oss til hægri handar, erum vér øruggir og óqvídnir, hvad sem ágengur.

## 86. Hugvekja.

Vor borgar-réttur er á himnum, Philipp. 3.

Vér høfum enn þá á qvøldi þessu endad einn dag vegferdar reisu vorrar, í gégnum líf þetta til eilífdarinnar, og einn dagur sømu reisu er oss fyrir høndum ad nærsta morgni, spari Gud þángad til lífsstundir vorar; allteins og Pílagrímar eda vegfarendur erum vér í heimi þessum, hvar vér egum ad tilreida oss undir annad betra líf. Ecki er því ad neita, ad ótti og skélfing má hjarta vort uppfylla,

fylla, þegar vér hugleidum ørdugleika reisu þessarar og vegarins óþægtlegleika, vors holds fordjørfun og vanmátt vorn; hvørsu andveldlega kunnum vér ecki á afvegu villast, og missa sjónir á fødurlandinu, sem vér képpumst til? hvørsu margir eru þeir ecki, sem géngid hafa þenna veg á undan oss, er látid hafa sig leida afvega af vegarins ørdugleika og dæmum hinna ógudlegu? og megum vér fyrir því óttast, ad þared hold vort er veikt, en tilloekanirnar til hins vonda miklar, ad vér víkja kunnum af þeim vegi, sem vér áttum ad gánga. En, ó Jesú! þú, sem einninn gjørdist vegfarandi hér á jørdunni, vertú hjá oss, og leid oss, svo ad vér víkjum ecki af þeim fyrirlagda veginum á fordjørfunarinnar villustiga! ef ad heimsins blindandi sjónhverfíngar ætla ad locka oss, þá láttú oss skoda med upplýstum augum þá sønnu farsæld, sem hinum er vís, sem þér eptirfylgja. Þó ad svo margir verdi þér ótrúir, láttú oss þo ætíd finnast í tølu þinna sønnu lærisveina; ætli jafnvel vort egid hjarta ad leida oss afvega; þá vertú því jafnan máttkari med þínum bendíngum. Ef daudans dalur, um hvørn vér gánga eg-

um, ógnar oss, þá láttú oss æ grilla ljóma þess stadar, hvørs innbyggjarar vér eilíflega verda egum. Alltaf verdum vér þó ecki Pílagrímar hér á jørdu, vor vegferdar-reisa mun loks enda taka, vér munum ad lokunum komast til þess fødurlands, sem oss er áqvardad á himnum. Lát oss þángad renna þaunkunum, þegar oss tekur ad finnast vor Pílagríms-gánga of lángvarandi, og hugga oss í sérhvørri þessa lífs mædu og motlæti vid þad, ad vér nú þegar med trúnni fáum hér í lífi tekid nockra hlutdeild í þeirri fullsælu, sem vér egum í vændum á himnum, já, þegar hér í lífi erum vér sælir. Vér verdum hér á jørdunni þegar varir nockurs parts þeirrar farsældar, sem á sídan mun umbuna mædu vora og erfidi Vors Fødurs kjærleiki, Jesú Krísts náð, og heilags anda sameiníng styrkir oss; nú þegar finnum vér verkanir guddómlegrar velþocknunar og huggana þess komanda heims. Géfdú oss náð til ad styrkjast æ betur og betur vid þessar og þvílíkar heilsusamlegar hugleidíngar þá stuttu tíd, sem vér enn egum fyrir høndum ad ráfa á þessum sjálfs afneitunar og reynslu vegi. Hjálpadú oss sjálfur sífeldt ad taka vara á þeirri skyldu, sem verdá á vor

ydja

ydja og vor sáluhjálp á sídan í himninum, vor umgengni, vor laungun, vor von, vor lucka veri þar, hvar vér óskum oss lengst ad búa! láttú þá dýrd, sem þú þar hefir afrekad oss, vera oss øllum hlutum dýrmætari, svo ad vér aldrei førum heñar á mis, vegna óvidurqvæmilegs framferdis. Géf oss nád til, þegar hér á jørduñi, ad verda í hlýdninni, audmýktinni og kjærleikanum líkir þeim fullkomlega réttlátu, í hverra umgengni vér á sídan fagna munum; og þegar vér loksins komnir erum vora Pílagríms-reisu til enda, þá leid oss, sem þína kjørnu himinborgara, iñí þitt dýrdar ríki, til ad njota þar ad fullu þeirrar sáluhjálpar, sem vér hér á jørdu í trúñi væntum oss.

## 87. Hugvekja.

Hvørnig skal eg endurgialda Drottni alla hans velgjørninga, sem hann hefir audsýnt mér? Psálm. 116.

Ef vér íhugudum velgjørninga Guds, med þvílíkri alvørugéfni, sem Davíd, þá mundum vér og, vid sérhvørs umþenkingu, jafnvel hins minnsta velgjørnings Skapara vors, fiña yfrid nóg efni til ad taka undir med Davíd: Drottinn!

inn! hvørnig á eg ad endurgjalda þér alla þá velgjørnínga, sem þú hefir audsýnt mér? vid lífs vors náqvæmari yfirvegun finnum vér yfirgnæfanlega orsök til, ad kannast vid hans óþreytanlegu velgjørdir. Ef ad vér verdum þeirra ecki svo optlega varir, er einúngis vor óadgætsla, vort tilfinníngarleysi og óþacklæti skuldin; því engin tími lídur svá, ad egin reynsla vor láti oss ecki þreifa á gædsku Guds; og þo ad eckért væri annad enn vor andardráttur, þá verdskuldar þó þessi velgjørníngur, svo lítill, sem hann í fyrstu sýnist, óendanlegt þacklæti, og hvørnig fáum vér þá minnst einúngis eins tíma, án þess, undir eins ad minnast hans gódgirni? jafnvel nú á þessum tíma, sem vér brúkum til þessara heilegu hugleidínga, megum vér vidurkénna: hvørnig fáum vér endurgoldid alla Drottins velgjørnínga, sem hann hefir oss audsýnt? og hvad megum vér þá ecki segja um þá daga og þau ár, sem vér aflifad høfum? Drottinn! vér kunnum ecki ad segja annad enn þetta: ad vér séum óverdugir allrar þeirrar trúfesti, sem þú hefir látid oss í tje, og aldrei kunnum endurgjalda þér þína velgjørnínga. Því hvar med gæt-

gætum vér goldid allt þad góda, sem þú hefir vid oss gjört? máské med voru þacklæti? já, þó ad vort þacklæti væri svo óendanlegt, og svo heitt eins og hans kjærleiki, væri þad enginn betalíngur. Máské med voru framferdi? já, ef ad vér ecki værum svo syndugar sképnur, sem án hans adstodar eckí megnum ad lifa honum þóknanlega; máské þá, þegar vér í eilífdinni verdum Englunum samlíkir? en jafnvel eilífdin sjálf, er ofstutt til ad prísa hans gædsku, og sjálfra Englanna lofsaungvar of veikir til ad dýrka hann verduglega. Allar sképnur, sem eru á himni og jordu, mega undir þá játníngu taka: hvornig skal eg endurgjalda Drottni alla hans velgjorníngá, sem hann hefir audsýnt mér? Vér viljum þó, hvørr í sinn stad, vidurkénna þetta til dýrdar þinni gædsku, og játa med **Davíd**: Drottinn! minni er eg allri þeirri miskun og trúfesti, sem þú hefir audsýnt þínum þénara. Ad sonnu er vissulega enginn sannleiki audsjáanlegri enn þessi, en þegar vér géfum gætur ad flestra manna framferdi, þá mættum vér leidast til ad efa þetta satt ad vera. Fjoldi þessara til nádar teknu skopudu sképna, láta hjarta

síns

síns drambsemi og óþacklæti þannig villa sig, ad þeir gleyma þeirri undirgéfni, sem þeir áttu Gudi ad sýna, og jafnframt sínum lítilfjorlegleika og vanmætti, já, gleyma Drottni, sem þá skapad hefir. Hvørsu naudsynlegt er þad því ecki, ad vér sífeldt innprentum hjarta voru, hvørsu óverdugir vér erum Guds nádar og hans velgjorninga, og vanmegna til ad endurgjalda þá; en innprenta þú sjálfur godi Gud! þetta sinnislag sálu vorri, svo ad þín gædska og vor overdugleiki, sé oss sífeldt fyrir augum; lát oss, vid sérhvørn velgjorning, sem vér medtøkum af þinni ástríku hendi, líta til þín, sem høfunds allrar vorrar lucku, med audmýkt og þacklæti njóta þinna velgjørda, og því framar, sem vér lærum ad þeckjá, hvørsu vanmegna vér séum, til ad endurgjalda þinn kjærleika, því ákafari lát þú oss vera í því ad þjóna þér, og því innilegar sýngja þínu nafni lof. Lát oss æ fúsa færa þér offrid, sem þú eitt krefur fyrir þína velgjorninga, med gledi fórnfæra sjálfa oss þér, med øllu því, sem vér høfum til, já, prísa þig med sálu og lífi, sem eru þín eign.

88. Hug-

# 88. Hugvekja.

Hvørt ert þú?

Hvad erum vér, vesælar sképnur, þegar vér samlíkjum oss vid þañ óteljanlega fjølda Guds skopudu sképna? hvorsu lítid, já øldúngis eckért verdur úr oss med øllum vorum hroka, þegar vér skodum oss siálfa grandgæfilega? hvad erum vér? ormar, handfylli øsku, dupt-korn, sem eckí gétur stadist hægañ vindblæ, og þó svo vesælir dyrfumst vér ecki ad sídur, svo opt ad setja oss upp á moti vorum almáttuga skapara, og þessi vor óendanlegi skapari ber þó jafnmikla umsorgun fyrir oss, og hinum stærstu siña handaverka. Hans almáttuga hønd, sem uppiheldur óteljanlegum veraldar hnøttum, vidheldur eiñig oss; hans vísdómur, sem áqvardar kóngaríkjanna kjør, stjórnar einnig øllum vorum kjørum. O! hvorsu nádarsamlega lítillæckar Gud sig til vor, sem erum þó ecki nema skuggi. Því lætur hann sér svo annt vera um ormsins luckú? því leitar hann tídum ár eptir ár lítils-verdra sképna, og þad svo fúslega? hvad vinnur hann vid þad, þo sála vor frelsist? hvorki kann hann fyrir þad verda sælli né dýrdlegri;

legri; og hvad missir hann þó vér yrdum fortapadir? eldúngis eckért, þvi þó ad vér og allir menn glotudumst, er samt tala hans rikis innbyggjara óendanlega stór, til ad vegsama hans miklu verk og vidfrægja hans dýrd um alla eilifd. Nem hér stadar, sála mín! og líttú med lotníngu og undrun inn í Guds miskunar-djúp. Elska, ógripanleg elska, er þad, sem hrærir eilífann Gud til ad líta nidur til vor, og gjøra oss hluttakara sinnar sælu. Hans Sonar pína, med hvørri vér erum forlíktir, géfur oss fullvissu um þad, ad Gud elskar oss, og ad vér af honum væntа megum himinsins farsældar. Lofadur og tilbedinn sértú af oss, miskunarríki Gud! Drottinn er mildur og gódur, hans vegir eru eintóm miskun og sannleiki, þeim, sem halda hans sáttmála og hans vitnisburd, lofad veri nafnid Drottins fyrir þad, ad hann stýrir oss og efnum vorum, ecki eptir vorum fávísa hugþotta, heldur eptir sínum vísdómi! ad hann hendlar vid oss, ecki eptir vorum syndum, heldur eptir sinni miskunsemi! Vér undrum med audmýkt og gledi þínar heilnæmu ráds ályktanir til vorrar luckn, já, undrum mikilleik þinna miskunsemda;

þad

það yfirgengur vorn skilníng, að þú, eilífi Guð! kallar oss, sem ecki erum nema hisinn og þó þínir óvinir, til sælu þiña dýrdlegu útvøldu, en hitt má þó samt vera oss ógrípanlegra, að vér oktum svo lítils þessa miskun og forsmáum þá himinsins sælu, sem þú frambýdur oss. O nei! svo skulum vér ecki lengur breyta, med hrærdu hjarta vidurkéñum vér þiñ elskuríka tilgáng, og viljum ad vorn leiti, svo framt oss er mogulegt, stunda til hans framqvæmdar. Þú útbreidir þiñ fadm á móti oss; vér viljum flýta oss til þín, og láta oss af þér umfadma. Þú gjörir allt hid besta, til ad draga oss til þín, viljugir viljum vér koma og fylgja þinni ástúdlegu tilladan. Þú frambýdur oss himnaríkis sælu, vér viljum eptir henni képpast, og meta því lítils hid jardneska. Þessi skal vor ásetníngur, þessi vor kappsamasta ástundan vors lífs alla vora daga hédan af. O Jesú, vor Drottiñ og vor Gud! hjálpa þú oss sjálfur til ad ødlast þessa sáluhjálp, hvorja þú hefir afrekad oss med þínu dýrmæta blódi; því hvad notar oss øll jardnesk vegsemd og velgengni, ef ad vér ødlumst ecki á sídan í himninum, þá eilífu arfleifd, sem vér egum eptir ad képpast á medan vér lifum hér í heimi?

T 89. Hug-

# 89. Hugvekja.

## A Jólum.

Mikil eru verkin Drottins, hvad hann skickar, þad er loflegt og dýrdlegt, Psálm. 111.

Þessa játníngu megum vér gjøra, um sérhvørja rádstøfun og verk Guds, allt hvad hann vill og verkar, þad er alltsaman mikid og dýrdlegt. Allt eru þad verkanir hans óendanlega almættis, vísdóms og gædsku. Allt er þad meira enn vor veika skynsemi fái gripid. Mikid er þad verk Guds, ad géfa oss mønnunum lífid, en mikid er og þad, ad hann lætur orminn lifa í duptinu. Lofleg eru þau undrunarverk Drottins og dýrdleg, med hvørjum hann vidheldur øllum lifandi og lífflausum hlutum, er hann skóp, en allteins dýrdlegt og loflegt er vidhald sérhvørrar sképnu fyrir sig. Mikid var þad verk Drottins, ad hann fastsetti og nidurradadi sólarinnar og stjarnanna vissa gángi, en mikid er og þad verk Drottins, ad áqvarda sérhvørri manneskju í heiminum, sín vissu kjør og tilfelli. Loflegt og dýrdlegt var þad verk Drottins, ad senda braud af himni og vatn af hellum̃i,

en

en allteins dýrdlegt sýnir sig hans almætti í því, ad géfa ávøxt á jørdina og vatn í brunninn. Allt hvad Gud gjørir er mikid loflegt og dýrdlegt, hvørt þad er í því stóra eda smáa, á himni eda á jørdu, allt ber þad vitni um hans óendanlega vísdóm og almætti, allt stefnir til þess, ad hann prísast kunni fyrir þá farsæld og gledi, sem hann útbreidir yfir sitt gjørvalla ríki. En øllu framar má þó þessi lofsaungur Davíds um verk Drottins, ega heima um holdtekju Guds Sonar, sem er þvílíkt Guds verk, er yfirgéngur øll ønnur, og er oss þessvegna því ógrípanlegra; en því andsjáanlegri eru oss og í þessu dásemdarverki margir Guds eginlegleikar. Hér lærum vér ad þeckja þá alvitsku Guds, sem med undrunarverdum vísdómi fann føllnu mannkyni hjálpar-medalid, og framqvæmdi eins addáanlega þad, sem hans vísa rád hafdi ályktad, syndugum heimi til frelsis; hann géfur, í persónu síns eingétna Sonar, mannkyninu Frelsara og endurlausnara, er því á ný veiti mista farsæld, og leidi þad til himinsins. Med því ad Guds eilífi Sonur tók á sig mannlega náttúru, og frambaud sig í mannanna stad, sem

 þeirra

þeirra fríviljugañ borgunar-mañ, mátti hañ þeirra vegna fullnægju gjøra Guds réttlætis krøfum, og sameiníng guddómsins vid Jesú mañdómlegu náttúru gjørir þad, sem Jesús leid og gjordi til heimsins fridþægíngar, ómetanlega dýrmætt í augum Guds; hvørsu megum vér ecki dást ad því vísa rádi Guds, sem hañ þetta fullkomna frelsis medal, er eins ljóslega vottar nád hans og miskun, og heilagleika hans og réttlæti? o! hvørsu ljóslega sýnir sig eiñig almætti Guds í holdtekju hans sonar? hañ verdur gétiñ af heilogum anda, og fædist af meyju; hañ verdur hluttakandi mañlegs holds og blóds, ey þó ecki syndariñar, sem þó vill loda vid hold vort og blód jafnan. Hañ er, sem sonur Guds, svo náqvæmlega sameinadur mannlegri náttúru, ad vér nú, eptir Ritníngariñnar orda-tiltæki, sagt gétum: **Gud er í holdinu opinberadur**; hvørr fær sér í hug leidt, ad þéssi undur Jesú holdtekju, hefdu skéd gétad, án þess ad guddómlegt almætti hefdi þad verkad? já, hér megum vér vidurkéña, ad Gud stiptad hafi endurmiñíngu siña dásemdar verka, sem englar og menn med heilagri undrun mega tilbidja. Ecki sídur lærum vér ad þeckja hér í holdtekju

Jesú,

Jesú, trúfesti Guds og sannsögli. Hans vísdómi þocknadist ad opinbera mönnum fyrirfram, þetta sitt áqvardada ráð. Fjögur þúsund ára lidu þángad til Messías kom, frá því fyrst var géfid fedrunum fyrirheitid um hañ, og á hinum sídustu árunum vyrdtist, sem heityrdi þessi mundu aldrei framkoma, þegar Guds fólk var herleidt í framandi land, og Davíds ætt, af hvørri Messías skyldi fædast, var komin í fátækdóm og vanvyrdu; en ecki ad sídur byrtist loksins hin fyrirheitna Israels huggun. Frelsari þjódanna kom med öllum þeim kénnimerkjum, sem fyrirsögd vóru. Hann fæddist á medal þess sama fólks, af sama ættlegg, og fyrirspád var, ad hann koma mundi; hann birtist á þeirri tíd, og med þvílíkum atburdum, sem gjördu hann audþecktann frá öllum Adams nidjum. Þannig sýndi Gud sig hér í sannordann, hvørs lofanir ecki bregdast, svo sannadi hann trúfesti sína, med hvørri hann á sérhvørjum heims aldri annadist mannkynsins velferd. En einkanlega sýnir sig í Jesú holdtekju sá guddómlegi kjærleiki og miskun, oss til allra bestu huggunar. Ihugan Guds vísdóms og almættis, sem er svo augljós þar vid,

 má

má maklega uppfylla vort hjarta heilagri undrun, en þegar vér undir eins rennum augunum til sjálfra vor, skodum oss, svo syndugir, aumir og lítilsverdir, sem vér erum, og samanberum vorn audvyrdilegleika vid ómælilega hátign Guds, uppfyllist hjarta vort, sem vonlegt er, ótta og skélfingu; og reñum vér augunum til Guds elsku og miskunar, upplifgast vort hjarta aptur af fagnadarfullu þacklæti vid Gud: uppá þessa elsku Guds til syndaraña, uppá hans óumrædilegu miskunsemi vid mañkynid, opinberar Jèsú holdtekja oss þad ó-rækasta dæmi; hér auglýsir Gud sig, sem Gud, ríkañ af miskun, vegna siñar miklu elsku, med hvørri hañ elskadi oss frá eilífd í sínum syni Jesú Kristi, og himin og jord kuñgjora oss kjærleika Guds. Skøpun og vidhald allrar veraldar sañar, hvørsu hañ elskar sín handaverk, ad hans nádar-ríkt forsjon lætur sig varda um hagi vora. sjer oss fyrir lífsins naudsynjum og lífsins lystisemdum; þetta ber vitni um þad, hvørsu honum sé añt um mañeskjuna. Sú hjálp, hañ audsýnir oss, þegar vér erum í vandrædum, sú blessan, med hvørri hañ farsælir vor fyritæki, géfa oss um þad fullvissu, ad himnaña alvaldi Gud er vor

elsku-

elskurîkur fadir, og sú þolinmædi og umburdarlyndi, sem hañ hefir med oss veikum, vottar nóglega hans vorkunsama kjærleika til vor veikra maña; í einu ordi: allt hvad Gud frá fyrstu skopun gjørt hefir á øllum øldum vid mañkynid, er og vottur þess, hvorsu Gud hafi mañeskju kjærar; en sú elska hans, sem er opinberud í sendingu hans sonar í holdid, yfirgengur øll oñur Guds miskunar og kjærleiks verk, hún gengur lángt yfir alla manulega skynsemi. Hér er sá eingétni sonur fødursins, sem útgéfiñ er heiminum til frelsis; hér er sá heilagi og saklausi, sem ágvardadur er til synda forlíkunar; hér er sá alleina sæli, sem í holdinu uppá sig tekur fátækt, veikleika og eymdir; hér er himinsins Herra, sem gjørist géstur og framandi á jørduñi, hvar hañ á ecki hæli, er hañ megi høfdi sínu ad halla; og vegna hvørra lætur hañ þvílík elskuñar undur í ljósi? føllum í heilaga undrun og tilbidjum Gud! Þad er fyrir oss meñina, já, til sáluhjálpar syndugum heimi, hefir Gud svo mikiñ kjærleika audsýnt, ad senda siñ son í holdid, til þess ad leida oss frávillta til hans aptur, svo ad hañ fengi tekid oss seka aptur til nádar, og svo ad hañ fengi í tíma og eilífd veitt

oss svo mikid gott, ad vér aldrei hætta skyldum ad prísa hans elsku, og til alls þessa sendi Gud oss sinn son. O! mikil eru verkin Drottins! dýrd sé því Gudi í hædum, fridur er á jørdu, og því er hjá mønnum Guds velþocknan!

## 90. Hugvekja.

### Á sídasta dag ársins.

Drottinn hefir mikla hluti vid mig gjørt, hans nafn veri eilífliega vegsamad! Lúc. 1.

Sé nockurr sá dagur ársins, sem oss vekja ætti til alvarlegs eptirþánka, er þad víst þessi, sem endar þad. Þegar vér ferdast høfnum eins lángann spøl vegferdar vorrar, og heilt ár er, edur 365 dagar, er þá ecki tilheyrilegt, litla stund vid ad staldra, og líta til baka til vegarins, sem farinn er; kannské sú adgætsla yrdi ecki gagnlaus fyrir oss í framtídinni, á þeim vegi, sem enn máské ófarinn sé, og hvad er þad þá, sem oss kémur fyrir sjónir á þessa aflidna árs vegi? efalaust þad, sem sérhvørr af oss nægast reynt hefir, hefdi hann veitt því eptirtekt, nefnilega: velgjørníngar Guds og hans óbreytt gædska, sem á sérhvørjum dags morgni

þess

þess árs, sem nú er nær því endad, var ný og fersk yfir oss. Farsæla finnur nú sérhvørr af oss vid ársins enda þá vegu, sem forsjón Guds leiddi hann um á umlidinni árs tíd; miskun vóru þeir eintóm og náð. Þetta vidurkénna nú med verdugu þakklæti þeir af oss, sem allt árid út notid hafa lífsins ánægju í húsi sínu, af ununarsamri umgengni med ekta maka og börnum, og hvørra lífs næríngar útvegu forsjon Guds hefir svo blessad, ad þeir nægtir hafa til síns og sinna lífs vidurhalds; þetta vidurkénna nú þeir af oss, sem á þessu umlidna ári ratad hafa í hættur og háskasemdir, ellegar vandrædi þau, sem þeir sáu sér engann bjargar-veg frá ad komast, en urdu dásamlega frelsadir, þegar naudin adþreyngdi sem mest. Þetta vidurkénna jafnvel þeir sjúku og sáru, sem stunid hafa undir þúngri líkamans vanheilsu á þessu ári, en fundu fridandi endurnærîngu og huggun í eymdum sínum, einúngis í Jesú lærdóma huggunar-ríku fyrirheitum; já, hvørr er sá af oss, sem ecki finni þad og vidurkénni, þegar hann rekur med nákvæmri athugasemd þenna sinn nýfarna lífs-feril, og skodar hvørsu hulin hönd

Guds hafdi náqvæm afskipti af ollum vorum høgum, og stjórnadi þeim dásamlega á stundum? hvorr af oss má ecki, segi eg, vid endurmiñíngu mánada, vikna og daga þessa aflidna árs, taka undir med Maríu Jesú módur: Drottinn hefir mikla hluti vid mig gjort, hans nafn veri eilíflega vegsamad! en, ef ad oss eru nú vid árs endiriñ svo audsjáanlegir allir þeir velgjorníngar og gædska Guds, sem vér notid høfum allt árid út, má oss jafnframt reka miñi til hins, hvorsu vér vórum óverdugir þessara velgjorninga. Hvors samvitska má nú ecki blygdast, sem uppriſja vildi fyrir sér medhaldslaust allar þær syndir og misgjordir, sem hann árlángt drýgt hefir gégn gódum Gudi, sem gjordi oss á því svo mikid og margt gott? má ecki sérhvorr af oss í þessu registri fiña syndir, drýgdar af ásetníngi eda ávana? syndir í gjordum, í ordum og hugreñíngum? syndir á móti bodordum Guds? og þómá sérhvorr þeirra synda einkum var verda vid þessa eptirgrenslun, sem helst á hañ stríddu, og vaniñ gjørdi hañ svo æfdañ í, ad hañ traudlega fékk af þeim látid. En hvad mikid er þá ecki og þad góda, sem vér á þessu ári forsómad høfum af því, er

vér

vér hefdum gétad gjørt, og Guds nádar-rík forsjón gaf oss tækifæri til? þessi ad-ferd vor og framferdi þetta gjørvallsa ár, má vid ýtarlega ransókn vora maklega fylla oss ótta og skélfingu. Hvorninn mundi oss vegna, ef vér ættum vid ársins enda, ad standa þañ reikning, sem einusiñi liggur fyrir oss, fyrir domstóli Guds, fyr-ir brúkun nádar-tímans á þessu ári, sem Gud unnti oss til þess, ad vér á honum leidast mættum af nægd hans nádar-ríku velgjørda til ad elska hañ, og efla vora egin og vorra medbrædra farsæld? þetta ár, sem ber þó svo mørg áþreifanleg merki hans gædskuríka kjærleika, þad hofum vér brúkad honum til módgunar, en oss sjálf-um og ødrum tídum til ólucku, og hvørt mundi þá dóms atqvædid, er þessir gædsku Guds og nádar-tímans foraktarar, med øllum rétti, mættu vidbúast? efalaust ei-líf útskúfan frá Gudi. Ad þessi dómur er ecki þegar yfir oss uppqvediñ, er engañ-vegiñ dygdum vorum eda verdskuldun ad þacka, já, engu nema óþreytanlegri þolin-mædi og lánglundar-gédi þess Guds, sem ecki vill syndarans dauda, er oss syndug-um til ómælilegrar gledi, hefir géfid jafn-vel mestu glæpa-moñum þad huggunar-

ríka



ríka fyrirheit: ad á hvørjum þeim degi, sem sá ógudlegi snéri sér til hans, vilji hañ miskuna honum; sem hefir unnid þad til vors frelsis, ad útgéfa siñ eingétiñ Son í pínu og dauda. Í hans nafni snúum vér oss nú til þín vid ársins enda, eilífi miskunsemdanna Gud! med sannri hjartans ydrun, fyrir þíns sonar skuld, sem bætti saklaus fyrir oss seka. Byrdstú ad fyrirgéfa oss allar vorar syndir, sem fleiri eru á þessu ári drýgdar, eñ oss fái rekid miñi til. Lofadur vertú og blessadur, fyrir alla þá náð og óverdskuldada velgjorninga, sem þú hefir oss á þessu ári í tje látid, og leyf oss, gódi fadir! ad enda þad med þeirri hugaunar-ríkustu fullvissu og von, ad þín endalausa gædska muni med ársins enda, sist á enda komin, heldur upprenna ný og ferskt yfir oss, med upprennandi næstu Nýárs-sól.

# 91. Hugvekja.

## Á Nýári.

Gud! til þín var, mér varpad allt frá módur-lífi, þú hefir borid umhyggju fyrir mér, Ps. 71.

Undir þessa Davíds medkénningu tekur eftirtarlaust á þessu Nýárs qvøldi,

qvøldi, sérhvørr af oss, sem minnist þess, hvørsu nádarsamlega hann leiddur ér af forsjón Guds, allt frá fædíngunni fram á þetta ár. Allar vorar afliðnu lífs-stundir bera minnisverd merki þess, hvørsu Gud á himnum hefir reynst oss sannkalladur fadir; hvørr af oss fær upp-talid, þegar hann skodar sitt umlidna líf, allt þad góda, sem Gud hefir vid hann gjørt, einúngis á þessu seinast lidna ári, hvørsu hann stjórnadi vorum tilfellum med vísdómi og gædsku, hvørsu hann bætti vorar þarfir, blessadi vora atvinnu, farsældi vor fyrirtæki, vardveitti oss í háskanum, þyrmdi oss vid allri ólucku, sem jafnvel vor afbrot stofnudu oss svo tídum í; allt vottar ad hann hefir ecki slitid til þessa dags, umhyggjunna fyrir oss, sem hann tókst á hendur, strax og vér innkomum í heiminn. Frá eilífd hafdi hann ályktad, ad bera umønnun fyrir lucku vorri. Hans alvitska þeckti fyrirfram tilveru vora, eins og allt þad, sem þéna mætti til vorrar lucku, því all-ir vorir dagar, vitnar Davíd, vórn í hans forsjónar-bók skrifadir, þeir ed enn verda skyldu. Hans alvísa ráð, ó þú manneskja! áqvardadi fyrirfram, fæd-

íng-

íngar-stad þinn, og fædíngar-stund; hann sá fyrir uppheldi þínu, þannig, ad af því flaut þad lífs ásigkomulag og ástand, sem þú lifir nú í; hans verndar-auga vakti yfir þér í úngdæminu, svo ad þitt úngdóms gjálífi vard þér ecki ad slísum; ad þú hefir sídan klaklaust og án nauda afkomist, þad áttú Guds mildu forsjón ad þacka. Hann, sem er rádandi sérhvörs tilfellum á jørdunni, hann afstýrdi þeim hættulega sjúkdómi, sem svipt hefir adra lífinu, svo hann ecki grandadi þér; hann gaf þér nægilegt lífs-uppheldi, þegar adrir vesluðust upp af skorti og húngri; hann unnti þér allt umlidna árid ánægjusamra og rólegra daga, í skauti þinna ástkjærustu vina og náfrænda, þegar adrir medbrædur þínir á sømu tíd velkjast hlutu í sjáfarins bylgjum, edur lifa ángistarsømu lífi fyrir strídsins eydileggíngum, og nú hefir hann loksins látid þig útenda í sømu rósemd, einn dag af þessu nýja ári; þessi, eins og allir vorir okomnu dagar, er í hans bók skrifadur; þar fyrir einnegin hinn sídasti lífdaga vorra. Þín mánadatala er hjá Drottni, segir Job, hann hefir sett þér víst takmark, og yfir þad kémst þú ecki. Efalaust mættum vér meiri qvíd-

boga

boga bera fyrir adkomu þessa vors endadægurs, ef vér væntum þess skyndilega; en hvílík huggun fyrir þig, kristna manneskja! ad daudi þinn er ágvardadur ad rádi þíns Guds, þegar hann sjer þér hentugast vid ad skilja. Þú mátt trúa því, og hugga þar vid, ad hann, sem svo náqvæma føburlega tilhlutun hefir audsýnt sig ad hafa med lífi þínu, mun ecki jidur vera þiñ fadir í daudanum; med øllum sínum atvikum er þinn andlátsdagur af honum áqvardadur fyrirfram, hvort hañ skal adkoma seint eda snemma, á sjo eda á landi, ámedal framandi eda vina, á þessu byrjada edur ødru ári, eptir lángvarandi sjúkdóm edur og hastarlega; þessi og oteljandi fleiri tilfelli, sem hér med eru sameinud, og þér mega á andláts-tíma verda mikilvæg, hefir þinn vísi og godi fadir svo fastsett, og þeim þannig fyrirfram nidurradad, ad sem nytsamast verda kynni fyrir velferd þína, vini og vandamenn, sem eptir lifa. Ecki kallar hann þig einu augnabliki fyrri í burtu, enn hann sjer ad besti tíminn fyrir þig, sem hann beid eptir, er kominn, ecki leggur hann á þig meira í helsóttinni, né lætur þig lengur lída, enn hann sjer vel-



velferd þín útkrefur, allt hlýtur þad eptir hans vilja ad þéna þér til besta. Hvört þessi dagur, sem enda á líf vort, adkoma muni á þessu eda ødru ári, vitum vér ecki. Guds alvísu gædsku prísum vér fyrir þad, ad hann hulid hefir þennann dag fyrir oss; en, látum þá, án þess ad gjora oss um hans adkomu nockra ángistar þánka, þessa óvissu, sem vér sveymum í um hann, géfa oss vid árs byrjunina þá hugvekju, óqvídnir fyrir daudanum daglega vid honum ad búast; en þessi vidbúnadur er í því innifalinn, ad hvörr einn af oss leggi allt kapp á ad afléggja þá lostu, sem hann veit sig hneigdann til, en stundi eins alvarlega ad taka framförum í dygdum og mannkostum, sem láti sig í ljósi í voru daglega líferni, einkum med því, ad efla af mætti annara lucku og velgengni jafnt vorri egin, og gjora og studla til svo mikils góds á medal brædra vorra í heiminum, sem vér megnum, ad dæmi vors Guds, sem audsýnir sérhvörjum af oss svo mikinn kjærleika; þegar vér ástundum ad brúka þannig sérhvörn dag þess ný-byrjada árs, megum vér fyrirfram fullkomlega vona, ad þad verdi oss luckuár, því þá megum vér fyllilega reida oss

med

med oruggu trúnadar-trausti uppá Gud, sem í sinni hendi hefir vor ókomnu tilfelli og stýrir þeim ollum oss til besta; hvort sem oss mætir á því sorg eda gledi, medlæti eda mótlæti, sem vér aldrei med egin varúd eda vitsmunum vorum fáum hindrad, erum vér í hendi vors Guds, sem er vor fadir, og vér vitum og reynum, ad hann aldrei lætur sín born til skammar verda, sem med hlýdnu hjarta fulltreysta honum; og þó daudinn mæti oss á þessu ári, erum vér þar um allteins sannfærdir, ad sá dagur, sem hann ákvardar ad enda skuli vort líf, sé af honum fyrirsjedur hæfilegastur tími til vorrar burtferdar. Vér afhendum oss þá í hans mildi-ríku fodur-hond, óttalausir, fyrir þessa sídasta óvinar adkomu, þared Gud vissulega bædi mun taka sér á hendur umhyggju fyrir vorum eptirlifandi ástvinum, hvort sem þad eru vinir eda nánustu vandamenn, og leida oss um daudans dymma dal, úr þessu útlegdarlandi inn í vort eptirþreyda fodurland, þared oll vor afbrot eru oss fyrir Jesú dauda fyrirgéfin. Í hans nafni bidjum vér þig, vor fadir á himnum! ad vardveita þessa trú stoduga í vorri sálu,

allt þetta ár út, œ! lát því þessa vora auð-mjúku bœn, í þessu sama Jesú nafni verda oss já og Amen!

# 92. Hugvekja.

## A sídasta Vetrar-dag.

Hvorr hann situr undir skjóli hins hærsta, og undir skugga hins almáttuga, sá segir til Drottins: mitt traust og mitt slot, á hvorn eg vona, Ps. 91

Sá, undir skjóli þess hærsta, og skugga hins almáttuga, má sérhvorr af oss vidurkénna, ad hañ setid hafi þessa umlidnu Vetrar-tíd, sem nú lídur út; qvídandi máttum vér, sem vonlegt var, byrja Veturiñ, þegar vér settum oss fyrir sjónir þau hættu tilfelli mañlegs lífs, sem oss á honum búin vóru; þá hørdu veduráttu, sem venjulega fylgir Vetrar-tímanum í voru kalda landi, og ollir opt møñum og sképnum tjóns og hættu á sjó og landi. Med ángistarsømu auga leit efalaust margur fátæklíngur, vid Vetrarins byrjun, til tímans, sem þá fyrir hondum var, þegar hañ hafdi þad ecki fyrir augum sér, sem nægja vyrdtist til atviñu sér og sínum, né klœdnad til skjóls í vetrar-kuldanum. En eilíflega vegsamadur sé vor gædskuríki

al-

Almáttugi fadir! sem eñ þá þetta aflidna missiri hefir audsýnt oss sina trúføstu umhyggju, já, látid oss saññfæraſt um ſina guddóms forsjón, er leiddi oss ſvo dáſamlega gjørvallann Veturinn út, til nálægs tíma, ad engin olucka mætti oss, né nockur háſkaſemd grandadi; ſú ørláta hond, ſem útbýtir fædſlu allri lifandi ſképnu, og ſjer fyrir næríngu þeim fuglum, er fljúga um í vetrar-kuldanum, var fyrir oss ecki aptúrlukt. Forsjón vors Guds og umhyggju megum vér miklu framar prísa, eñ forsjálni vora, ad vér lidum enga naud, né þúngañ atviñu breſt þeña aflidna Vetur, og ecki einúngis hefir vors Guds náqvæma umhyggja alid oss fyrir þorfum vorum um þessa Vetrar-tíd, heldur eiñig fyrir ánægju vorri og gledi. Liffins lucku og unadsemdar hofum vér adnotid í áſtúdlegri umgengni vina vorra og vandamaña, ſem gløddu oss og hughreyſtu, þegar eitthvad motdrægt eda ørdugt ad hondum bar; en þegar eitthvørt þad mótlæti eda mæda hendti oss, ſem hvørki ſjálſir vér né vinir vorir fengu rádid bót á, þegar þær naudir adbáru, úr hvørjum vér ſáum enga frelsis von, og vor úrrædi urdu þau ein, ad flýja med audmjúkri bæn á

nádir vors Guds, hvorjum aldrei verdur rádafátt í vandrædunum, né nockurntíma um megn ad hjálpa þeim naudstöddu, þá fundum vér, já, med sannri hjartans tilfinníngu og þacklæti játum vér það, þá þreifudum vér á því, hvörsu eyru vors miskunar-ríka födurs stódu æ opin fyrir vorum qveinandi harma-klögunum, og hans almáttugi armleggur var þá útréttur til hjálpar og frelsis oss, er vér vórum í naudum staddir. Vitni þad hvörr af oss í sinn stad, hvört hann, þegar hann af trúudu hjarta bad Gud, fór nockurn tíma óbænheyrdur frá honum, eda leitadi hans forgéfins, svo ad hann hvörki fengi rauna-léttir né endurnæríngu í eymd sinni! en segi oss þad nú einegin samvitska vor og sú endurminníng umlidinnar vetrar-tídar, sem uppritjar fyrir oss gædsku Guds og velgjörnínga, er vér á henni medtókum, hvört vér höfum verdskuldad þvílíka fodur-umhyggju, sem vér reynt höfum ad Gud hefir fyrir oss borid, eda svo náqvæm afskipti af högum vorum, oss til lucku og blessunar? hvörr af oss þarf lángrar umþenkíngar til andsvara þessari spurníngu? Allir vér, hvörr med ödrum, megum fortakslaust játa, ad vér á aflidinni vetrar-tíd, eins og á ödr-

ødrum lífs-stundum vorum, høfum til straffs og hegníngar unnid af Gudi en engra velgjørnínga. Fyrir hvørsu márgar syndir, drýgdar á aflidnum Vetri, hefdum vér nú ecki ydrun ad gjøra vid Vetrarins enda, ef vér gjættum þess? syndir, sem því midur margur hvørr drýgdi af ásetníngi, syndir af vana og tilhneigíngu, sem vér þó þecktum ad stygdu voru góda fødur, er vér, hvørsu sem syndgudum honum á móti, fundum þó ad hjartanlega elskadi oss, og ól fyrir oss trúfasta oñ? og jafnvel þó náð Guds, sem kroptug hefir reynst í vanmætti vorum, hafi vardveitt suma af oss frá vísvitandi syndum, megum vér þó allir, hvørr med ødrum, játa, ad vér þrálega syndgudum af gáleysi og brádlyndi; en, hvørsu mikid gott høfum vér þar hjá forsómad af því, sem vér áttum ad gjøra og gátum gjørt? þegar vér íhugum med verdugum eptirþánka framferdi vort á umlidnum Vetri, og géfum undir eins gaum ad því, sem oss á honum mætt hefir, má oss ecki einúngis miklast lánglundargéd Guds og óþreytanleg þolinmædi vid mannanna vondsku, heldur enn framar hans ómrædileg náð og miskun vid oss syndarana, sem erum

hans nádar óverdugir. O! því framar, sem vér megum nú véra sañfærdir, bædi um vorn óverdugleika, og um hans þolinmædi og nád vid oss, því framar ætti nú ríkdómur hans miskunar ad hafa hjá oss þá verkun, sem hann tilætlar; en, eptir engu ødru eñ egin lucku vorri leitar hans trúfasti kjærleiki, þar til midar allt hans umburdarlyndi med syndum vorum; þar til midar hans náqvæma umhyggja fyrir vorum høgum; þar til mida allir vors Guds óteljandi velgjørníngar, og allt, sem hañ lætur oss mæta í þessu lífi; allt á þetta undir hans stjórnun ad leida oss til farsældar, en þessarar lucku fáum vér þó aldrei ordid adnjótandi, nema vér séum í sátt vid Gud, hvør einka medalid til þess ad komast í sátt vid hañ, og ná aptur vinfengi hans, fyrir syndara, sem af sér brutu hans nád, ad ydrast af hjarta syndaña og bæta sitt líferni; sú ydran er uppbyrjan vorrar lucku, sem mildi Guds leidir oss til, med nádar-ríkri medhøndlun siñi. O! látum þá ecki þvílíka nád vors Guds til vorra heilla verda forgéfins. Nú þegar oss er í fersku miñi vid Vetrarins enda bædi gædska hans, sem leiddi oss Veturiñ út, og þær syndir, sem vér á honum drýgt

høf-

høfum, sem svo eru margar og miklar, vogum vér ecki ad renna augúnum til þess komanda sumars, án þess ad leita fyrirgéfníngar á þeim med hreinni ydrun. Vér snúum því, vid Vetrarins lok, hjarta voru og munni til þín, miskunsami gódi Gud! lofadur, eilífllega lofadur og vegsamadur sértú fyrir þad, ad þú hefir lofad oss lifandi ad enda þenna Vetur! lofadur vertú fyrir alla þá náð, náqvæma umhyggju, miskun og trúfastann kjærleika, sem þú hefir oss á honum látid í tje! lofadur vertú fyrir alla oss á honum veitta óverdskuldada velgjørníngar! en vér fáum þeirra ecki minnst án þess, ad sú endurmínníng veki hjá oss blygdun yfir þeim syndum, sem gjørdu oss þeirra óverduga. Æ vór gódi Fadir! vér høfum eckért vesælir ad bæta fyrir oss med; uppá þína náð, sem óendanleg reyniist sérhvørjum, er til hennar flýr med ydrandi hjarta, og í trausti vors endurlausnara Jesú, er bætti fyrir vorar syndir, erum vér aumir ad øllu leiti komnir. Í hans nafni vogum vér ad bidja þig, ad fyrirgéfa oss allt þad, sem vér á afliðinni Vetrar-tíd høfum brotid á móti þér, og vort trúnadar-traust til þín, hvørn vér reynt høfum svo gædskurríkann fødur, er þess fullørugt,

ad þú munir uppgéfa oss alla vora miklu skuld, þegar þú sjer ad oss af hjarta ángrar þad vonda, sem vér drýgt höfum, og einsetjum oss einlæglega ad verda hér eptir betri. En, þú þeckir vorn óstødugleika best í því góda, þér er kunnugastur vanmáttur vor til ad framqvæma þad. Þinn kraptur, almáttugi Gud! gjøri oss stødugan, og efli oss veika í øllu gódu! med fulltrausti um þína nádugu bænheyrslu þessa, endum vér þenna blessada Vetur, og væntum oss af nád þinni, farsælla í hønd farandi Sumartíma, en þegar vorrar hérvistar Vetrartímar loksins enda taka á jørdunni, styrkt þá hjarta vort ørugg trú og von um þad, ad vér egum þá fyrir høndum umbreytíngalausum gledi-tídum ad fagna í þinni dýrd, sem aldrei mun enda taka.

## 93. Hugvekja.
### A fyrsta Sumar-dag.

Befala þú Drottni þína vegu, og vona á hann, hann mun því vel til vegar koma, Psálm. 37.

Eptirlaungunina, ad vita fyrirfram hvad á okomnu tímunum mæta muni, finnur sérhvørr af oss í sálu sinni, og er þessi eptirlángan ecki ósjaldan blønd-

ud

ud ótta og qvída fyrir þeim mædu-tilfell-
um mannlegs lífs, sem vér sjáum fyrir
möguleg edur og líkleg ad til bera kunni.
Vid tímanna umbreytíngar, vid ára og
missira-skipti, verdum vér hvad hellst
varir hjá oss þessarar eptirlaungunar,
þegar vér rennum augunum fram á veg-
inn til þeirra tíma, sem fyrir höndum eru
og vér egum út í ad gánga. Þad er því
náttúrlegt, nú vid tímanna breytíngar og
uppbyrjun nýrrar Sumar-tídar med þess-
um degi, þó oss hvarfli í huga sú spurníng:
hvad mun sérhvörjum af oss á þessu
Sumri ad höndum bera? ad sońu höfum
vér á þessum degi óskad sjálfum oss og
hverr ödrum lucku legs Sumars, en þeg-
ar vér reńum þanukunum til hińa marg-
víslegu tilfella mannlegs lífs, má ecki
undra, þó qvídi fyrir ógédfeldum, ásamt
verda kuńi vort hlutfall. Sá, sem glad-
ur og ánægdur byrjadi Sumarid í morg-
un, spyr því: hvört hann muni þad og í
sama ásigkomulagi fá útendad? mun eg
heilbrygdur fá Sumarid aflifad? mun
eg ánægju njóta af ástvina minna sam-
búdum þetta Sumar út? munu mín fyr-
irtæki luckast og mínir næríngar útvegir?
mun eg eins frí vera Sumarid út, og ná

í dag fyrir mædu og eymdum? sönnleidis spyr sá, sem vid lífsins mótlætingar á ad strída: munu mínar eymdar stuudir eñ ecki enda taka á þessu Sumri? mun sama rauna byrdi, sem nú tekur til ad verda óbærileg á mínum herdum, ecki af þeim létta Sumarid út? uppá enga af þessum efasömu og óttablöndudu spurníngum, fær nockurr eiñ af oss med vissu svarad; en, svo órolegir og qvídandi, sem vér verda megum, vid umþeukíngu ókomña tilfella á þessu Sumri, svo megum vér þó þannig andsvara sjálfum oss, ad vér verda megum óqvídnir fyrir hvörju helst tilfelli, sem oss gétur ad höndum borid, nefnilega: allir vorir dagar standa í hendi Guds, allir vorir ókomnu tímar og sérhvört tilfelli, sem oss á þeim mæta mun, er innilukt undir forsjónar hönd þess almáttuga, hañ hefir svo náqvæm afskipti af högum vorum, ad eckért vort höfud-hár kann ad skérdast án hans vilja, og svo er hañ máttugur, ad móti hans makt fær engiñ stadid; þessi almáttugi Gud, sem vakir yfir velferd vorri, hann er, fyrir Krist, vor forlíkadi Fadir, og elskar oss med ómumrædilegum kjærleika, sem sín börn; hann hefir med vísdómi og

gædsku

gædsku áqvardad þad, sem á þessu Sumri á oss ad mæta, en hvad hellst, sem þad verda kañ, hlýtur þad undir hans stjórnun ad þéna til eblíngar luckuvorri og velferd. Þó er þess eckl ad vænta, ad þad, sem Guds alvísa rád áqvardad hefir ad vid oss skuli framkoma, á þessu Sumri, svari ætíd til vorra óska, því vér, fávísar mannsképnur, vitum sjaldan hvad oss er fyrir bestu, vér litum optast-nær einúngis til þess nálæga, og óskum oss þess, sem auka megi vora nærverandi ánægju og gledi, án þess ad ígrunda hitt, hvørsu hollt oss munl þad verda fyrir seinni tímana; en sá alvísi, sem lengra sjer framm í veginn enn vér, sem betur sjer hvad oss hentar enn vér, hann útbýtir oss því einu, sem hann sjer oss heilladrjúgast bædi í lengd og í bród. Oss skal því ecki undra, þó lucku-óskir þær, sem vér í dag gjørum oss, rætist ecki ad ølu leiti á þessu Sumri, þó ad sá harmandi fái ecki ætíd raunaléttir þannig og á þeim tíma, sem hann æskir sér; þo ad fyrirtæki vor heppnist eckl øll eptir vorri tilstofnun, þó ad luckunnar umbreytíngar mæti oss þær, sem oss kunna ad vera óþægar; nægi oss hitt, ad vér erum

erum þess fulltrúa, ad hvad hellst, sem vor gódi almáttugi fadir hefir áqvardad vid oss framkoma skuli i Sumar, hlýtur ad þéna oss til gods, ef ad vér tökum því, sem hans rádstöfun; mæti oss þá eitthvört motlæti á Sumri þessu, sjer hann oss þad hollara enn medlætid, hañ sjér oss þá sjúkdomiñ heilsusamlegri enn heilbrygdi, örbyrgd heldur enn nægtir, sorg heldur enn gledi, líf heldur enn dauda, láti hann þetta heldur enn annad verda vort hlutfall; og þessi trú til vors Guds um nidur-rödun og áqvördun ókominna tilfella vorra, fær gjört oss óqvídna og örugga fyrir hvörju hellst, sem oss mæta kañ á ný-byrjudu Sumri. Med þessa trú, sem grundvallar sanna mannlega lucku, ánægju og rósemi i lífi þessu, megum vér á þessum fyrsta Sumardegi óska hvörr ödrum til lucku, og vænta oss nægra heilla af henni Sumarid út, og allar vorar ókomnu æfistundir. Mæti mér, segi því sérhvörr af oss styrktur vid þessa trú, á þessu Sumri hvad hellst mæta vill, allt mun þad adbera eptir rádi míns Guds; látum vera, ad þad sé hulid fyrir mínum augum, látum vera, ad þad sýrdst kunni á móti áformi mínu

og

og óſkum, engrar ſkal þad abla mér á-
hyggju, því eg veit ad allt hvad vid mig
framkémur, ſkédur ad rádi þeſs alvíſa
og góda Guds, ſem er minn e'ſkulegur
fadir, og ſjá mun betur fyrir rádi mínu
enn ſjálfur eg. Hans rádſtofun og veg-
leidſlu vil eg, rétt eins og barnid, á hend-
ur fela mig og allt mitt rád; eg vil fylg-
ja honum, hvort ſem hann kallar mig,
eg vil trúa honum til þeſs, ſem hann
hefir lofad mér; eg vil lída þad, ſem hann
leggur á mig; því eg er þeſs fulltrúa,
ad hvør helſt luckn-kjør, ſem mér mæta,
þo mér finnaſt megi þau ógédfeld, munu
undir hans ſtjórnun verda medal til minn-
ar velferdar; á mótlætingunum, þo eg
ætti ad lída þær þúngbærar, heſir hann
heitid mér vegſamlegum enda; mína gjør-
valla jardneſka luckn þetta Sumar út,
veit eg minn alvíſa fodur hafa þannig
fyrirhugad, ſem mín eilífa velferd út-
krefur; rólegur vil eg því og óqvídinn
vænta þeſs, ſem hann ályktad hefir ad
vid mig ſkuli framkoma; og í trú til hans
forſjónar halda áfram á mínum lífsvegi.
En ef ad vér viljum nú vænta oſs þeſs,
ad þvílíkt trauſt til Guds gjori líf vort
luckulegt, í hvørjum hellſt tilfellum,
ſem

sem á því mættu adbera, verdum vér ad ástunda af fremsta megni, ad lifa eptir hans bodum; til þess, ad innræta hjá oss þad áform, einsetjum vér oss nú á fyrsta Sumardagiñ, eptirfylgjandi lífsreglur, sem vér trúlega viljum vardveita Sumarid út:

1.) Eg vil med hreinu hjarta og ráðvøndu framferdi framgánga þetta Sumar, eins og fyrir augum alsjáanda Guds, leynt og ljóst; med ordum, gjørdum og hugrenníugum varast nockurn tíma ad styggja hann, en af fremsta megni taka mér fram í því góda; engum vil eg gjøra skada, heldur stúdla til svo mikils góds, lucku og gledi ødrum, sem eg er megnugur um; þá mun samvitska mín hughreysta mig og gjøra mig rósamañ, þó eg reyna ætti eitthvad mótdrægt, med því, ad bera mér vitni, ad eg ecki er valdur af egin mótlæti mínu.

2.) Øll leyfileg medøl vil eg á Sumri þessu brúka, til ad efla med lucku mína og velgengni. Med forsjálni, ydjusemi og trúskap í minni stétt, fæ eg marga hættu umflúid, og mikid gjørt til eflíngar luckn minni og ánægju; þegar eg gjørt hefi allt hvad mér er møgulegt, kañ eg rólegur ad

af-

afhenda Gudi á vald útfall athafna miña, sem sjá mun fyrir því mér til besta.

3.) Samt sem ádur skal aldrei nagandi búksorg né ágirndar ergja ná rætur ad festa í hjarta mínu; aldrei skal eg því á þessu Sumri, né endrarnær, leitast vid ad bæta mín luckukjør med óleyfilegum hætti eda útvegum; optastnær verdur hvílík ad-ferd og omak til ólucku, og þó mér heppnast kyñi ad fá þad, sem eg sækist eptir, veit eg mig samt ad engu luckusælli vid þad. Máské sú lucka, er eg ákafast sæki eptir, olli mér á sídan hvad mestrar sorgar, og verdi tilefni til miñar egin fordjørfunar; eg vil því bidja Gud, ad úthlúta mér því einu, er hañ sjálfur sjer mér hentast, hvorki vil eg bidja um fátækt né ríkdóm, heldur um ánægt hjarta, med hvad helst, sem hann géfur mér.

Þegar vér festum oss nú þegar í hjarta þessar lífs-reglur, og fylgjum þeim trúlega, høfum vér þar um grundada von, ad þetta Sumar muni oss farsælt og blessad verda; þér, vor eilífi miskunsami fadir! fulltreystum vér til þess, ad leida oss luckusæla; þiñi guddómlegu forsjón og fødur kjærleika, felum vér á vald líf vort og sálu, og øll vor efni á Sumri þessu;

vard-

vardveittú oss frá allri ólucku; verndadú oss frá øllum háskasemdum á sjó og landi; blessadú øll vor fyritæki; géfdú oss ánægt hjarta med alla þína rádstofun, og láttú allt þad góda, sem þú á Sumri þessu útbýtir oss, hvetja oss til ad elska þig æ meir og meir, og ástunda, sem vora ædstu luckn, af øllum kroptum ad þócknast þér. Þegar þú, vor Gud! vardveitir þessa þánka í sálu vorri, lifum vér gladir í voniñi um þad, ad hvørjar helst luckunnar umbiltíngar, sem oss mæta, munir þú leida oss í gégnum þær og øll tíma-skipti, eptir þínu gædskurika rádi, og medtaka oss loksins, á hæfilegri tíd, þángad, sem engin tímanna umbreytíng verdur framar.

